# JARÐATAL

Á

# ÍSLANDI,

MEÐ BRAUÐALÝSÍNGUM, FÓLKSTÖLU Í HREPPUM OG PRESTAKÖLLUM, ÁGRIPI ÚR BÚNAÐARTÖFLUM 1835—1845, OG SKÝRSLUM UM SÖLU ÞJÓÐJARÐA Á LANDINU.

---

GEFIÐ ÚT AF

**J. JOHNSEN,**

ASSESSÓRI Í LANDSYFIRRÈTTINUM.

**KAUPMANNAHÖFN.**

Prentað hjá S. Trier.

1847.

# Formáli.

Bók þessi mun þykja þess eðlis, að eigi sè vanþörf á, að eg fari nokkrum orðum um tilgáng minn, er eg fór að taka hana saman, og hvernig hún er orðin til, eins og nú er komið.
Skömmu eptir að eg var búinn að gefa út Hugvekju þá, um þínglýsíngar, jarðakaup, veðsetníngar og peníngabrúkun á Íslandi (Kpmh. 1840), sem landar mínir nú þekkja, kom mèr til hugar, að útvega þeim lýsíngu á jörðunum, er hvervetna gæti verið til lèttis, er jarðir væri seldar eða veðsettar, og þannig studt að tilgángi mínum með Hugvekjuna. Á öndverðu árinu 1842 fór eg þess því á leit við Rentukammerið, að stjórnarráð þetta útvegaði mèr skýrslur: *a)* yfir allar jarðir í hreppi hverjum á landinu, dýrleika þeirra, landskuldargjald og innstæðukúgilda-tölu, eins og nú er ástatt, hverjar jarðir nú væri konúngs, kirkna, spítala, fátækra, eða bænda eignir, og hverjar bænda eignir eigendur sjálfir hefði til ábúðar og hverjar leiguliðar, og um ábúenda tölu jarðanna, svo og hverjar bænda eignir áður voru eignir biskups stólanna; og *b)* um sölu konúngs og stóls eigna á landinu, kúgilda tölu á þeim, er þær voru seldar, og um kaupverð þeirra og kúgildanna. Rentukammerið reit mèr þarnæst 23. Maí 1843, að amtmenn væri beðnir um, að fá hjá sýslumönnum hreppaskýrslur þær, sem eg hafða óskað, þó þannig, að stjórnarráðinu eigi þókti það vinnanda, að fá skýrslur um landskuldar hæð eða kúgilda tölu á hverri jörðu, en það hafði í þess stað lagt fyrir, að sýslumenn skýrði frá vanalegum leigumála á meðaljörð í hreppi hverjum, en sjálft sendi það mèr skýrslu þá, er eg hafði mælzt til, um sölu konúngs jarða frá árinu 1760 til enda ársins 1842, og var eg um leið hvattur til að birta almenníngi skýrslurnar, eða þá aðalatriði þau, sem mèr þækti mest um varða.
En þegar eg fór að hugsa þetta efni enn ýtarlegar, fannst mèr í mörgu tilliti áríðanda, að setja áformi því, er eg frá upphafi hafða, töluvert rýmra mark og mið. Mèr þókti það eigi aðeins áríðanda, að vita nokkuð gjör um, hvernig jarðaeignum er skipt millum eigenda og ábúenda í bygðarlagi hverju,

heldur líka í mörgu tilliti mikils vert, að komast eptir fólkstölu í minni og stærri bygðarlögum, hreppi, prestakalli, sýslu og amti hverju, því, eins og amtmenn, presta, sýslumenn og hreppstjóra opt varðar það nokkru, að vita um hag og ástand umdæma þeirra hvers um sig, í þessu efni, svo hèlt eg það og hverjum þeim, sem hugsa um eigið gagn og annara, og veita fèlagi því eptirtekt, sem þeir lifa í, ómissanda, um leið og þeim, sem hafa tekjur nokkrar af jörðunum, t. a. m. hreppstjórum fyrir hönd enna fátæku, prestum fyrir hönd sjálfra sín og kirknanna, og bændum, sem eiga eða kaupa bænda kirkjur, er skýrt frá, hvaða og hverra eign sèrhver jörð er og hve mikil að dýrleika, í prestakalli hverju, hreppi og kirkjusókn, auk þess, að þetta er hverjum þeim mjög áríðanda, sem vill eða þarf að grennslast eptir kjörum presta í hverju brauði, sem er á landinu, og þurfa menn þá einkum líka að vita nokkuð gjör um ástand brauðanna að öðru leiti, hvernig prestsetrum er varið, hverjar kirkju- eða lènsjarðir fylgja brauðinu, og hvernig þær byggjast nú á tímum og hve háfar aðaltekjur prestsins eru hjá sóknamönnum, og þá einkum presttíund af föstu og lausu, heytollar og dagsverk, og loksins offur og aukatekjur, þar sem nokkuð kveður að þeim og eigi er hægt að ætla á þær fyrir hvern þann, sem nokkuð þekkir til um þær yfirhöfuð í landinu.

Eg gat því aðeins ráðizt í, að koma mönnum í góðan skilníng um allt þetta, að biskup lèði mèr lið með brauðaskýrslum þeim, sem eg vissa að hann safnaði frá prestum um land allt árið 1839, og þar að auki með fólkstölulistum þeim, sem prestar eru vanir að senda honum við hvers árslok, og er þar tilgreindur bær hver í prestakallinu og fólkstala á honum. Fólkstölulistar þessir urðu mèr líka í öðru tilliti ómissandi, til þess að geta notað skýrslur þær, er eg fèkk annarstaðar, með gætni þeirri og nákvæmni, sem þörf krafði; því þó að engum verði álasað, gat samt eigi hjá því farið, að vart yrði við ónákvæmni og vangá í hreppaskýrslunum, enda þó sýslumenn sjálfir annaðhvort hafi samið þær, eða þá þó gjört þær athugasemdir við þær, sem þeim hefir þókt þurfa; en frá Árnes og Skagafjarðar sýslum eru mèr sendar skýrslurnar, eins og þær eru komnar frá hreppstjórunum, og má eins um þær segja, að verkið sè af hendi leyst með alúð, en þó þannig, eins og von er á í þesskonar skýrslum yfirhöfuð, að brestir sè á nokkrir, enda hefir Konferenzráð Thorsteinson, einn amtmannanna, reynt til að bæta úr þeim hèr og hvar í Vesturamtinu.

Eg kaus lista prestanna yfir fólkstal þann 31. Decbr. 1842, helzt vegna þess, að mèr þóktu þeir enir fullkomnustu af þeim, sem eg hafða um að velja, um það árabil, sem mèr þótti eiga bezt við (1840—1845), og hefi eg sagt frá fólkstali

eptir þeim, bæði í prestakalli hverju (í brauðlýsíngunum) og hreppi hverjum, við enda jarðatalsins í hverri sýslu; en, til að geta sagt frá fólkstali í hverjum hreppi, varð eg að hafa fyrir mèr bæði hreppalistana og fólkstölulista prestanna, og að skipta fólkinu á bæjunum niður á hreppana (þar sem hreppaskil eru önnur enn sókna, og er það eins og menn vita, víðast hvar) jafnóðum og bæirnir koma fyrir í jarðatalinu, og var þetta hvorki lítið vandaverk nè heldur hægðarverk, ef satt átti að segja frá og rètt (um fólkstöluna í hreppunum), en það ætla eg að nú sè gjört allstaðar.

Við jarðatalið sjálft hefi eg haft þá aðferð, að eg, auk fólkstölulista prestanna og hreppalista sýslumanna og hreppstjóra, hefi haft fyrir mèr jarðabækurnar, svo og bækur þær, sem innihalda jarðamat það, sem fór fram á Íslandi eptir aldamótin seinustu, 1802—1806, og eru bækur þessar, þegar einhvers er getið eptir þeim í athugasemdunum, kenndar við ár það, sem hver þeirra um sig er löggildt á til jarðamatsins. Bæjaröð hefi eg yfirhöfuð fylgt þeirri, sem sýslumenn eða hreppstjórar hafa við í hreppalistunum, og mun röð sú optast nær vera eptir boðleið vanalegri; þó hefir mèr fundizt fara bezt á því, að telja hjáleigur allar strax á eptir heimajörðunni, án tillits til, hvernig þær liggja við í bæjaröð sýslumanna, enda hefir mèr á einstöku stöðum riðið á, að víkja nokkuð frá henni, þar sem eg sá, að mèr annars yrði hætt við að hlaupa yfir einhverja jörð, eða láta nokkurrar jarðar, sem jarðabækurnar herma um, ógetið. Um dýrleika jarðanna, landskuldar hæð og kúgilda tölu hefi eg farið eptir jarðabók landfógeta Skúla Magnússonar frá 1760, en þar sem hún eigi greinir frá dýrleika jarðanna, en það gjörir hún eigi á Hóla stóls jörðunum, hefi eg talið dýrleikann í dýrleika dálkinum þann, sem jarðabók Árna Magnússonar, sem samin er 1702—1714 af þeim Prófessor Árna Magnússyni og lögmanni Páli Vídalín, hefir á jörðunum, og hefir hún frá upphafi verið til fyrir allt land, en eptir eru nú aðeins 15 þykkir partar í arkar broti, en 4 halda menn hafi brunnið í húsbruna Kaupmannahafnar 1728, og voru þeir partarnir, sem fórust, fyrir Múla og Skaptafells sýslur, enda vantaði líka þessa jarðabók fyrir Barðastrandar sýslu, þángað til Skúli Magnússon gróf handrit til hennar upp í bókasafni A. Magnússonar, og færði hana í lag 1777. En þar sem hvorug þessara jarðabóka greinir frá dýrleikanum, og gjöra þær það eigi frá dýrleika Skálholts stóls jarða í Árnes og Gullbríngu sýslum, er hann tekinn í dýrleika-dálkinn eptir jarðabók biskups-stóls þessa, sem var samin og prentuð áður enn farið var að selja jarðirnar, og læt eg það óvíst, hvort máske hefði verið rèttara að telja dýrleika á öllum Skálholts stóls jörðum, sem áður voru, eptir þessari jarðabók, eins og

hann líka er talinn sá sami í afsalsbrèfum konúngs fyrir jörðunum, og enn líka víðast hvar mun vera hafður við í viðskiptum manna um þessar jarðir allar; en í þess stað hefi eg þó aðeins í athugasemdum skýrt frá, hver hann sè á jörðum þeim, sem dýrleiki er á eptir jarðabók 1760. Sömuleiðis er í athugasemdunum jafnan greint frá, þegar á milli ber dýrleika jarðabóka þessara og þess, sem sýslumenn og hreppstjórar telja á jörðunum, hvort heldur hann er hærri eða lægri (og verður eigi sagt, hvort optar kemur fyrir) enn sá, sem á þeim er eptir jarðabókunum, eins líka þegar prestar skýra frá dýrleika á prestsetrunum eða lènsjörðum þeirra; enn fremur þegar annar er sagður dýrleiki við jarðamatið, enn í jarðabókunum, en þá er af hlutaðeigendum skýrt frá honum, eins og hann var haldinn og hafður við á jörðunum, þegar matið fór fram eptir aldamótin. Í athugasemdunum er líka vikið á, þegar dýrleiki jarða þeirra, er konúngur hefir átt, er annar, eptir jarðabók þeirri, sem samin var yfir konúngs eignir á landinu árið 1639; enn fremur ef dýrleiki jarðanna, eptir jarðabók þeirri, sem var samin 1696 (eða 1695) yfir allar jarðir, eigi er hinn sami, sem enar seinni jarðabækur, er nú var getið, hafa á þeim, og sömuleiðis eins, þegar jarðabók 1760 og A. Magnússonar ber á milli um dýrleikann, og er hann þá í dýrleikadálkinum talinn eptir enni fyrrgreindu. Annars er það alkunnugt, að mat jarða til dýrleika aldrei hefir farið fram á Íslandi fyrr enn eptir aldamótin seinustu (eptir kon. úrsk. 18. Júní 1800), heldur er dýrleiki sá frá upphafi orðinn á jörðunum, sem lagður var til grundvallar, er farið var að tíunda þær, á elleftu öld og úr því, en hann gekk nokkuð upp og niður, er hann hlaut að fara eptir fènaðarhöldum til hvers tíma á jörðunum. Að segja frá mati því til dýrleika, er sett var á jarðirnar eptir aldamótin, þókti mèr lítils varðandi, er allir munu vera samdóma um, að það nú megi álítast fráleitt því sem er eða vera ber, og hefi eg því aðeins við yfirlitið yfir jarðatalið skýrt frá tölu jarðarhundraða, sem urðu við matið í hverri sýslu*.

Þareð jarðamatsbækur þær, sem nú voru nefndar, nákvæmlega skýra frá við sèrhverja jörð, hver á þeim búi, og hvort þeir sè eigendur jarðanna eða leiguliðar á þeim, hefi eg getið þess í skýrslunum á eptir jarðatali sýslu hverrar, um leið og sagt er frá vanalegum leigumála og fólkstali í hreppunum, hve mörg voru bygð ból í sýslunni og hve margir búendur, og meðal þeirra sjálfseignar-bændur, þegar matið fór fram, og er í mörgu tilliti eigi ófróðlegt, þannig að geta

*) Sjá um jarðabækurnar og jarðamatið Thorsteinson »*om de islandske Afgifter*», Kh. 1819, bls. 1—13.

borið ástand bygðarlaganna í þessum efnum saman, þá og nú á tímum.

Frá landskuldar hæð og kúgilda tölu á jörðunum* er skýrt (í landskuldar- og kúgilda-dálkunum), einkum af því það þókti geta orðið til upplýsíngar um ástand og gæði jarðanna á fyrri tímum, og var líka að því leiti til stuðníngs við yfirlit það, sem mèr þótti nauðsynlegt og í mörgu tilliti gagnlegt að hafa yfir jarðatalið, sem nokkrar eru jarðir á landinu, og þær eigi allfáar, sem hvorki fyrr nè seinna segir frá dýrleika á. Annars má þess geta um leigumála þenna, að hann allstaðar er hafður eptir jarðabók 1760, þar sem hann er tilgreindur á jörðunum í henni, eptir skýrslum þeim, sem Skúli Magnússon fèkk um hann frá sýslumönnum 1753 og 1759 (er leggja átti á tollinn til tukthússins), en á hjáleigunum sèr segir jarðabók þessi sjaldnast frá leigumála, en þar á móti Árni Magnússon, og er hann á þeim hafður eptir honum, nema þegar það ber við, að hann (á þeim) líka er tilgreindur af Skúla Magnússyni, og er, þegar svo er, skýrt frá í athugasemdunum, að leigumálinn sè hafður eptir honum á hjáleigunum. Eins þókti það líka ómaksins vert, að láta upplýsíngar þær um leigumálann, er eg fèkk í einstöku hreppaskýrslum og um einstöku jarðir, koma fram í athugasemdunum, þegar hann var annar enn sá, sem Skúli Magnússon eða A. Magnússon segja á jörðunum, auk þess, sem brauðlýsíngarnar innihalda, um leigumálann á lènsjörðum prestanna; og er það hvorki nè getur verið tilgángur minn með þessum upplýsíngum, að setja nokkrum reglu með þeim, um leigumála jarðanna nú um stundir.

Annars er í brauðlýsíngum þessum farið svo nákvæmlega eptir brauðskýrslum prestanna, þeim sem áður var áminnzt, sem varð, og hefi eg, þegar eg hefi verið í nokkrum efa um þýðíngu innihaldsins hjá prestunum, jafnan haft sömu orðatiltæki, sem þeir hafa við sjálfir, um tekjur, hlynnindi og annmarka prestakallanna, eins og eg líka hefi skýrt frá um brauða útgjöldin, til uppgjafa-presta og fátækra presta ekkna, eins og þeir, þó eigi komi það ætíð sem bezt heim við ákvarðanir þær, sem þar að lútandi eru til; en með tilskipun 14. Febrúar 1705 átti að leggja uppgjafaprestum, í góðum og gildum landaurum

a. af *brauðum í Suðuramtinu:*

| | |
|---|---|
| Stafafelli (bls. 16) . . . . . . . | 40 al. |
| Holti (bls. 47) . . . . . . . . . | 80 — |
| Breiðabólstað (bls. 49) . . . . . | 150 — |
| Odda (bls. 51) . . . . . . . . . | 100 — |
| Gaulverjabæ (bls. 79). . . . . . | 60 — |

*) Sjá Thorsteinson s. st. bls. 143—156.

Hruna (bls. 80) . . . . . . . . . 60 al.
Görðum (bls. 103) . . . . . . . 60 —
Melum (bls. 119) . . . . . . . . 40 —
Reykholti (bls. 120) . . . . . . 60 —

b. *í Vestur amtinu:*

Stafholti (bls. 138) . . . . . . . 60 —
Hítardal (bls. 139) . . . . . . . 100 —
Staðastað (bls. 159) . . . . . . . 150 —
Setbergi (bls. 161) . . . . . . . 80 —
Selárdal (bls. 190) . . . . . . . 80 —
Holti (bls. 207) . . . . . . . . . 60 —
Vatnsfirði (bls. 209) . . . . . . 80 —
Stað í Grunnavík (bls. 210) . . 40 —
Stað í Steingrímsfirði (bls. 219) 40 —

c. *í Norður amtinu:*

Staðarbakka (bls. 247) . . . . . 30 —
Melstað (bls. 248) . . . . . . . . 90 —
Breiðabólstað (bls. 249) . . . . . 60 —
Grímstúngum (bls. 250) . . . . 15 —
Höskuldstöðum (bls. 252) . . . 30 —
Glaumbæ (bls. 280) . . . . . . 40 —
Mælifelli (bls. 280) . . . . . . . 15 —
Miklabæ (bls. 281) . . . . . . . 20 —
Völlum (bls. 310) . . . . . . . . 60 —
Hrafnagili (bls. 311) . . . . . . 20 —
Saurbæ (bls. 313) . . . . . . . . 40 —
Laufási (bls. 333) . . . . . . . . 60 —
Grenjaðarstað (bls. 336) . . . . 100 —
Múla (bls. 337) . . . . . . . . . 80 —
Sauðanesi (bls. 349) . . . . . . 10 —
Hofi (bls. 364) . . . . . . . . . 90 —
Kirkjubæ (bls. 365) . . . . . . . 80 —
Valþjófstað (bls. 366) . . . . . . 70 —
Vallanesi (bls. 382) . . . . . . . 100 —
Skorastað (bls. 384) . . . . . . . 30 —
Hólmum (bls. 384) . . . . . . . 30 —
Kolfreyjustað (bls. 385) . . . . . 40 — og
Heydölum (bls. 386) . . . . . . 100 —

eða þá í peníngum, 5 al. á 1 mark specie, en eptir að búið var að meta brauðin að tekjunum til árið 1740, eru þau orðin fleiri, sem greiða eiga tillag til uppgjafa-presta. Aptur á móti var 5. Júní 1750 tilskipað af konúngi, að fátækum ekkjum presta af brauðum þeim enum beztu, sem konúngur veitir sjálfur, skyldi leggja 1 rd., af þeim, sem eru metin lægra enn 100 rd., en þó yfir 50 rd., 4 mk., af brauðum milli 40 og 50 rd., 3 mk., og af þeim, sem eru milli 30 og 40 rd., 2

mk. specie, þegar ekkja eigi er í brauðinu; prestar áttu þar að auki að greiða tillag til ekknanna, er þeim eru veitt brauðin, og var það ákveðið 2 rd. specie fyrir veitíngu konúngs, 1 rd. fyrir veitíngu brauðs, sem hann staðfestir, ef það er af enum betri, en 3 mk., sè það af þeim minni, en kalli stiptamtmaður án staðfestíngar konúngs prestinn, á hann að greiða 1 rd. Cróner ekkjunum til uppheldis, ef brauðið eigi er metið minna enn 30 rd., annars eigi. Þar að auki greiða nú prestar (eptir öðrum ákvörðunum) til ríkissjóðsins mest 28 rd. 3 mk. fyrir veitíngu konúngs til enna beztu brauða, og að því skapi fyrir staðfestíngu hans á veitíngu stiptamtmannsins til brauða þeirra, sem eru metin á 40 rd. eða þar yfir (sjá kon. br. 29. Janúar 1740). Um »pensión» ekkna af brauðunum var það líka ákveðið 5. Júní 1750, að þær af brauðum þeim, sem konúngur veitir, skyldu hafa til uppheldis $\frac{1}{8}$; af hinum, sem metið er að hafi meir enn 60 rd. árstekjur, $\frac{1}{10}$; og af þeim, hverra árstekjur eru 50—60 rd., $\frac{1}{12}$ hluta af tekjum þessum enum vissu, og mega ekkjurnar (meðal lènsjarðanna) velja sèr þá bújörð, er þeim þykir bezt tilfallin, og gengur þá jarðargjaldið uppí »pensión» ekkjunnar, þar sem hún nýtur hennar, eins og nú var sagt. Með tilliti til þessara ákvarðana þókti mèr eiga vel við, að greina frá mati brauðs hvers í brauðalýsíngunum, því, sem ákveðið var með kon. br. 29. Janúar 1740, þó lángt sè frá, að það samsvari ástandi brauðanna og tekjum þeirra, eins og högum nú er orðið varið við hvert þeirra um sig. Að því leiti sem prestum í Norður-amtinu, eptir brèfi háskóla- og skólastjórnarráðsins til stiptsyfirvaldanna frá 23. Júlí 1842 og konúngsúrskurði 24. April 1816, nú er bætt mata sú upp úr jarðabókarsjóðnum, sem þeir mistu við sölu stólsjarðanna, hefi eg einnig í brauðalýsíngunum skýrt frá því, einsog yfirhöfuð frá öllum þeim tekjum, fyrir utan offur og aukatekjur, hlynnindum, göllum og útgjöldum við brauðin, sem prestar sjálfir segja frá, svo nákvæmlega sem eg gat; þó þókti mèr síður eiga við, að greina frá útgjaldi prestanna fyrir aðhlynníng á kirkjustöðunum, sem mun fara eptir venju og samkomulagi á hverjum stað, en optast virðist gánga upp móti prestgjaldi kirkjubónda, enda skýra fæstir prestar frá þessum kostnaði, og sömuleiðis fæstir frá gjafarkostnaði eldishesta, er þeir þurfa að halda.

Þar sem sóknaskil hafa verið svo óljós eptir fólkstölulistum prestanna, að eigi hefir orðið sèð með fullkominni vissu, hver þau sè, hefi eg getið þess í athugasemdum við brauðlýsíngarnar: en vegna þess, að mèr þótti bæði prestum og kirkna eigendum áríðanda, að vita, hverir bæir sè í sókninni, hefi eg þó allstaðar skýrt frá því, eptir sem eg hefi getað komizt næst, ef eg eigi (af tèðri orsök) gat sagt það með vissu;

þar á móti má (af brauðlýsíngunum) komast að fullri raun um, hverjir bæir heyri undir prestakall hvert, og er prestum, er þeir sækja um brauð, þetta eigi hvað sízt áríðanda, er þeim undir eins er lagt fyrir sjónir, hvers kyns eignir jarðirnar í prestakallinu sè, og er það, með tilliti til tíundarfrelsis þess, sem stólseignirnar gömlu enn njóta, gefið til kynna við hverja jörð, með merkinu †, ef hún áður var stóls jörð, og er sama að segja um þörf á þessu fyrir hvern annan, sem tekur jarðar tíund; og þareð eg átti eins hægt með, að gjöra uppskátt við hverja jörð, ef hún áður var meðal klaustra eða konúngs eigna, sem hafa verið seldar síðan 1760, gjörði eg það lika, með merkinu *, við þessar jarðir, en í öðru tilliti þókti mèr það nokkurs varðanda, að skýra frá, við konúngs jarðirnar, sem eptir eru óseldar, undir hvaða umboð þær heyri, hver um sig.

þareð fólkstölulistar prestanna, sem eg þannig hefi haft stuðning af, allir voru eldri, enn hreppaskýrslur sýslumanna og hreppstjóra (sem eru samdir 1843—1846 og flestir á árunum 1844—1845, og er þess getið annaðhvort á eptir jarðatali hverrar sýslu eða í leiðrèttíngunum, hvert árið hreppalistarnir eru samdir, meðal annars með tilliti til ábúðar jarðanna) varð eg, um byggíngu jarðanna og ábúð, að fara eptir þeim seinni, og það lika vegna þess, að eigi er sagt frá í fólkstölulistunum, hvort heldur býli þau, sem þar er talið fólk á (31. Decbr. 1842) eru meðal jarða (eða grasbýla), eða þá tómthúsa eða þurrabúða (við sjáfarsíðuna), en í hreppaskýrslunum eru aðeins talin ból þau, sem hafa grasnyt, og önnur vilda eg eigi telja í jarðatalinu; en af því eg þó ástundum hefi orðið var við, að hlaupið var yfir jarðir, hjáleigur og grasbýli í hreppaskýrslunum, hefi eg þó eigi að síður talið þau með, ef þau voru talin bygð í fólkstölulistum prestanna, en þó þá því að eins að þau finnist i jarðabók einhverri, eða þá í jarðamatsbókunum eptir aldamótin, talin með jörðum, er eg annars óttaðist fyrir, að telja þau býlin með jörðum, sem í raun og veru eru tómthús, og eg ætlaði mèr að sneiða hjá, og hefir víðast hvar staðið svo á hreppaskilum, að þess eigi gætti með tilliti til fólkstölu hreppanna, hvort heldur býli þau (jarðir og tómthús), sem prestar telja, eru meðal jarða eða tómthúsa. Aptur á móti hefi eg talið býli þau öll með jörðum, sem prestar og sýslumenn eða hreppstjórar báðir nefna, þó eigi segi frá þeim í jarðabókunum, en þegar hvorugur nefnir jarðirnar, er þeirra aðeins getið í athugasemdunum, ef þeirra er getið í jarðabókunum, er eg þá hefi orðið að álíta þær lagðar í eyði; en sè útaf þessu brugðið, er sagt frá, hvers vegna.

því má nærri geta, að eg eigi hefi getað samið jarðatalið eptir þeim mörgu skýrslum, er eg varð að hafa fyrir mèr

allar í einu, aðstoðarlaust, heldur hefi eg orðið að halda mann mèr til styrktar, sem gjörði handritið, einsog eg las fyrir, eptir skýrslunum og jarðabókunum, og höfum við þarnæst, þegar lokið var sýslu hverri, borið handritið svo nákvæmlega, sem unnt var, saman við skýrslurnar og einkum jarðabækurnar; og þareð mjög er hætt við, að tölustafir detti eða raskist undir prentuninni, hefi eg orðið að auka á mig fyrirhöfn þeirri, að bera allt saman á eptir að búið var að prenta, við handritið og jarðabækurnar, á sama hátt, og undireins og eg varð prentvillu nokkurrar, vangár eða skorts var, að auka við leiðrèttíngum þeim, sem bók þessi endar með, og hefi eg í þeim kappkostað að bæta úr því, sem mèr eptirá þótti vanta, einkum um að skýra frá öllum eyðijörðum og eyðihjáleigum þeim á landinu, sem jarðabækurnar, og einkum jarðabók A. Magnússonar, greina frá, enda varð mèr það í fyrstu á, að eg eigi allstaðar sagða svo ýtarlega frá þessum eyðibólum, sem mèr þókti óskanda, en eg byrjaði, einsog sjá má af leiðrèttíngum þessum og viðauka, í Suðuramtinu.

Sumum kann að þykja nokkuð ótrúlegt, að eg hafi leyst verk þetta af hendi á eigi lengri tíma enn eg hefi haft til þess, frá því um nýjárs-leitið, en bæði ber til þess, að svo lángt er komið, að eg fyrirfram sá um, að búa mig svo út, bæði frá Íslandi, og líka með skýrslum þeim, sem eru fáanlegar í Rentukammerinu, auk jarðabókanna, að eigi yrði nein viðstaða á verkinu, er eg væri byrjaður á því, og líka er það rauplaust, þó eg segi, að eg hafi lagt mig til við það í alla staði og brúkað vinnutímann með öllu því fylgi, sem eg átta kost á. Eigi að siður hefði eg á þessum tíma enganveginn komizt alla leið, hefði ekki landi vor, kandidat Jón Sigurðsson lètt undir með mèr, meðal annars með því, að ljá mér útdrætti þá, sem hann, í öðru skyni, var búinn að gjöra af jarðabókunum yfir allt land, og hafa þeir verið mèr til stuðníngs að því leiti einkum, sem eg, með þá í höndunum og augun um leið á jarðabókunum og hreppaskýrslunum o. s. frv., fljótt hefi getað fundið jörð hverja í jarðabókunum, og er það þannig orðið eigi siður honum enn mèr að þakka, að bók þessi nokkurntíma kom út, þareð það bæði varð að vera hèr í borginni, þar sem náð varð til hjálparmeðala annara, og líka á meðan eg átti kost á að vera hèr að heiman; og er það á hinn bóginn eins biskupi herra Thordarsen að þakka, að eg gat leyst verk þetta af hendi, með þeim hætti sem orðið er, með aðstoð bæði brauðlýsínga og fólkstölulista þeirra, sem hann svo fúslega lèði mèr til þess híngað. — Þó sagt sè frá jarðatölu, búenda, sjálfseignar bænda (eptir sýslumönnum og hreppstjórum) og fólks (31. Decbr. 1842) í hreppi hverjum og sýslu að framan, þókti mèr samt áríðanda að hafa yfirlit yfir allt þetta, og

einkum yfir dýrleika jarða (eptir jarðatalinu) í hreppi hverjum, sýslu og amti, á einum stað, og það þannig, að sjá mætti jöfnuð ámilli dýrleika á beneficiis og lènsjörðum presta, konúngsjörðum, bændaeignum og fátækra og spítala eignum, í hreppum, sýslum og ömtum innbyrðis; og var það eigi alllítil fyrirhöfn, að semja yfirlit þetta, svo vel færi og rètt, en þeirri fyrirhöfn ætla eg eigi hvað sízt varið.

Úr því eg á annað borð var farinn að skýra frá fólkstölu á landinu, þókti mèr því rúmi vel varið, sem brúkað er til fólkstölu í prestakalli hverju, árin 1801, 1835, 1840 og 1845, en það er dregið út úr töflusafni því (*»Statistisk Tabelværk»*), sem hèr er gjört, og haldið er áfram fyrir Danaríki, og þar í aðeins brugðið af frá töflusafninu, að fólkið eigi hèr er talið, eins og þar, í hverri sókn (sem mèr þókti síður áríðanda), heldur í prestakalli hverju, og er það, þar sem fleiri sóknir eru enn ein, talið saman eptir safninu í öllum sóknum brauðs hvers, og svo í sýslu hverri og amti, og er þar við athuganda, að sýslu skil og enda amta sumstaðar eru önnur, þegar farið er eptir skiptíngu prestakalla, enn þegar hrepparöð er höfð við, og að fólkstalan því í einstöku sýslum og ömtum eigi er einmitt sú, sem höfð er í þeim á þenna hátt, eða eptir fólkstölulistum prestanna í hverri sókn, sem eru lagðir til grundvallar, og er, þegar svo stendur á, skýrt frá því aptanvið jarðatal sýslnanna og í brauðlýsíngunum.

Þareð mèr vannst tími til að semja ágrip af búnaðartöflum landsins, þókti mèr eins það ómaksins vert, og hefi eg meðal annars þess vegna tekið svo mörg ár fyrir, sem gjört er, að það því að eins verður sèð, í hverju töflum þessum kann að vera ábótavant, til þess að þær geti lagt fyrir sjónir eð rètta og sanna um fjár-magn og hag sýslu hverrar, á hverjum tíma; en eigi var auðið að gefa skýrslu um fjártölu hreppanna, hvers um sig, eptir búnaðartöflunum.

Í skýrslum þeim, sem hèr koma fyrir sjónir um sölu konúngs og stóls jarða, þókti mèr áríðanda, að tilgreina við jörð hverja afsalsbrèf konúngs, sem eru til, eða úrskurði fyrir sölunni, einkum vegna þess, að opt ber svo undir, að menn þurfa að vita innihaldið nokkuð gjör, og að þess þá því að eins er kostur, ef vísað er á það, þar sem það er að finna, þegar afsalsbrèfin, sem opt kemur fyrir, eru farin forgörðum, og þau eigi heldur eru til í afsalsbrèfabókunum á landinu.

Þannig hefi eg í stuttu máli, en þó laungu, gjört nokkra grein fyrir, hvernig bók þessi er komin undir, og verða nú lesendur, hver um sig, að dæma um, til hvers gagns og nota hún má verða þeim, en það get eg borið um sjálfur, að enginn hefði tekið mèr fram um það, að *vilja* láta hana koma löndum mínum að liði, sem framast er kostur á, og að enginn hefði

unnið betur að þessu augnamiði, eða með meira fylgi og álúð, erfiðismunum og kostnaði, enn eg vilda vinna, og varla neinn með meiri eirð gætt þess, að frá öllu sè sagt sem sannast og rèttast, samkvæmt því, sem eg hefi haft fyrir mèr um hvað eina, hvort heldur það hefir verið samanhángandi ræða eða tölustafir, sem bók þessi mest megnis stendur saman af, og eigi ætíð er gamans verk að eiga við.

Kaupmannahöfn, 12ta dag Maí mánaðar 1847.

J. J.



# Útskýríng skammstafana.

| | |
|---|---|
| A. M. . . . . . . . . | jarðabók Árna Magnússonar. |
| al. . . . . . . . . . . | álnir. |
| be. . . . . . . . . . | bænda eign. |
| e. . . . . . . . . . . | eign. |
| eig. . . . . . . . . . | eigandi. |
| f. . . . . . . . . . . . | fiskar. |
| fd. . . . . . . . . . . | fjórðúngar. |
| fe. . . . . . . . . . . | fátækra eign. |
| j. . . . . . . . . . . . | jörð. |
| jb. . . . . . . . . . . | jarðabók. |
| ke. . . . . . . . . . . | konúngs eign. |
| kke. . . . . . . . . . | kirkju eign. |
| kúg. . . . . . . . . . | kúgildi. |
| l. . . . . . . . . . . . | leiguliði. |
| lsk. . . . . . . . . . . | landskuld. |
| v. . . . . . . . . . . . | vætt. |

Aðrar skammstafanir í bók þessari munu allar reynast hægar aflestrar.

# YFIRLIT YFIR INNIHALD BÓKARINNAR.

# SUÐUR-AMTIÐ.

## I. Skaptafells Sýslur.

### A. Austur skaptafells sýsla.

1. Bæjar hreppur.

| | dýrl † | landsk.* | kúg | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 1. Fjörður[1] †. . . . . . . be. | 12 | 0,60 | . . | 1 eig. |
| 2. Þorgeirstaðir . . . . . . be. | 5 | 0,40 | . . | 1 eig. |
| 3. Hvammur[2] . . . . . . be. | 8 | 0,80 | . . | 1 eig. |
| 4. Volasel . . . . . . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 eig. |
| 5. Krossaland[3] . . Stafaf. kke. | 6 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 6. Þórisdalur. ½ Stafaf. og ½ Bjarnan. kke. . . . . . . | 20 | 0,50 | 1 | 2 l. |
| 7. Stafafell[4]. . . . . . benef. | 26 | . . . . | . . | prestur. |
| 8. Eskifell (Brekka) } hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 9. Bygðarholt } hjál. | . . | . . . . | . . | 2 l. |
| 10. Hraunkot (Hraunsholl) } hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 11. Bær . . . . . . . . . . be. | 30 | 2,75 | 4 | 3 eig. að 14 h. og 4 l. |
| 12. Hlíð . . . . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | . . | 1 eig. |

†) Þ. e. í hundruðum og pörtum úr hundraði.

*) Fyrri talan þýðir hundruð og en seinni álnir, t. a. m. 0,80: 80 álnir, og 2,75: 2 hundruð 75 álnir.

1) Hèrmeð er 1805 talin eyðihjáleiga, Efri Fjörður, og sèst það af jarðabókunum, að jörðunni var áður fyrri skipt í Efri og Syðri Fjörð. 1805 getur hèr og um, að smáeyjar eða sker liggi fyrir landi, sem heiti Hornssker eða Lónssker. Jörð þessi var 1841 seld sem Bjarnaness umboðsjörð, og er í enni prentuðu stólsjarðabók talin 12½ h. að dýrleika.

2) 1805 er Volasel talið sem eyðihjáleiga með Hvammi.

3) Sýslumaður hleypur yfir jörðu þessa, sem eptir prests skýrslunum þó hlýtur að vera bygð.

4) Jarðabækurnar, sem eigi nefna Eskifell, heldur prestur og sýslumaður einir, telja, auk Bygðarholts og Hraunkots (sem prestur kallar Hraunsholt), Brekku og Kiðuvelli, sem hjáleigur frá Stafafelli, sem hvorki sýslumaður nè prestur geta um. Hjáleiguna Bygðarholt telur sýslumaður 12 h. að dýrleika. 1805 segir, að Stafafells kirkja eigi eyju fyrir Bæjar landi, Vigur, og sè þar lítið æðarvarp.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur. |
|---|---|---|---|---|
| 13. Reiðará[5] . . . . . . . . be. | 6 | 0,50 | . . | 1 eig. |
| 14. Svínhólar . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 1 eig. |
| 15. Vík ½ Stafaf. og ½ Einh. kke. | 12 | 1,0 | 2 | 2 l. |
| 16. Hvalsnes . . . . . . . . be. | 24 | 1,0 | . . | 1 eig. |
| 2. Bjarnaness hreppur. | | | | |
| 17. Horn[1] . . . Bjarnan. umbj. | 30 | 0,110 | 1½ | 2 l. |
| 18. þínganes . . . . . . . . be. | 16 | 1,0 | . . | 1 l. |
| 19. Hafnanes[2] . Bjarnan. umbj. | 12 | 1,0 | 2 | 2 l. |
| 20. Dilknes[3] † . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 21. Hólar . . . . . . . . . . be. | 16 | 1,40 | . . | 1 eig. |
| 22. Arnanes[4] . . . . . . . . be. | 30 | 2,20 | 1 | 2 eig. |
| 23. Bjarnanes[5] ½ † og ½ benef. | 60 | 3,0 | 14 | prestur |
| 24. Borgir (innri) } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 25. Meðalfell | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 26. Meðalfell neðra | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 27. Fornistekkur | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 28. Brattagerði | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 29. Austurhóll | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 30. Suðurhóll | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 31. Annargarður | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 32. Miðsker | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 33. Stapi | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 34. Taðhóll (Hóllinn) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 35. Háhóll (Hádegishóll) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 36. Krossbær[6] † . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 2 | 3 eig. að 9 h. og 2 l. |

5) Prestur nefnir hèr og Kallsfell, sem hvorki jarðabækurnar nè sýslumaður minnast á, og því er hèr slept.

1) Jörð þessi er í stólsjarðabókinni talin aðeins 23 h. að dýrleika.

2) Stólsjarðabókin telur jörð þessa 25 h. að dýrleika.

3) Jörð þessi, sem stólsjarðabókin telur 12¼ h. að dýrleika, var 1838 seld, sem Bjarnaness umboðsjörð.

4) 1805 er eyðihjáleiga, Borgir eystri, talin með, og er þar sagt, að á milli jarðar þessarar og Bjarnaness sè þrætuland, hvar hafa megi 25 ær og 15 sauði á útigángi, og er það metið, í dýrleika Arnaness, til 5 h. 38 al.

5) Stólsjarðabókin ein telur jörð þessa með hjáleigum alla 75 h. að dýrleika. Sýslumaður nafngreinir eigi hjáleigurnar; þær, sem presturinn kallar Taðhól og Háhól, virðast jarðabækurnar að nefna »Hólinn» og »Hádegishól». Jb. 1760 nefnir og bæði »Stapa» og »Litla Stapa», svo og »Grímshól», sem eigi er nefndur 1805. Frá dýrleika og leigumála á hjáleigunum verður eigi skýrt, er jb. 1760, eptir hverri einni verður farið þar að lútandi í Skaptafells sýslu, lætur hvorttveggja óákveðið, en segir aðeins frá því á heimajörðunni.

6) Stólsjarðabókin telur jörðu þessa alla 25 h. að dýrleika, og er hún seld 1840 (með hjáleigunni Stórulág) sem Bjarnaness umboðsjörð.

| | dýrl. | landsk. | kúg | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 37. Stóra-Lág } | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 38. Krossbæjargerði } . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 39. Setberg . . . . . Hoff. kke. | 16 | 0,60 | . . | 1 eig. að $7\frac{1}{2}$ h. |
| 40. Hoffell[7] $\frac{1}{2}$ Hoff. kke. og $\frac{1}{2}$ be. | 37 | 2,60 | . . | 1 eig. |
| 41. Svínafell . . . . Hoff. kke. | 12 | 0,80 | . . | 1 eig. |
| 42. Vindborð[8] . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | . . | 1 eig. |
| 43. Vindborðssel . . . . . . be. | 10 | 0,100 | . . | 1 l. |
| 44. Rauðaberg (Raufarberg) be. | 30 | 1,50 | . . | 1 eig. að 6 h. og 2 l. |
| 45. Haukafell[9] * . . . . . . . be. | 6 | . . . | . . | 1 l. |
| 46. Holtar[10] † . . . . . . . . be. | 30 | 2,0 | $3\frac{1}{2}$ | 6 l. |
| 47. Holtasel . . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 48. Einholt[11] . . . . . . . benef. | 30 | . . . | . . | 2 l. |
| 49. Hamar (Hamrar) } | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 50. Slindurholt } | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 51. Brunhóll } . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 52. Lambleikstaðir } | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 53. Flaga } | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 54. Hólmur[12] † . . . . . . . be. | 6 | 0,40 | 1 | 1 eig. |
| 55. Borg[13] . . Bjarnan. umbj. | 20 | 0,90 | 2 | 1 l. |
| 56. Kelduholt . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |

7) Sýslumaður telur Hoffell með 2 hjáleigum (sem hann eigi nefnir) 37 h. að dýrleika, og er dýrleiki þessi enn sami talinn á Hoffelli í jb. 1760; en hann nefnir hvorki Setberg nè Svínafell, en segir, að 3 eigendur sè á öllu Hoffelli, hvaraf 1 leigi $8\frac{1}{2}$ h., og þareð prestur nefnir bæði Setberg og Svínafell, með einum ábúanda hvort (einsog á Hoffelli), lítur það út, sem að sýslumaður telji bæði Setberg og Svínafell sem hjáleigur frá Hoffelli.

8) Sýslumaður telur Vindborð aðeins 10 og Vindbordssel aðeins 5 h. að dýrleika.

9) Jörð þessi er 1805 sögð í eyði, og er hún seld 1838, sem eyðijörð Þykkvabæjar klausturs. Sýslumaður telur hana aðeins 3 h. að dýrleika.

10) Stólsjarðabókin telur alla jörðina 50 h. að dýrleika, og er hún seld 1838, sem Bjarnaness umboðsjörð.

11) Sýslumaður nafngreinir eigi hjáleigurnar, sem allar voru bygðar 1805, nema Flaga. Þaraðauki er í jb. 1760, sem telur allt Einholt 30 h. að dýrleika, en segir eigi frá leigumála (1759 segir í skýrslu sýslumannsins, að lsk. sè 2 h. 50 al. og kúg. 4, en í jb. 1696, að kirkjukúgildi sè 13), getið um »Gunnlaugshól», »Einbúa», »Sandholt», »Geirstaði» og »Núpagarð», sem hjáleigur frá Einholti, en þeirra getur eigi seinna, eigi heldur Hamars í jb. 1760.

12) Stólsjarðabókin telur jörð þessa $8\frac{1}{3}$ h. að dýrleika, og er hún seld 1838, sem Bjarnaness umboðsjörð.

13) Sýslumaður nafngreinir eigi hjáleiguna, en 1805 segir, að Kelduholt, er þá var í eyði og brúkað frá Borg, sè að $\frac{5}{6}$ Skálholts og að $\frac{1}{6}$ Einholts kirkju eign, en eigi getur Einholts partsins í brandlýsíngu prestsins 1839.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 57. Bakki . . . . . . . . . . be. | 3 | 0,45 | . . | 1 eig. |
| 58. Eskey[14] . . . . . . . . be. | 3 | 0,30 | . . | 1 l. |
| 59. Flatey[15] 4 h.* . . . . be. | . . | . . . | . . | 6 l. |
| 60. Heiðnaberg[16] . . . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 2 l. |
| 61. Oddi[17] . . . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 62. Geirastaðir[18] * . . . . . be. | 6 | . . . | . . | 1 l. |
| 3. Borgarhafnar hreppur. | | | | |
| 63. Sævarhólar . . . . . . . be. | 6 | . . . | . . | 3 l. |
| 64. Skálafell $\frac{2}{3}$ Stafaf. kke. og $\frac{1}{3}$ be. | 30 | 1,60 | 1 | 3 l. |
| 65. Smyrlabjörg[1] * . . . . be. | 12 | 0,80 | 2 | 1 eig. að $\frac{2}{3}$ j. og 1 l. |
| 66. Uppsalir[2] * . . . . . . . be. | 6 | 0,96 | 1 | 1 eig. |
| 67. Hestgerði (Hreggsgerði)[3] * be. | 12 | 1,72 | 2 | 1 eig. |
| 68. Borgarhöfn[4] $\frac{3}{8}$ Einh. kke. $\frac{3}{8}$ Kálfaf. kke. og $\frac{1}{4}$ be. . . | 80 | 4,13 | 6 | 9 l. |

14) Sýslumaður segir jörð þessa 6 h. að dýrleika.

15) Sýslumaður telur jörðina Flatey, sem prestur líka nefnir svo, 28 h. að dýrleika, og meðal fyrrverandi svo kallaðra »Skaptafells sýslu jarða»; enda er Flatey efri (16 h.) og Flatey syðri (12 h., í jb. 1696) tilsamans talin 28 h.; en jb. 1760 nefnir »Flatey», 8 h. að dýrleika með 1 h. lsk., bænda eign, en »Syðri Flatey», 4 h. að dýrleika, konúngs eign. 1805 er «Eystri Flatey« enn talin bænda eign, með sama dýrleika og 1696, en Syðri Flatey, líka 16 h. að dýrleika, hvaraf $\frac{1}{4}$ er sagður konúngs eign, þá í eyði og brúkuð undir Eystri Flatey. Þessi Syðri Flatey er seld, 1836, sem Skaptafells sýslu jörð.

16) Sýslumaður segir jörðina 9 h. að dýrleika,

17) Jarðabækurnar nefna eigi jörðu þessa, sem sýslumaður telur 4 h. að dýrleika, og meðal enna fyrrverandi Skaptafells sýslu jarða, en eigi finnst hún seld sèr á parti, sem konúngs eign.

18) Jörð þessi var seld 1836 sem Skaptafells sýslu jörð í eyði, Jb. 1696 segir hèr 60 al. lsk. og 1 kúg. 1805 segir, að hún sè yrkt frá Einholti, og að skógar ítak á Viðborðsdal heyri undir hana. Sjá 48.

1) Jörð þessi var 1836 seld, sem ein af Skaptafells sýslu jörðum. Skoðunargjörð sú, sem Skúli Magnússon, með 1 sýslumanni og 6 lögrèttumönnum, hèlt yfir jarðir konúngs í Skaptafells sýslunum 1769, samþykt af enu »norska kammeri» 10 Apr. 1772 (sbr. Rkbréf 26. Juni 1787) og setti margar af jörðum þessum aptur upp í leigumála (áður voru þær settar niður — sumpart eptir 1760 — útaf Kötlugosinu 1755), gjörir lsk. á jörðu þessari 100 al. 1805 er eyðihjáleiga Núpur talin hèr með.

2) Jörðin var seld 1836, og var talin meðal enna svokölluðu »Austfjarða jarða».

3) Jörð þessi var líka seld 1836, og var talin meðal enna sömu jarða.

4) Konúngur átti áður 60 h. í jörðu þessari, en gaf kirkjunum þau, með úrsk. 10. Juni 1743. 1805 segir frá þrætuplázi móti Hestgerði, hvar árlega fæst viðreki á hest.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur. |
|---|---|---|---|---|
| 69. Kálfafell (Kálfafellslaður)[5] benef. . . . . . . . . . . | 10 | 0,100 | 12 | prestur. |
| 70. Brunnar } . . . hjál. | 3 | . . . | . . | 1 l. |
| 71. Hellrar (Hellar) } . . . hjál. | 3 | . . . | . . | 1 l. |
| 72. Leiti } . . . hjál. | 3 | . . . | . . | 1 l. |
| 73. Butra } . . . hjál. | 3 | . . . | . . | 1 l. |
| 74. Steinar (Slèttaleiti)[6] Kálfaf. kke. | 12 | 0,75 | 1 | 1 l. |
| 75. Gerði[7] . . . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 76. Kálfafell (innra) . . . . be. | 30 | 2,30 | 1 | 3 eig. að $\frac{2}{3}$ j. og 2 l. |
| 77. Breiðabólstaður[8] . . . . be. | 30 | 1,97$\frac{1}{2}$ | . . | 1 eig. að 7$\frac{1}{2}$ h. |
| 78. Hali . . . . . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 79. Reynivellir[9] . . . . . . be. | 30 | 2,30 | $\frac{1}{2}$ | 1 eig. að $\frac{1}{2}$ j. og 1 l. |
| 80. Fell[10] . . . . . . . . . be. | 20 | 2,10 | 1 | 2 l. |
| 4. Hofs hreppur. | | | | |
| 81. Tvísker . . . . . . . . . be. | 6 | 0.40 | . . | 1 eig. |
| 82. Hnappavellir[1] . . . . . be. | 12 | 1,10 | 4 | 4 eig. |
| 83. Fagurhólsmýri . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 84. Hofsnes . . . . . . . . . be. | 6 | 1,0 | . . | 2 l. |
| 85. Hof[2] 3$\frac{1}{2}$ h.*, $\frac{1}{2}$ Hofs kke., $\frac{1}{8}$ Sandf. kke. og $\frac{3}{8}$ be. . . | 21 | . . . | . . | 1 eig. að 1$\frac{4}{6}$ h. og 7 l. |

5) Jb. 1760 telur allt Kálfafell, er sýslumaður og prestur kalla »Kálfafellsstað», 22 h. að dýrleika, en sýslumaður skiptir dýrleikanum niður, einsog hèr er gjört. 1805 segir, að »Butra", »Svíri» og »Stöðull» sè eyðihjáleigur.

6) Sýslumaður og prestur nefna jörðu þessa »Slèttaleiti», en jarðabækurnar »Steina».

7) þessarar jarðar geta jarðabækurnar eigi, en þar á móti bæði sýslumaður og prestur, og telur sýslumaður hana 7$\frac{1}{2}$ h. að dýrleika.

8) Sýslumaður telur Breiðabólstað aðeins 15, en Hala, sem aðeins hann og prestur geta, 7$\frac{1}{2}$ h. að dýrleika.

9) Sýslumaður einn skiptir jörðu þessari, og kallar: »Reynivelli» og »Efri Reynivelli», sem hann segir eigandinn búi á, en prestur segir 2 býli á Reynivöllum.

10) 1805 eru eyðihjáleigur: Bakki og Borgarhóll (1760 getur og um Brennhóla) taldar með; þar getur og um, að í »Hrollaugsey» sè selveiði. Sýslumaður segir Fell aðeins 6 h. að dýrleika.

1) Sýslumaður, sem telur 5 eigendur á öllum Hnappavöllum, nefnir eigi hjáleiguna, en þar á móti prestur; en hvorugur þeirra nefnir »Hnappavallahjáleigu», sem jarðabækurnar líka minnast á.

2) Jb. 1760 telur Hofskirkju eign (helmínginn) 10$\frac{1}{2}$ h., með 1 h. 40 al. lsk. og 3 kúg., og »Hengigózið», sem var partur úr Hofi, er var seldur 1836, 3$\frac{1}{2}$ h. að dýrleika, með 60 al. lsk. og 1 kúg. þar

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur. |
|---|---|---|---|---|
| 86. Sandfell[3] . . . . . . benef. | 12 | 0,60 | 1 | prestur. |
| 87. Svínafell . . . . . . . . be. | 8 | 1,0 | 2 | 3 eig. |
| 88. Skaptafell[4] * . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 3 | 2 eig. að $\frac{2}{3}$ j. og 1 l. |

## B. Vestur Skaptafells sýsla.

### 5. Kleifa hreppur.

| | dýrl. | landsk. | kúg | ábúendur. |
|---|---|---|---|---|
| 89. Núpstaður[1] † . . . . . be. | 10 | 1,0 | 6 | 1 eig. |
| 90. Rauðaberg[2] . . . . . Kbkle. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 91. Kálfafell[3] . . . . . . benef. | 20 | 0,70 | 4 | prestur. |
| 92. Kálfafellskot } . . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 93. Blómsturvellir } | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 94. Maríubakki[4] . . Kálfaf. kkc. | 12 | 1,0 | $3\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 95. Hvoll[5] . . . . . . . . . ke. | 10 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 96. Seljaland* . . . . . . þbkle. | 12 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 97. Gnúpar[6] . . . . . . Kbkle. | 12 | 0,110 | 2 | 1 l. |
| 98. Dalshöfði[7] . . . . . . þbkle. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |

er og nefnd Hofshjáleiga, sem hvorki prestur nè sýslumaður geta, og beitiland við Ingólfshöfða. Sýslumaður og jb. 1805 segja jörðina 28 h. að dýrleika. 1805 getur og um eyðihjáleigu frá Hofi, »Fjall», og sömuleiðis um eyðijörð, »Breiðumörk», sem þar segir að konúngur hafi átt að hálfu, og er sá parturinn þá máske seldur ásamt með »Hengigózi».

3) Hèr telur jb. 1696 4 kirkjukúgildi.

4) Í skoðunargjörð 1769 eru eigi talin kúgildi, en þar segir frá rekaplázi miklu, er heyri undir jörðu þessa, og að hèr sè skógur mestur og beztur á öllu suðurlandi, uppi á fjalli og í fjallshlíðinni.

1) Jörð þessi er í stólsjarðabókinni talin 25¼ h. að dýrleika, og er seld 1840. Sjá 95.

2) Í skoðunargjörð 1769 er landskuldin sett 1 h. 20 al. og kúg. 3.

3) 1696 segir hèr frá 12½ kirkjukúg. Blómsturvelli nefnir presturinn einn, en sýslumaður, sem kemur saman við hann um ábúenda töluna, hvoruga hjáleiguna.

4) Sýslumaður segir jörð þessa 17 h. að dýrleika.

5) Sýslumaður kallar jörð þessa lènsjörð sýslumannsins í Austur Skaptafellssýslu, en eptir að báðum sýslunum var steypt saman, var sýslumanni vísað á Núpstað (89) til ábúðar (Rentuk. brèf 9. Mai 1812).

*) Í skoðunargjörðinni er lsk. sett hèr 2 h. 20 al.

6) Landskuldin er í skoðunargjörð 1769 ákveðin 1 h. 40 al.

7) Skoðunargjörð 1769 lætur landskuldina hèr vera 1 h. 80 al.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 99. Hruni[8] . . . . . . . þbkle. | . . | 0,20 | . . | 1 l. |
| 100. Þverá[9] . . . . . . . Kbkle. | 12 | 0,80 | 4 | 1 l. |
| 101. Brattland (Þverárdalur)[10] Kbkle. . . . . . . . . . . | 6 | 0,75 | 1 | 1 l. |
| 102. Foss[11] ½ Kbkl. pr. Lènsj. og ½ be. . . . . . . . . | 24 | 3,10 | 2 | 4 l. |
| 103. Hörgsland . . . . . Spíte.* | 24 | 2,70 | 6 | spítalavörður. |
| 104. Hörgslandskot . . . hjál. | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 105. Mosakot . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 106. Múlakot . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 107. Hörgsdalur[12] . . . Kbkle. | 24 | 2,48 | 5 | 1 l. |
| 108. Keldugnúpur. Síðuhr. fát. e. | 18 | 1,100 | 6 | 2 l. |
| 109. Breiðabólstaður[13] . Kbkle. | 24 | 1,115 | 3 | 2 l. |
| 110. Prestbakki. Kbkl. pr. lènsj. | 12 | 1,60 | 2 | 2 l. |
| 111. Prestbakkakot . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 112. Mörtúnga . . . . . Kbkle. | 12 | 1,90 | 4 | 2 l. |
| 113. Geirland . . . . . . Kbkle. | 24 | 2,48 | 5 | 3 l. |
| 114. Eintúnaháls[14] . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 115. Mörk[15] . . . . . . Kbkle. | 12 | 1,10 | 2 | 2 l. |
| 116. Kirkjubæjar Klaustur[16] . . | 12 | 0,72 | 10½ | 1 l. |
| 117. Húnkubakkar[17] . . þbkle. | 6 | 0,60 | 1½ | 1 l. |

8) Jörðu þessa nefna hvorki jarðabækurnar nè sýslumaður, en af umboðs reikníngum Þykkvabæjarklausturs sèst, að klaustrinu þaðan gjaldast 20 al. í landskuld, og telur prestur því Hruna rèttilega sem bygt býli.

9) Í skoðunargjörð 1769 er lsk. ákveðin 1 h. 40 al. og kúg. 3. 1806 segir, að Ytra Dals (Þverárdals, sjá næstu jörð) land sè yrkt frá Þverá og Hörgslandi saman.

10) Skoðunargjörð 1769 setur lsk. hèr upp til 1 h. Þverárdalur, sem þá hèt svo, er gjöreyddur í eldgosinn 1783, en af reikníngsskýrslum klausturhaldara sèst, að Brattland seinna er bygt á þeim hluta Þverárdals, sem síðan varð byggilegur.

11) Prestur einn nefnir »Slèttaból», sem nýbýli í Foss landi.

*) Sjá konúngsbr. 10. Mai 1651 og 12 Mai 1652, og tilskip. 27. Mai 1746.

12) Skoðunargjörð 1769 gjörir hèr 2 h. 10 al. lsk. og 6 kúg.

13) Skoðunargjörð 1769 lætur hèr vera 1 h. 100 al. lsk., 2½ kúg.

14) Jörð þessi segir sýslumaður að sè nýbýli, enda er hennar eigi getið í jarðabókunum.

15) Skoðunargjörð 1769 gjörir hèr lsk. 1 h. 30 al., kúg. 1½.

16) Skoðunargjörð 1769, sem hèr gjörir 4 h. lsk., segir að klaustrið eigi reka fyrir heimalandi og nokkurra klausturjarða landi; kolaskóg til heimilis þarfa í Brandalandi, og selstöðu í heimalandi, þarsem þá þó var hjáleiga, er nefndist »Sel». Hèr átti að setja barnaskóla, eptir kon. úrsk. 1542 (Ketils. II. bls. 236 og 247; sjá kon. br. 29. Mai 1744).

17) Skoðunargjörð 1769 gjörir hèr 1 h. lsk.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 118. Heiði[18] . . . . . . Kbkle. | 12 | 1,70 | 3 | 2 l. |
| 119. Holt[19] * . . . . . . . be. | 24 | 2,40 | 6 | 1 eig. |
| 120. Skál[20] . . . . . . . . . be. | 90 | 2,40 | 12 | 1 l. |
| 121. Á[21] . . . . . . . . þbkle. | 12 | 1,50 | 4 | 1 l. |
| 122. Skaptárdalur[22] * . . . be. | 6 | 1,0 | . . | 1 l. |
| 123. Efri Vík[23] . . . . . Kbkle. | 12 | 1,15 | 2 | 2 l. |
| 124. Syðri Vík[24] . . . . Kbkle. | 12 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 125. Dalbær eystri[25] . . Kbkle. | 12 | . . . | . . | 1 l. |
| 126. Uppsalir[26] . . . . . Kbkle. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 127. Fagurhlíð[27] . . . . þbkle. | 12 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 128. þykkvibær efri[28] . Kbkle. | 12 | 1,35 | 4 | 2 l. |
| 129. þykkvibær syðri[29] þbkle. | 12 | 1,0 | 5 | 2 l. |
| 130. Hraunkot[30] . . . . . . ke. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 131. Dalbær ytri (vestari)[31] þbkle. | 6 | 1,5 | 1½ | 1 l. |
| 132. Hólmur[32] . . . . . . . be. | 12 | 1,40 | . . | 2 l. |
| 133. Nýibær[33] . . . . . Kbkle. | 12 | 1,15 | 2 | 1 l. |
| 134. Hæðargarður[34] . . Kbkle. | 5 | 0,90 | 1 | 1 l. |
| 135. Túnga vestri (ytri) Kbkle. | 6 | 0,70 | 2 | 1 l. |

---

18) Skoðunargjörð 1769 gjörir hèr 2 h. lsk. 2½ kúg.

19) Skoðunargjörð 1769 lætur hèr vera 3 h. lsk. 3½ kúg.

20) Sýslumaður og jb. 1806 segja nú jörð þessa aðeins 12 h. að dýrleika.

21) Skoðunargjörð 1769 lætur hèr aðeins vera 1 kúg. 1806 segir, að á millum Ár og Skaptárdals liggi skógar petti, sem heiti »Hæll» og þræta sè um millum beggja jarðanna.

22) Skoðunargjörð 1769 setur hèr 1 h. 20 al. lsk. Annars nefnir skoðunargjörð þessi eyðijörð nokkra, Hæl, undir þykkvabæjar klaustri, hvar bæði Skaptárdals bóndinn og Ár bóndinn þá höfðu fjárbeit, en klausturhaldarinn yrkti skóginn.

23) Skoðunargjörð 1769 gjörir 1 h. 60 al. lsk.

24) Sama skoðunargjörð gjörir 80 al. lsk. og ½ kúg.

25) Jarðabækurnar blanda Dalbæ eystra saman við Uppsali, er 1806 segir, að liggi undir Dalbæ eystri, sem eyðijörð; en 1769 segir, að Dalbær hafi eyðst af sandroki. Nú þarámóti hljóta báðar jarðirnar, sem prestur og sýslumaður nefna, að vera bygðar, og telur sýslumaður Dalbæ eystri aðeins 6 h. að dýrleika.

26) Skoðunargjörð 1769 setur hèr 60 al. lsk. og 2 kúg., sjá 125.

27) Skoðunargjörð 1769 setur hèr 45 al. lsk., en 1760 segir, að Fagurhlíð og »Kot» sè yrkt frá Uppsölum.

28) Hèr setur skoðunargjörð 1769 100 al. lsk.

29) Hèr setur skoðunargjörðin 1 h. 60 al. lsk. og 4 kúg.

30) Jörðu þessa, sem í jarðabókunum er nefnd hjáleiga frá báðum þykkvabæjunum, kalla þær og sýslumaður, lènsjörð sýslumannsins í Vestur Skaptafells sýslu. Smbr. 89 og 95.

31) Skoðunargjörð 1769 lætur hèr vera 80 al. lsk., smbr. 125.

32) Jörð þessi var áður eign Skálar kirkju, sem eyddist í eldinum 1783.

33) Skoðunargjörðin lætur hèr vera 70 al. lsk. og 1½ kúg.

34) Skoðunargjörðin lætur hèr vera 80 al. lsk. og ½ kúg.

| | dýrl | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 367. Hvammkot[16]. þíngeyra kl. j. | 10 | 0,20 | 2 | 1 l. |
| 368. Fjall . . . . Reynist. kl. j. | 3 | 0,20 | 2 | 1 l. |
| 369. Steinastaðir[17]. . Hofs kke. | 16 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 370. Kelduland . . . . . . . . be. | 3 | 0,40 | 2 | 1 eig. |
| 371. Hafsvellir[18] † . . . . be. | 8 | 0,30 | 2 | 1 l. |
| 372. Bakki (Litli B)[19] . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 373. Brandaskarð[20] † . . . be. | 5 | 0,30 | 2 | 1 l. |
| 374. Harastaðir[21]. . . . . . be. | 40 | 1,40 | 2 | 3 l. |
| 375. Harastaðakot . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 2 l. |
| 376. Finnstaðir[22] † . . . . be. | 24 | 1,40 | 6 | 1 eig. |
| 377. Háfagerði . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 378. Hólar (Höfðahólar)[23]. þíngeyra kl. j. . . . . . . . . | 16 | 0,100 | 3½ | 1 l. |
| 379. Spákonufell[24] † . . . be. | 30 | 2,0 | 5 | 1 eig. að ½ j. |
| 380. Árbakki[25]. þíngeyra kl. j. | 20 | 1,0 | 5 | 1 l. |
| 381. Vindhæli[26] . . . . . . be. | 40 | 1,60 | 2½ | 1 eig. og 1 l. |

geta eigi Hofskots, sem prestur þó líka nefnir (Hofssel), enda segir hann í brauðskýrslu sinni (1839) 2 kot bygð í heimalandi staðarins.

16) Hér telur nú hreppstjóri 1 kúg.

17) Hér telur nú hreppstjóri 1½ kúg.

18) Hreppstjóri telur Kelduland og «Hrafsvelli» saman (11 h. að dýrleika, 2 kúg.) en sýslumaður nefnir Hrafsvelli, einsog prestur, sér, og var þessi jörð Hólastóls, að sögn A. M., brúkuð frá Keldulandi, en 1802 frá Brandaskarði, sem eyðijörð, afgjaldslaust.

19) Hér telur nú hreppstjóri 1½ kúg.

20) Hreppstjóri telur hér nú 1 kúg., og telur hann og sýslumaður einir jörðina 8 h. að dýrleika.

21) 1802 er 10 h. dýrleiki talinn á hjáleigunni sér, en nú af hreppstjóra, sem telur ½ kúg. á henni og 2 á Harastöðum, 18 h. Sýslumaður aptur á móti telur Harastaði með Harastaðakoti, og dýrleikann á jörðunum báðum saman. A. M. einn nefnir þar að auki eyðihjáleigu, Hólkot, og segir hann einn frá leigumála á »Harastaðahjáleigu» sér.

22) 1802 eru Finnstaðir sér taldir 16, og Háfagerði sér 8 h. að dýrleika. A. M. nefnir og Finnstaðakot (20 al. lsk.) hjáleigu héðan. Hreppstjóri telur nú 3 kúg. á Finnstöðum með Háfagerði, og sýslumaður 2 eigendur á öllum Finnstöðum.

23) 1802 segir, að jörð þessi og en næsta, Spákonufell, hafi 2 rd. 34 sk. hvor um sig, í leigu eptir lóðina, sem verzlunarstaðurinn (á Skagaströnd, prestur telur og fólk «í kaupstaðnum Hólanesi») stendur á, og fyrir fénaðarbeit, mótak o. s. frv., því menn segi, að verzlunarstaðurinn standi á lóð beggja jarðanna.

24) A. M. segir 15 h. í jörðu þessari eign kirkjunnar, og nefnir Spákonufells-hjáleigu (50 al. lsk. 2 kúg.) og 3 tómthús, er standi við «kaupstaðinn Spákonufellshöfða» og taki heimabóndi 15 álna afgjald af hverju. Rentuk. br. 19. Aug. 1820 samþykkir skipti á jörðu þessari við Sehram verzlunarmann, fyrir Kálfshamar, Saura og Ós (354—356), með því skilyrði, að hann haldi þar 2 kúg., presti til uppheldis, og telur nú hreppstjóri 2 kúg. á jörðunni.

25) Hér telur nú hreppstjóri kúg. 1. 26) Hér kúg. 3.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 382. Vakurstaðir[27], þingeyra kl. j. | 12 | 0,40 | 3 | 1 l. |
| 383. Sæunnarstaðir[28] † . . be. | 20 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 384. Bergstaðir[29] † . . . . be. | 10 | . . . | 1 | 1 l. |
| 385. Þverá . . . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 386. Bláland[30] † . . . . . be. | 10 | . . . | 1 | 1 l. |
| 387. Kjalarland[31] . . . . . be. | 16 | 0,90 | 3 | 1 eig. |
| 388. Hafstaðir[32] . . . . . . be. | 30 | 2,0 | 7 | 2 l. |
| 389. Hafstaðakot } . . . . . hjál. | 10 | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 390. Kambakot } . . . . . hjál. | 10 | 0,60 | 2½ | 1 eig. |
| 391. Ytriey[33] †. . . . . . . be. | 24 | 1,20 | 4½ | 1 l. |
| 392. Syðri-ey[34]. . . . . . . be. | 60 | 1,60 | 6 | 3 l. |
| 393. Syðri-eyjarkot . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 394. Ytrihóll[35], Höskuldst. kke. | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 395. Höskuldstaðir[36] . . benef. | . . | 1,30 | 3½ | prestur |
| 396. Hvammshlíð í Norðurárdal } hjál. | . . | 0,30 | . . | 1 l. |
| 397. Höskuldstaðasel } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 398. Syðrihóll[37], Höskuldst. kke. | 40 | 1,60 | 5 | 2 l. |

27) Hèr kúg. 1. og 60 al. lsk.

28) Hèr 5 kúg. og 1 h. lsk. Sýslumaður einn telur jörð þessa aðeins 10 h. að dýrleika. 29) Hèr telur nú hreppstjóri lsk. 40 al.

30) Hèr 60 al. lsk. og kúg. 1½.

31) Hèr 60 al. lsk. og kúg. 1. Sýslumaður einn telur jörðu þessa 20 h. að dýrleika.

32) Jarðabækurnar telja alla Hafstaði með hjáleigunum, hvar A. M. segir frá leigumála, 50 h. að dýrleika; en dýrleika þessum er 1802 og hjá sýslumanni og hreppstjóra skipt niður sem hèr greinir. Hreppstjóri telur á Hafstöðum 1 h. lsk. 3 kúg., á Hafstaðakoti 60 al. lsk. 1½ kúg. og á Kambakoti 60 al. lsk. 2 kúg.

33) Hèr telur hreppstjóri 1 h. lsk. 2 kúg.

34) 1802 fengust hèr 2 ℔ æðardúns, og segir A. M. að hèr fylgi varphólmi, Eyjarey, og svo 3 hjáleigur: Efrakot (50 al. lsk. 2 kúg.), Neðrakot (40 al. lsk. 1½ kúg.) og Ólafskot (í eyði), en nú nefnir prestur einn Syðri-eyjarkot sem hjáleigu. Hreppstjóri telur nú á Syðri-ey (allri) 3 h. lsk. 4 kúg. 35) Hèr kúgildin 3.

36) 1802 er dýrleiki hèr talinn 25 h. A. M. segir hèr 2 kirkjukúgildi, en sýslumaður segir nú að kúgildi sè ekkert á staðnum. A. M. segir haft í seli frá Höskuldstöðum í Hvammshlíðar landi (í Norðurárdal), og nefnir hann annað eyðibólið til, með sama nafni, sem var bygt, þá fyrir 38 árum, á sama stað, og þar að auki Fitjarkot (40 al. lsk. 1 kúg.), en nú er aðeins nefnd ein Hvammshlíð, sem sýslumaður og hreppstjóri báðir telja 5 h. að dýrleika, hreppstjóri með 1 kúg. 30 al. lsk., og sem prestur í brauðskýrslu sinni 1839 nefnir «seljörð staðarins». Þareð hann líka þar, einsog í fólkstölulistanum (1813) nefnir Höskuldstaðasel meðal kirkjujarðanna, er ból þetta, þó hvergi finnist það nefnt annarstaðar, líka talið sem hjáleiga frá staðnum, og segir í fólkstölulistanum, að þar sè tvíbýli.

37) 1802 og hjá hreppstjóra er Kollugerði talið 5 h. úr dýrleika

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 399. Kollugerði . . . . . . hjál. | . . | 0,50 | 2 | 1 l. |
| 400. Njálstaðir[38]. Þíngeyra kl. j. | 24 | 1,40 | 6 | 1 l. |
| 401. Neðstibær[39] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 402. Kirkjubær[40] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 403. Neðri Skúfur . . . . . be. | 10 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 404. Efri Skúfur[41] . . . . . be. | 10 | 0,60 | 1½ | 1 eig. |
| 405. Þverá[42] . Höskuldst. kke. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 406. Skrapatúnga[43] † . . . be. | 30 | 1,30 | 5 | 1 l. |
| 407. Balaskarð[44] † . . . . be. | 20 | 1,0 | 5 | 1 eig. og 1 l. |
| 408. Mánaskál[45] † . . . . . be. | 20 | 1,0 | 5 | 1 eig. |
| 409. Núpur[46] † . . . . . . be. | 10 | 0,40 | 3 | 1 l. |

Þó að sýslumaður haldi það, sem hreppstjórar sýslunnar greina frá, einkum um kúgilda tölu jarðanna, áreiðanlegt, er þeim má vera kunnugt, hve mörg kúgildi eru dregin frá fènaði þeim, sem talinn er til landbúnaðartaflanna, þegar telja skal fram til tíundar, segir hann samt yfirhöfuð frá leigumála jarða í sýslunni þannig: að 20 jarðar hundruð almennast sè leigð með hundraðs landskuld á landsvísu og 2 kúgildum, þó sè þetta almennur leigumáli einkum á þeim jörðunum, sem eru undir 30 h. að dýrleika, því minna leigist flestar þær jarðir, sem eru stærri að hundraða tali; þó sè einstöku 10 hundraða jarðir líka leigðar með 2 kúg.

Á bæjum þeim, 409, sem að framan eru taldir, eru, eptir skýrslu sýslumannsins 4. Febr. 1845, samantaldir 487 búendur, og af þeim 111 sjálfseignar-bændur; en 1802 teljast 373 meiri og minni ból í sýslunni, og á þeim 398 búendur og 66 *sjálfseignar bændur að nokkru eða öllu leiti.*

Syðrahóls, og telur hann á Syðrahóli 4 kúg. 1 h. 40 al. lsk. og á Kollugerði 1 kúg. 30 al. lsk.

38) A. M. einn telur hèr 20 h. dýrleika. Hreppstjóri segir hèr nú 1 h. lsk. 2 kúg. 39) Hèr kúgildin 2.

40) Sýslumaður hleypur yfir jörð þessa, sem bæði er talin hjá presti og hreppstjóra í hreppi þessum.

41) Jarðabækurnar telja einn Skúf, með dýrleika þeim og leigumála, sem hèr er skipt jafnt niður á báða Skúfana, sem hreppstjóri líka telur saman, en nefnir þá þó tvo, með 3½ kúg. á báðum; en 1802 og nú hjá sýslumanni og presti eru nefndir Neðri og Efri Skúfur, hvor sèr, og voru þeir 1802, hvor um sig, taldir aðeins 8 h. að dýrleika. 42) Hreppstjóri telur hèr nú 1½ kúg.

43) Hèr 1 h. lsk. og kúg. 1. Sýslumaður einn telur jörð þessa 20 h. að dýrleika, en hjá A. M. segir, að almenníngur í Mjófadal, Gulltúngum, Bárðardal og Ambáttardal, sè talinn sèr 10 h. að dýrleika. 44) Hèr telur hreppstjóri nú kúgildin 2.

45) Hèr sömuleiðis. 46) Her kúg. 1 og 60 al. lsk.

Eptir fólkstölulistum prestanna við árslokin 1812 teljast í *Staðar hreppi* 142, í *Torfustaða hreppi* 496, í *Kirkjuhvamms hreppi* 299, í *Þverár hreppi* 363, í *Þorkelshóls hreppi* 307, í *Sveinstaða hreppi* 221, í *Ás hreppi* 264, í *Torfalækjar hreppi* 199, í *Svínavatns hreppi* 285[1], í *Bólstaðarhlíðar hreppi* 415, í *Engihlíðar hreppi* 281 og í *Vindhælis hreppi* 336 manns; þannig í allri sýslunni 3,808 manns.

Í sýslu þessari eru 13 prestaköll:

1. *Staður við Hrútafjörð*, þ. e. bæirnir 1—13 í sýslu þessari, og 105—109 í Stranda sýslu. Brauðið er metið 25 rd. 5 mk. 7 sk. Prestsetrið Staður hefir notalega hagbeit fyrir búsmala sumar sem vetur. Tún eru hèr harðlend og því ávaxtarlítil, og eingjum fer árlega hnignandi, af sand- og leir-árennsli, svo og landbroti af Hrútafjarðará og Sík-á. Jörðin framfærir því eigi meira í meðalári enn 4 kýr, 1 naut, 80 ær, 30 sauði og 8 hross. Silúngsveiði í Hrútafjarðará svarar naumast kostnaði. Reka-ítökum staðarins, eptir máldaga Auðunar biskups, er eigi lýst. Selland staðarins á fjalli fram hefir um lángan tíma eigi orðið notað til annars enn fjallagrasa tekju, hrossa- og geldfjárbeitar á sumrum. Af kúgildum staðarins verður að halda 6 heima. Kirkjujarðirnar, Bálkastaðir hálfir[2] og Fagrabrekka (107 í Stranda sýslu) eru bygðar með 60 al. lsk. 2 kúg. hvor um sig. Fasteignar tíund 203 f., lausafjár tíund 140 f., heytollar 22 og dagsverk 8. Sóknarmenn: 178.

2. *Staðarbakki;* og eru í Staðarbakka sókn bæirnir 25—31, 37 og 51—60, en í Efranúps sókn 32—36 og 38—50[3]. Brauðið er metið 45 rd. 4 mk. Staðurinn fóðrar tæplega 4 kýr, 80 ær, 60 sauði og 12 hross. Jörðin er árlega undirorpin stórskemdum, bæði á túni og eingjum. Hlynnindi og ítök eru talin: laxveiði, lítil, í Miðfjarðará; afrèttarland »tveim megin ár í Vesturárdal» og selför í Urriðadal, í Saurbæ, í Litlu Túngu, og í Bug ef vill; »Lánghólmi í Miðfjarðará, móts við staðinn»; laxveiði í Bláhyl í Vesturá og í Rjúkanda, svo og öll fiskveiði og fuglveiði suður í miðjann Vatnaflóa; Reykjartángi fram frá grasi, tólftúngur í viðreka og hvalreka á Bálkastöðum, hálfur viðreki og hvalreki norður á Skriðuenni, millum Stiga og Rauðuskriðu. Prestsetrinu fylgja 3

1) Af Blöndudalshóla sókn eru 26 manns í hreppi þessum á bæjunum 247—249, en á hinum bæjunum, 235—246 og 250—263, sem eru í Auðkúlu og Svínavatns sóknum, verður eigi sagt frá fólkstölu við árslokin 1842, af því að fólkstöluskýrslu fyrir það árið vantaði frá prestinum á Auðkúlu, sem þá var nýdáinn, og er því fólkstalan í sóknum þessum tekin hèr sú, sem þar var við manntalið 2 Nóvbr. 1840. 2) Sjá athugasemd við Melstað.

3) Hèr eru sókna skil nokkuð óljós eptir fólkstölulista prestsins.

ásauðar kúgildi og 18 rbd., fyrir 4 burtseld kúgildi staðarins. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Krókstaðir með 3 kúg. 1 h. lsk. og 3 dagsláttum (20 al.); Skarfshóll 2 kúg. 80 al. lsk. og 1 dagsláttu (6⅔ al.); Húkur 2 kúg. 1 h. lsk., og Neðri Fitjar (147) með 3 kúg. 60 al. lsk. og 3 dagsláttum (20 al.). Af Efranúps kirkju eign fær prestur 40 f. Fasteignar tíund 394 f., lausafjár tíund 132 f, heytollar 40 og dagsverk 23, allt að meðaltali í 5 ár. Af brauðinu eru lagðir 51 sk. Sóknamenn: 352.

3. *Melstaður;* og eru í Melstaðar sókn bæirnir 14—24, 61—64 og 68—74, en í Kirkjuhvamms sókn 75—88*. Brauðið er metið 62 rd. 2 mk. 11 sk. Staðurinn er, að sögn prestsins, orðinn hlynnindalaus, því laxveiði sú, sem áður var höfð í Miðfjarðará, verður eigi framar notuð, vegna landbrota árinnar, og hefir áin þar hjá rudt sèr farveg í gegnum bezta slægjulandið, svo að jörðin Saurar, sem liggur hinumegin, vill nú eigna sèr hólma þann, er áin hefir skorið af. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Fallandastaðir með 2 kúg.; Bálkastaðir hálfir sömuleiðis, og er þar nokkur reka von**; Sveðjustaðir 1½ kúg., og eru þar 3 dagsláttur uppí lsk.; Reynihólar 2 kúg., og koma þar 2 dagsláttur í lsk.; Búrfell 2½ kúg., og eru 3 dagsláttur ákveðnar uppí landskuldargjald; Brekkulækur 3 kúg., 3 dagsláttur uppí lsk., og er þar laxveiðar von; Túngukot 1 kúg.; Dalkot 2 kúg.; Stóra Hvalsá (120 í Stranda sýslu) 2 kúg., og er þar lítil reka von, og Kolbítsá (123 samastaðar) með 3 kúg., og er þar svo góð reka von, að prestur eigi þarf að kaupa við til bæjarhúsa, ef ábúandi er frómur. Jarðir þessar allar, og þar á meðal Feykishóla og Svarbæli (hverra leigumála, nè heldur leigumála á Tjarnarkoti, þó eigi er getið öðruvísi), segir prestur að megi byggja með fullum leigumála, en þó hefir hann eigi leigt 21 hundraða jörð með hærri lsk. enn 1 h. Melstaðar kirkja á Hrútey í Hrútafirði, og er æðarvarp þar í blómgun, og fást þar nú 17 ῑτ æðardúns, en væri hún nær og prestur gæti varið hana, einkum fyrir tóum, mætti fá hèr miklu meiri dún. Landamerki og reka millum staðarins og kirkjujarðanna á aðra og nábúa jarðanna á aðra hlið, eru hèr sumstaðar óljós, og örnefni orðin önnur enn þau, sem nefnd eru í máldögunum. Af Kirkjuhvamms kirkju eign fær presturinn 2 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 444 f., lausafjár tíund 190 f., heytollar 32 og dagsverk 8. Af brauðinu er uppgjafa prestum og presta ekkjum lagt (ótiltekið). Sóknamenn: 342.

4. *Tjörn á Vatnsnesi*, þ. e. bæirnir 89—103. Brauðið

*) Hèr eru sókna skil nokkuð ótjós hjá presti.

**) Með kon. úrsk. 27. Marts 1775, er landið millum Skalla og Fosslækjar, með reka, lagt til Bálkastaða.

er metið 18 rd. Prestsetrið Tjörn, sem prestur telur 20 h. að dýrleika og $4\frac{1}{2}$ ásauðar kúgildi fylgja, er einhver en mesta harðviðra-jörð, svo og hættujörð, vegna pitta og forræða á vorin, en ánnar vegna á haustin. Túnið er karga þýft, og fæst sjaldan meira af því enn $1\frac{1}{2}$ kýrfóður, og eru útheyslægjur að sínu leiti eigi betri, nema öðruhverju eingjateigur sá, er Tjörn á fram í Þorgrímsstaðadal, og fást þár ástundum 60 hestar af góðu fóðurheyi. Meðal hlynninda verður helzt talinn trjáreki nokkur, en Márstaða eigendur vilja eigna sèr fjórðúng í honum, og sömuleiðis fjórðúng í hvalreka þar. Kirkjunni er og eignuð »tíunda hver vætt úr fjórðúngi« í hvalreka á Illugastöðum, Flatuefstöðum og Vík. Tjörn á lamba-upprekstur í Breiðabólstaðar afrètt. Silúngsveiði í ánni er eigi teljandi. Kirkjujörðin Túnga er leigð með 2 kúg. 90 al. lsk., og Skarð í Skagafjarðar sýslu (39) með 2 kúg. 85 al. lsk. (um sinn, eiga að vera 100 al.). Fasteignar tíund 155 f., lausafjár tíund 42 f., heytollar 22 og dagsverk 14. Sóknarmenn: 146.

5. *Vesturhópshólar*, þ. e. bæirnir 104—112, 114—117 og 132—131. Brauðið er metið 12 rd. 4 mk. Tún prestsetursins fóðrar naumast 3 kýr, en eingið 50 ær, en hèr þarf líka að ætla sauðfènaði og hrossum fóður meiri part vetrar. Brauðið á hálfan reka fyrir kirkjujarðarinnar Víkur landi. Staðnum fylgja 4 kúg. og 1 hross. Kirkjujarðirnar eru leigðar þannig: Vík með 2 kúg. og 60 ℔ af ullu og tólg, og 15 pörum duggarasokka í lsk., og Þorfinnstaðir með 2 kúg. og 40 ℔ af ullu og tólg, 10 pörum duggarasokka og 1 dagsláttu í lsk. Fasteignar tíund 118 f., greidd með peníngum eptir meðalverði verðlagsskrárinnar, lausafjár tíund 57 f., heytollar 11 og dagsverk 6. Sóknarmenn: 134.

6. *Breiðabólstaður í Vesturhópi;* og eru í Breiðabólstaðar sókn bæirnir 113, 118—131 og 138—140, en í Víðidalstúngu sókn 65—67 og 141—165*. Brauðið er metið 67 rd. 2 mk. 3 sk. Staðartúnið er mjög af sèr gengið af skriðum, svo að það nú naumast fóðrar 5 kýr. Eingjar eru víðslægar, en snöggar. Landgæði sæmileg fyrir búsmala á sumrum í dal nokkrum, sem er í grennd. Meðal hlynninda er talin silúngsveiði í Vesturhópsvatni. Kirkjan á viðreka í Ófeigsfirði á Ströndum, frá Hesthamri í Hrúteyjarkleif og þaðan í Votuhellu, en um kirkjunnar rètt til Sigríðarstaða-sands reka er eigi útkljáð. Afrèttartollar, sem kirkjan áður fèkk, verða nú eigi taldir til inntektar, síðan kirkjujörðin Þorgrímstaðir var bygð upp aptur í afrèttar-landi staðarins. Hjáleigan Foss er bygð með 1 kúg. 60 al. lsk., og Bjarghús 2 kúg. 60 al. lsk. og 1 dagsláttu, en kirkjujarðirnar þannig: Almenníngur með 60 al. lsk., Þor-

*) Hèr eru sókna skil mjög óljós hjá presti.

grímstaðir 70 al. lsk.; Sigriðarstaðir 45 al. lsk. (að meðtöldum 2 dagsláttum); Grund 1 h. lsk. (að meðtöldum 3 dagsláttum); Hurðarbak 70 al. lsk. (að meðtöldum 3 dagsláttum), og Síða 1 h. lsk. (að meðtöldum 3 dagsláttum), og fylgja hverri jarða þessara 2 kúg. Um reka eyði-kirkjujarðarinnar Melatúns eða Melalands er þræta, enn (1839) ókljáð, millum Breiðabólstaðar kirkju, þíngeyra klausturs og Stóru Borgar. Af Víðidalstúngu kirkju eign fær presturinn 9 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 348 f., lausafjár tíund 262 f., heytollar 56 og dagsverk 19. Prestur leggur árlega 3 rbd. af brauðinu. Sóknamenn: 445.

7. *þíngeyra klaustur*, þ. e. bæirnir 135—137, 166—178, 185—189, 214—216, 219—221 og 232—234. Brauðið er metið 37 rd. 2 mk. 8 sk. Tún lènsjarðarinnar fóðrar 4 kýr. Eingjar eru þar greiðfærar og víðslægar, en eigi grasgefnar, og er fullsett á jörðina 60 ær, 30 lömb, 40 sauðir og 10 hestar (auk kúnna); hún er lètt til beitar bæði sumar og vetur, og er þar landþraungt, og er hún hátt leigð með $2\frac{1}{2}$ h. lsk. 2 kúg. Af klaustrinu fær presturinn 5 h. á landsvísu, og gengur helmíngur þar af til landskuldargjaldsins, og fær prestur það sem afgángs er gjaldi þessu og leigum eptir kúgildin, hálft í duggarasokkum, parið á 2 al. Hèr við bætast, eptir kon. br. 5. Apríl 1837 (er tók djákna-embættið af), djáknapeníngar, 4 h., sem borgast eptir verðlagsskránni. Fasteignar tíund 352 f., lausafjár tíund 270 f., heytollar 38 og dagsverk 20. Prestur leggur fátækum presta ekkjum 54 sk. af brauðinu. Sóknarmenn: 300.

8. *Undirfell*, þ. e. bæirnir 179—184, 190—196 og 209—213. Brauðið er metið 14 rd. 4 mk. Prestsetrið fóðrar á töðu $4\frac{1}{2}$ kýr, hefir víðslægar eingjar, sem þó liggja undir sandáburði og landbroti af Vatnsdalsá; það hefir og annað land sæmilegt að vöxtum og gæðum. Eptir máldögum á kirkjan viðreka að hálfu móti Hvamms kirkju á þíngeyrasandi, og hvalreka hálfan að Geitafelli. Heima er 1 kýr, 12 ær og 1 h. í hestum, sem fylgja staðnum; en hjáleigan er leigð með 1 kúg. 40 al. lsk. (um stund). Fasteignar tíund 152 al., lausafjár tíund, að 5 ára meðaltali, $97\frac{1}{2}$ al., heytollar 18 og dagsverk 6. Af fornri annexíu á Márstöðum (183. sjá kon. br. 17. Mai 1765, Canc. br. 17 Nóvbr. 1787, og kon. br. 9. Febr. 1813) gjaldast presti 20 al. Sóknarmenn: 193.

9. *Grímstúngur*, þ. e. bæirnir 197—208. Brauðið er metið 16 rd. 3 mk. 4 sk. Tún staðarins má telja 20 dagsláttur, og fást af því 150 hestar. Eingjar eru að mestu leiti harðlendar, og fást af þeim 200 hestar. Jörðin hefir landrými til fjalls og landkosti þar í betra lagi. Eptir dómi 10. Júní 1758 á staðurinn lamba-upprekstur til fjalls, og gjaldast presti árlega

20 fjallalollar, sem eru jafnmörg lömb. Staðnum fylgja 10 kúg. og 60 al. í geldfé. Kirkjujörðin Kot er leigð með 3 kúg. 4 spesía lsk., og 3 dagsláttum (fyrir selstöðu og beit í Grímstúngna landi) og Kárdalstúnga með 3 kúg. 2 spesía lsk. og 3 dagsláttum. Fasteignar tíund 202 f., lausafjár tíund, að 5 ára meðaltali, 114 f., heytollar 13 og dagsverk 3. Af brauðinu eru uppgjafa prestum árlega lagðir 54 sk. Sóknarmenn: 128.

10. *Hjaltabakki*, þ. e. bæirnir 217—218 og 222—231. Brauðið er metið 11 rd. 2 mk. 2 sk. Prestsetrið, sem prestur segir talið 30 h. að dýrleika, hefir harðlend tún og þýfð, og fást af þeim 100 hestar. Selveiði í Húnaósi, laxveiði í Laxá* og í Blöndu hefir eigi orðið að arði í seinast liðin 20 ár. Hrís er hèr til lèdeingíngar. Viðreki er hèr eigi að notum. Eingjar eru undirorpnar grjótáburði og megnum ágángi, og gefa þær af sèr allt að 100 hestum. Hjáleigan er bygð, kúgildalaus, með 20 al. lsk. Fasteignar tíund 120 f., lausafjár tíund, að 5 ára meðaltali, 97 f., heytollar 14 og dagsverk 8. Sóknarmenn: 109.

11. *Auðkúla*, og eru í Auðkúlu sókn bæirnir 235—246, en í Svínavatns sókn 250—263.** Brauðið er metið 16 rd. 13 sk. Prestur telur prestsetrið 30 h. að dýrleika, með 4 kúg. Tún eru þar 24 dagsláttur, og fást af þeim 240 hestar. Eingjar eru víðslægar, sæmilega heygóðar, en opt snöggar, og fást af þeim jafnmargir hestar. Jörðin hefir útbeit og haggæði í betra lagi. Silúngsveiði mætti máske hafa nokkra í Svínavatni. Eptir selstöðu og afrèttarland kirkjunnar gjaldast árlega 24 fjallatollar, á 10 f. hver. Í fjalllandinu er og nokkur grasatekja, álptaveiði og fjaðratekja, sem leigist við 40 f. eptirgjaldi. Kirkjujörðin Gafl er bygð með 1 kúg. og 60 al. lsk., að meðtöldum 3 dagsláttum, og Litlidalur sömnleiðis, og gjaldast þar að auki 20 al. þaðan, eptir eyðihjáleiguna Litladalskot. Af Svínavatns kirkju eign fær presturinn 12 fjórð. smjörs. Tíund »af 576 jarðar hundruðum 346 f.», lausafjár tíund, að meðaltali í 5 ár, 317 f., heytolla meðaltal 28 og dagsverka meðaltal 17. Sóknamenn (2. Nóvember 1840): 259.

*) Lögð brauðinu, frá Þingeyrum, eptir kon. úrsk. 27. Marts 1775.

**) Þareð fólkstölulista vantar frá prestinum, verður eigi með vissu sèð, hvort bæir þessir, hver um sig, eigi kirkjusókn að Auðkúlu eða að Svínavatni, en allir heyra þeir prestakallinu til, og má þess hèr geta, að eptir fólkstölunni 2. Nóvbr. 1840 voru 116 manns í Auðkúlu sókn og 143 í Svínavatns sókn, enda virðist, að sú seinni bæjatala, sem er en meiri, eigi við Svínavatns sókn, eptir sem næst verður komizt, þegar borin er saman brauðskýrsla prestsins 1839 við skýrslu hreppstjórans og sýslumannsins 1845, en sú minni við Auðkúlu sókn, og svo er líka frá skýrt, af manni, kunnugum í sóknum þessum. Sjá athugas. við Svínavatns hrepp, að framan.

12. *Blöndudalshólar;* og eru í Blöndudalshóla sókn bæirnir 247—249 og 268—277, en í Holtastaða sókn 264—266, 310—317, 319 og 331—347.* Brauðið er metið 19 rd. 5 mk. 2 sk. Prestsetrið er mögur bújörð og landþraung, og undirorpin jarðföllum og skriðum á tún og eingjar. Kirkjujörðin Bjargir (358) leigist með 40 al. lsk. og 2 af 4 kúgildum kirkjunnar. Eptir »reit fyrir vestan Blöndu», sem kirkjan á, gjaldast árlega 60 f., og af Holtastaða kirkju eign 10 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 481 f., lausafjár tíund 214 f., heytollar 43 og dagsverk 13, allt að meðaltali í 5 ár. Sóknamenn: 326.

13. *Bergstaðir í Svartárdal;* og eru í Bergstaða sókn bæirnir 278—293, en í Bólstaðarhlíðar sókn 267 og 294—309. Brauðið er metið 26 rd. 4 mk. 7 sk. Prestsetrið Bergstaðir er jörð erfið og landþraung heimavið, en hún á selstöðu norður á fjalli, sem árlega er brúkuð. Eingjar eru hèr undirorpnar skriðum. Af 5 kúgildum kirkjunnar er 1 á Fossá, og gjaldast þaðan 6 sauðir veturgamlir í lsk. Af Bólstaðarhlíðar kirkju eign fær presturinn 10 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 375 f., lausafjár tíund 277 f., heytollar 38 og dagsverk 9. Sóknamenn: 291.

14. *Höskuldstaðir,* þ. e. bæirnir 316, 320—333 og 386—409. Brauðið er metið 51 rd. 3 mk. 2 sk. Staðurinn hefir tún stór, sem víst eru 24 dagsláttur, þau eru harðlend og taka illa rækt, og er kúamykja þar gagnslítil til áburðar. Af þeim fást í meðalári 200 hestar. Eingjar eru litlar, í Laxár hvömmum, votlendar bæði og harðlendar, og liggja við átroðníngi af lestafólki; þar fást 100 hestar. Jörðin er bæði landþraung og jafnan undirorpin ágángi. Sjáfarafli er hèr nokkur í Ósvíkinni, og lítið æðarvarp »í litlum fjörubás», og er meiri ábata von af varpinu í hólma »í tjörn á melunum» suður frá túninu. Líka má hafa laxveiði í Laxá, en lax gengur sjaldan upp í hana. Í selstöðu staðarins er nú bygt lítið býli, Höskuldstaðasel. Viðreka ítök staðarins á Skaga nægja til að halda húsum við, og af hvalreka er hagnaðar von, í Spákonuarfi, og hefir tvisvar rekið þar hvali á 22 árum. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Efri Mýrar með 3 kúg. 1 h. lsk.; Svangrund 1 kúg. 40 al. lsk.; Sölvabakki hálfur sömuleiðis; Ytri Hóll 3 kúg. 1 h. lsk.; Hvammshlíð (»seljörð staðarins») 1 kúg. 30 al. lsk.; Höskuldstaðasel ½ kúg. 15 al. lsk.; Syðrihóll 4 kúg. 1 h. 40 al. lsk.; Kollugerði 1 kúg. 30 al. lsk. og Þverá með 1½ kúg. 60 al. lsk. Uppí landskuldir af jörðum þessum koma 13 dagsláttur, 160 al. greiðast með gemlíngum og landaurum, en hitt í peníngum og öðru, eptir verðlagsskránni.

*) Hèr eru sókna skil næsta óljós hjá presti.

Fasteignar tíund 348 f. Lausafjártíund 132 f., heytollar 45 og dagsverk 20, allt að meðaltali í 5 ár. Af brauðinu leggjast uppgjafa prestum og presta ekkjum 1 rbd. 66 sk. Sóknarmenn: 296.

15. *Hof á Skagaströnd;* og eru í Hofs sókn bæirnir 351—375, en í Spákonufells sókn 376—385. Brauðið er metið 27 rd. 3 mk. 1 sk. Tún staðarins er kallað 18 dagsláttur, og er það mjög ógrasgefið. Útheyslægjur eru litlar sem engar; beitiland sumar og vetur í góðu meðallagi. Rekapláz er lítið fyrir heimalandi, en undan er þar genginn hvalreki. Kirkjan á 1 vætt í hval milli Fossár og Deildarhamars. Önnur staðar hjáleigan byggist með 100 al. lsk. 1 kúg., hin 30 al. lsk. ½ kúg. Kirkjan á fyrir austan fjall landspart, góðan til heyskapar og selstöðu, sem nýlega er bygður húsmanni, með 25 al. eptirgjaldi. En kirkjujarðarinnar Steinastaða er eigi getið í brauðskýrslunni.* Af Spákonufells kirkju eign fær presturinn 4 fjórð. smjörs, og af bænahúsi í Höfnum (352) 35 f., fyrir 8 ferðir þángað á ári til messugjörða. Fasteignar tíund 247 f., lausafjár tíund 50 f., heytollar 36 og dagsverk 28. Sóknamenn: 328.

---

# II. Skagafjarðar sýsla.

## 1. Skefilstaða hreppur.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 1. Hraun[1]. ⅓ Reynist. kl. j. ⅔ † be. . . . . . . . . . . | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 2. Þángskáli[2] † . . . . . . . be. | . . | 0,30 | ½ | 1 l. |
| 3. Kelduvík[3] † . . . . . . . . be. | . . | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 4. Efranes[4] . . . Reynist. kl. j. | 4 | 0,20 | 1 | 1 l. |
| 5. Neðranes[5] † . . . . . . . . be. | . . | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 6. Ytra Malland † . . . . . be. | 16 | 0,60 | 2½ | 1 l. |

*) Prestur nafngreinir eigi heldur hjáleigurnar, en segir frá leigumála á »2 kotum», sem hann segir bygð úr heimalandi staðarins.

1) Hreppstjóri einn telur nú jörð þessa 26 h. að dýrleika. A. M. telur hér með eyðihjáleigu Högnagerði.

2) 1802 og nú af hreppstjóra er jörð þessi talin 5 h. að dýrleika. A. M. segir hana í eyði og brúkaða frá Kelduvík.

3) Prestur hleypur yfir jörð þessa (1843), hreppstjóri einn telur á henni dýrleika, 5 h.

4) Hreppstjóri einn telur jörðu þessa 5 h. að dýrleika.

5) 1802 er jörð þessi talin 5 h. að dýrleika, og eins telur hreppstjóri. A. M. segir, að hèr liggi Hundsnes, sem Reynistaðar klaustur eigi, og sè fyrir beit þar frá Neðranesi goldnar 10 al. til klaustursins.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendar |
|---|---|---|---|---|
| 7. Syðra Malland[6]. Reynist. kl. j. | 8 | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 8. Keta[7] †. . . . . . . . . be. | . . | 1,30 | 3 | 1 l. |
| 9. Kleif[8] † . . . . . . . . be. | . . | 0,90 | 3 | 2 eig. |
| 10. Hvalsnes[9] † . . . . . . be. | . . | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 11. Brókarlækur. ½ Reynist. kl. j. ½ † be. . . . . . . . | 10 | 0,60 | 2½ | 1 l. |
| 12. Selnes[10] † . . . . . . . be. | . . | 0,60 | 1 | 1 eig. |
| 13. Selá[11]. ½ Reynist. kl. j. ½ † be. . . . . . . . . . . | 12 | 0,60 | 2½ | 1 l. |
| 14. Hóll[12] † . . . . . . . . be. | . . | 0,50 | 2 | 1 l. |
| 15. Hvammkot[13]. Reynist. kl. j. | 5 | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 16. Foss[14] . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 2 eig. |
| 17. Foss-sel . . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 18. Gaukstaðir . . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 19. Skefilstaðir[15]. Reynist. kl. j. | 16 | 0,80 | 4 | 1 l. |
| 20. Sævarland[16] †. . . . . be. | . . | 1,40 | 3 | 1 l. |
| 21. Þorbjargarstaðir[17] †. . be. | . . | 0.40 | 2 | 1 l. |
| 22. Hvammur í Laxárdal[18]. benef. | . . | 0,60 | 5 | prestur |

6) Jarðabækurnar nefna aðeins eitt Malland, ⅔ Hólastóls eign og ⅓ Reynistaðar klausturs eign, en hér er því skipt í sundur, eptir presti og hreppstjóra.

7) 1802 og nú af hreppstjóra er jörð þessi talin 20 h. að dýrleika. A. M. telur með henni eyðihjáleiguna Oddskot.

8) 1802 er jörð þessi talin 15, en hreppstjóri telur hana 16 h. að dýrleika.

9) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 20 h. að dýrleika. A. M. telur hér með eyðihjáleigu Hamarsgerði. 1802 segir, að eyðijörðin Lágmúli, sem var seld sem eyðijörð Hólastóls, sé brúkuð til beitar frá Hvalsnesi og Kleif, og er hún enn eigi nefnd sem bygt býli af presti eða hreppstjóra.

10) 1802 og nú hjá hreppstjóra er jörð þessi talin 10 h. að dýrleika.

11) A. M. taldi hér með eyðihjáleigu Osthvamm.

12) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 8 h. að dýrleika.

13) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 7 h. að dýrleika.

14) 1802 fékkst hér 1 ℔ æðardúns. Jarðabækurnar nefna að vísu eigi Foss-sel, en þar á móti (A. M.) Ólafshús sem eyðihjáleigu; en þareð hreppstjóri telur 2 eigendur og 1 leiguliða á Fossi, sem eigi kemur heim við fólkstölulista prestsins, er Foss-sel hér tekið með eptir presti, sem hjáleiga frá Fossi.

15) 1802 er eyðijörðin Bakkakot, kirkjujörð frá Miklabæ í Blönduhlíð (A. M. 20 al. lsk. 2 kúg.) brúkuð héðan, og er hennar nú hvorki getið af presti né hreppstjóra.

16) 1802 er jörð þessi talin 20 h. að dýrleika, og eins telur nú hreppstjóri.

17) A. M. segir hér aðeins frá leigumála, og hreppstjóri einn: að dýrleikinn sé 5 h.

18) A. M., sem líka segir kirkjukúgildin 5, telur hér með eyðihjáleigu, Grundargerði (30 al. lsk. 2 kúg.), og var hún, ásamt eyðijörð Hvammskirkju, Atlastöðum (A. M. 20 h., 1 h. 60 al. lsk.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 23. Hafragil . . . Reynist. kl. j. | 20 | 0,100 | $3\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 24. Skíðastaðir[19]. Reynist. kl. j. | 36 | 1,60 | 3 | 1 l. |
| 25. Herjólfstaðir . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 26. Hrafnagil . . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 27. Illugastaðir . . . . . . . be. | 16 | 0,80 | 3 | 2 l. |
| 28. Fannstaðir[20] . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 2. Sauðár hreppur. | | | | |
| 29. Reykir[1] . . . Reynist. kl. j. | 30 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 30. Íngveldarstaðir[2]. . . . . be. | 52 | 2,0 | 4 | 2 eig. að $\frac{1}{2}$ j. og 1 l. |
| 31. Sveinskot } . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 32. Hólkot } . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | $1\frac{1}{2}$ | 1 eig. og 1 l. |
| 33. Daðastaðir[3] . . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 34. Hólakot . . . Reynist. kl. j. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 35. Fagranes[4] . . . . . . benef. | . . | 0,100 | 4 | prestur. |
| 36. Steinn[5] . . . Reynist. kl. j. | 20 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 37. Meyjarland[6] † . . . . fáte. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 38. Innstaland[7]. Reynist. kl. j. | 12 | 0,40 | 3 | 1 l. |
| 39. Skarð[8]. Tjarnar kke. á Vatnsn. | 25 | 0,80 | 3 | 1 l. |

3 kúg.) brúkuð frá staðnum 1802, og er hvorug jarða þessara enn talin bygð.

19) 1802 og nú af hreppstjóra eru Skíðastaðir sèr taldir 26, og Herjólfstaðir sèr 10 h. að dýrleika, en jb. 1760 telur að vísu leigumála á hvorri jarðanna sèr í lagi, en þó Herjólfstaði sem hjáleigu. A. M telur hèr að auki Grímstaði (30 al. lsk.) og Þokustaði, sem eyðihjáleigur, með Skíðastöðum.

20) Jörðu þessa nefna jarðabækurnar eigi, en þar á móti bæði prestur og hreppstjóri, og telur hreppstjóri hana 8 h. að dýrleika, en nefnir hana »Fannlagastaði».

1) A. M. telur hèr með hjáleigu, Reykjakot (60 al. lsk. 1½ kúg.).

2) 1802 er jörð þessi talin 42 h. sèr, og Hólkot 10 h. sèr, en nú telur hreppstjóri heimajörðina, 32 h. og hjáleigurnar, hvora um sig, 10 h. að dýrleika. Á dögum A. M. var Sveinskot í eyði, og var það enn 1802, en á Hólkoti segir hann frá leigumála, og telur þar að auki Snorrakot (40 al. lsk. 1 kúg.) og Garðakot (60 al. lsk.) sem hjáleigur, og sem eyðihjáleigu Ekrakot. 1802 og sömuleiðis hreppstjóri segja, að Thorkillii barnaskóli hafi áður átt hálfa jörðina. Prestur einn nefnir Jónskot, sem eigi er talið með hjá hreppstjóra.

3) Sami skóli átti einnig helmíng þessarar jarðar.

4) A. M. telur hèr með hjáleigu, Skriðukot (60 al. lsk. 1 kúg.), og á staðnum 4½ kirkjukúg., hreppstjóri þar að auki 2 hesta.

5) A. M. telur hèr undir Fossarteig (10 h., 40 al. lsk. 2 kúg.) í eyði.

6) Hreppstjóri telur nú jörð þessa orðna eign fátækra í Svínavatns hreppi.

7) A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Innstalandskot (20 al. lsk. 1 kúg.).

8) A, M., sem hèr segir frá dýrleika, telur hèr með eyðihjáleigu

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 40. Veðramót[9] . . Reynist. kl. j. | 36 | 1,60 | 6 | 1 l. |
| 41. Þórðarsel . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 42. Heiði[10] . . . Reynist. kl. j. | 26 | 1,40 | 5 | 1 l. |
| 43. Breiðstaðir . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 44. Kálfárdalur[11] . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 4 | 2 eig. |
| 45. Skálárhnúkur } . . . . . hjál. | 5 | 0,20 | 1 | 1 l. |
| 46. Selhólar } . . . . . hjál. | 5 | . . . | . . | 1 eig. |
| 47. Túnga[12] . . Reynist. kl. j. | 24 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 48. Sauðá[13] . . . Reynist. kl. j. | 20 | 1,80 | 3 | 1 l. |
| 49. Áshildarholt[14]. Sjáfarb. kkc. | 20 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 50. Sjáfarborg[15] . . . . . . be. | 50 | 2,60 | 10 | 1 l. |
| 51. Borgarsel } . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 52. Grænhóll } . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 53. Gerði (Borgargerði) . . . be. | 20 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 54. Brennigerði . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 55. Kimbastaðir[16] . . . . . be. | 30 | 1,0 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 56. Gil[17] . . . . . . . . . . be. | 40 | 1,60 | 6 | 1 l. |

Hraksíðu, og segir í jb. 1760, að konúngur hafi lagt jörð þessa fátækum og fjörgömlum prestum í Hóla stipti.

9) A. M. telur hér með eyðihjáleigu, Brúarland, en nú segir hreppstjóri Þórðarsel hjáleigu bygða í Veðramóts landi.

10) Breiðstaði segir A. M. í eyði, en nú er hjáleiga þessi talin bygð hjá presti og hreppstjóra. Prestur nefnir og Heiðarsel, sem hvergi annarstaðar finnst getið. Hreppstjóri telur Heiði og Breiðstaði saman, 30 h. að dýrleika.

11) 1802 var Skálárhnúkur talin 10 h. sér, 'en nú telur hreppstjóri hann aðeins 5 h., eins og Selhóla, sem hann og prestur einir nefna, og má ætla, að líka sé hjáleiga frá Kálfárdal, sem jarðabækurnar telja allan 20 h. að dýrleika. A. M. segir frá leigumála á Skálárhnúk sér.

12) A. M. telur hér með eyðihjáleigu, Stopul.

13) 1802 og hjá hreppstjóra er jörð þessi talin 40 h. að dýrleika. A. M. telur með henni eyðihjáleigu, Sauðárhús.

14) 1802 er jörð þessi talin aðeins 10 h. að dýrleika.

15) Jb. 1760 telur Sjáfarborg, með eyðihjáleigu, Lambagerði (A. M. 60 al. lsk. 2 kúg.) og tómthúsi Rófugerði, með hér greindum dýrleika og leigumála; en 1802 er Sjáfarborg sér talin 60 h. (hjá A. M. 40 h., en hjá hreppstjóra 37½ h. að dýrleika), Brennigerði sér 10, en Gerðis (sem hreppstjóri og prestur kalla Borgargerði, og hreppstjóri telur 12½ h. sér) er þar aðeins getið sem eyðihjáleigu með Sjáfarborg. Jb. 1760 aptur á móti telur bæði Gerði og Brennigerði, sem 1802 líka er kölluð hjáleiga frá Sjáfarborg, sem bænda eignir sér. 1802 segir, að Sjáfarborg sé eignuð selstaða í Kálfárdals landi. Prestur og hreppstjóri einir nefna nú Borgarsel og Grænhól, sem hjáleigur frá Sjáfarborg.

16) A. M. einn telur jörð þessa 40 h. að dýrleika.

17) 1802 er jörð þessi talin 30 h. að dýrleika.

| 3. Staðar hreppur. | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 57. Kjartanstaðir[1]. Reynist. kl. j. | 40 | 1,60 | 5 | 2 l. |
| 58. Kjartanstaðakot . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 59. Páfastaðir . . Reynist. kl. j. | 30 | 1,0 | 5 | 1 l. |
| 60. Litla Gröf. . Reynist. kl. j. | 15 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 61. Stóra Gröf . Reynist. kl. j. | 24 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 62. Holtsmúli[2] . Reynist. kl. j. | 40 | 1,40 | 5 | 2 l. |
| 63. Reynistaður[3] . . . . . . . . | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 64. Geitagerði } . . . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 65. Gvendarstaðir } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 66. Hryggir } . . . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 67. Hólkot[4] . . . . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 4 | 1 l. |
| 68. Vík[5] . . . . . . . . . . . be. | 40 | 3,80 | 14 | 1 eig. |
| 69. Glæsibær } . . . hjál. | 20 | 0,80 | 3 | 1 eig. |
| 70. Ögmundarstaðir } . . . hjál. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 71. Hafsteinsstaðir. Reynist. kl. j. | 40 | 1,60 | 5 | 1 l. |
| 72. Geirmundarstaðir. Reynist. kl. j. | 40 | 1,80 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 73. Dúkur . . . . Reynist. kl. j. | 24 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 74. Þröm . . . . Reynist. kl. j. | 20 | 0,60 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 75. Varmaland . Reynist. kl. j. | 20 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 76. Hóll[6] . . . . . . . . . . be. | 40 | 1,0 | 4 | 2 l. |

1) Hjáleigan er fyrst nefnd 1802, og telur hreppstjóri 5 h. af dýrleikanum á henni.

2) A. M. segir, að í mæli sè, að eyðijörðin Strábeygíngstaðir sè lögð undir Holtsmúla, en að hann hafi verið áður aðeins 20 h. að dýrleika.

3) Jarðabækurnar segja eigi frá dýrleika eða leigumála á heimajörðunni, jb. 1760 þar á móti frá leigumála á hjáleigunum, nema á Gvendarstöðum, sem fyrst eru nefndir 1802, svo og frá hjáleigunni Mel (100 al. lsk. 2 kúg.) og Hvammshúsum (A. M. 30 al. lsk. 2 kúg.), en hvorug hjáleigna þessara er nú nefnd. Hreppstjóri einn telur Reynistað 80 h. að dýrleika, og segir þaðan goldna lsk. 2 h. 40 al. í tólg, þángað til jörðin var seld, Geitagerði 10 h. að dýrleika, með 60 al. lsk. ($\frac{1}{3}$ í eingirnissokkum og $\frac{2}{3}$ í tólg) og 1 kúg., Gvendarstaði 10 h. að dýrleika, með sömu lsk. (hálfri í eingirnissokkum og hálfri í ullu) og 2 kúg., og Hryggi 10 h. að dýrleika, með sömu lsk. ($\frac{1}{3}$ í ullu, $\frac{1}{3}$ í tólg og $\frac{1}{3}$ í sokkum) og 1 kúg.

4) 1802 er jörð þessi talin aðeins 15 h. að dýrleika. 1759 var landskuldin talin 50 al. og kúg. 1, en hèr er dýrleiki og leigumáli hafður eptir A. M.

5) A. M. telur alla Vík 80 h. að dýrleika, og segir hann frá leigumála á hjáleigunum, en jb. 1760 frá leigumála á allri eigninni. 1802 og nú hjá hreppstjóra er dýrleikanum skipt niður á heimajörð og hjáleigur, sem hèr greinir. 1802 er og Pottagerði nefnt sem hjáleiga frá Vík, en nú hvorki hjá presti nè hreppstjóra.

6) A. M. telur hèr með eyðihjáleigurnar Hjallaland (60 al. lsk. $1\frac{1}{2}$ kúg.) og Bakkakot.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 77. Bessastaðir[7] . . . . . . be. | 40 | 1,0 | 1 | 1 eig. að 12 h. |
| 78. Sólheimar[8] . . . . . . be. | 60 | 2,0 | 8 | 1 eig. að 17 h. |
| 79. Auðnar . . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | 2½ | 1 l. |
| 80. Dæli . . . . Reynist. kl. j. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 81. Skarðsá . . Reynist. kl. j. | 20 | 1,0 | 1½ | 1 l. |
| 4. Seilu hreppur. | | | | |
| 82. Elvogar. . . Glaumb. kke. | 20 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 83. Ípishóll. . . Reynist. kl. j. | 16 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 84. Fjall[1] . . . Reynist. kl. j. | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 85. Vatnskarð. . Glaumb. kke. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 86. Valadalur[2] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 87. Valabjörg . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | . . | 1 eig. |
| 88. Brekka . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 89. Grófargil (Grafargil)[3] . be. | 20 | 1,100 | 3 | 1 l. |
| 90. Reykjarhóll. Reynist. kl. j. | 40 | 1,60 | 3 | 1 l. |
| 91. Kirkjuhóll. Víðimýrar kke. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 92. Víðimýri[4] . . . . . . . be. | 60 | 3,0 | 10 | 3 l. |
| 93. Álptagerði . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 94. Hrísey † . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4½ | 1 l. |
| 95. Ytra Vallholt[5] . . . . fáte. | 40 | 1,100 | 4 | 1 l. |
| 96. Syðra Vallholt † . . . . be. | 50 | 1,80 | 4 | 1 eig. að ½ j. og 1 l. |
| 97. Skinnþúfa † . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 98. Vellir* † . . . . . . . . be. | 40 | 1,60 | 4 | 1 eig. að ½ j. |
| 99. Bakki † . . . . . . . . be. | 30 | 1,40 | 3 | 1 l. |
| 100. Lángamýri † . . . . . be. | 40 | 1,60 | 4 | 3 l. |
| 101. Krossanes † . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 2½ | 1 l. |

7) 1802 er jörð þessi kölluð 25 h. að dýrleika, en hér segir A. M. frá dýrleika, og telur hann eyðihjáleiguna Flatagerði með.
8) 1802 og nú hjá hreppstjóra eru 10 h. af dýrleikanum talin á hjáleigunni, en þar segir A. M. frá leigumála sér.
1) A. M. telur hér með Karlastaði og Grófargerði, í eyði.
2) 1802 og hjá hreppstjóra er Valadalur talinn 15, og Valabjörg sér 5 h. að dýrleika, en jarðabækurnar telja Valabjörg sem hjáleigu, og segir A. M. þar frá leigumála sér.
3) A. M. telur hér gamla eyðijörð í landinu, Melagerði.
4) 1802 og nú hjá hreppstjóra er jörð þessi talin sér 50 h. og Álptagerði sér 10 h. að dýrleika. A. M. telur hér, auk Álptagerðis, Paronsgerði (40 al. lsk. 1¼ kúg.) og Prætugerði, sem nú eigi er getið. Hreppstjóri segir, að kirkjan á Víðimýri eigi prestskyld í heimalandi, að prestur fái þaðan 6 fjórð. smjörs, og að 2¼ h. lsk. sé nú á allri eigninni.
5) Jb. 1760 segir, að jörð þessi sé gefin, af meistara Þórði biskupi, fátækum ekkjum í Skagafirði.
*). Að jörð þessi um tíma komst úr eign stólsins og var unnin undir hann aptur, sést af M. Ketils. I, bls. 267—68.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 102. Geldíngaholt[6] † . . . be. | 60 | 2,60 | 5 | 2 l. |
| 103. Holtskot . . . . . . . hjál. | . . | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 104. Seila[7] . . . . . . . . . be. | 60 | 2,90 | 8½ | 2 l. |
| 105. Litla Seila . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 106. Torfgarður[8] † . . . . be. | 15 | 0,90 | 3 | 1 eig. |
| 107. Syðra-Skörðugil †. . . be. | 26 | 1,0 | 4 | 2 l. |
| 108. Ytra-Skörðugil. Reynist. kl.j. | 20 | 1,20 | 4 | 1 l. |
| 109. Haldórstaðir. Glaumb. kke. | 20 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 110. Húsabakki[9]. Glaumb. kke. | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 111. Glaumbær[10] . . . . benef. | 40 | 3,90 | 15 | prestur |
| 112. Hátún } . . . . . hjál. | 5 | . . . | . . | 1 l. |
| 113. Mikligarður } . . . . . hjál. | 20 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 114. Jaðar } . . . . . hjál. | 5 | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 115. Marbæli[11] † . . . . . be. | 40 | 2,0 | 4 | 1 eig. að ¼ j. og 1 l. |
| **5. Lýtíngstaða hreppur.** | | | | |
| 116. Kolgröf . . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 117. Álfgeirsvellir[1] . . . . . be. | 50 | 2,0 | 6 | 3 l. |
| 118. Yztavatn . . . . . . . . be. | 15 | 0,70 | 2 | 1 l. |
| 119. Miðvatn[2]. . . . . . . . be. | 15 | 0,70 | 2 | 1 eig. |
| 120. Syðstavatn[3] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |

6) 1802 er heimajörðin talin 50, hjá hreppstjóra 48, og hjáleigan 10, hjá hreppstjóra 12 h. að dýrleika sér í lagi. A. M., sem segir frá leigumála á Holtskoti sér, telur þar að auki Ró, sem eyðihjáleigu.
7) 1802 og hjá hreppstjóra eru 10 h. af dýrleikanum talin á hjáleigunni. A. M. telur hér að auki Melkot sem hjáleigu (60 al. lsk. 3 kúg.), og segir 1802, að hún sè með, og að Seila eigi selstöðu á Reykjaskarði. 8) Hér segir A. M. bæði frá leigumála og dýrleika.
9) Jörð þessi er fyrst nefnd 1802 og þá talin nýbýli, en hreppstjóri telur hana nú 20 h. að dýrleika.
10) Jb. 1760 segir frá leigumála á öllum Glaumbæ, og telur A. M. þar 8 kirkjukúgildi (hreppstjóri nú 5 kúg.), svo og leigumálann á hjáleigunum, nema á Hátúni, sem fyrst er nefnt 1802; en dýrleiki á stað og hjáleigum, hverri um sig, er hér talinn eins og hann var sagður 1802, en á Miklagarði, sem hreppstjóri einúngis nefnir, telur hann nú 10 h. dýrleika.
11) A. M. telur hér með hjáleigu, Tjarnarkot (40 al. lsk. 1 kúg.).
1) Hér telur nú hreppstjóri kúgildin 5. A. M. telur með eyðihjáleiguna Álfgeirsvallagerði, en prestur einn nefnir nú Vallmúla (með 3 manns), sem hér er sleppt.
2) Jarðabækurnar telja Yztavatn og Miðvatn saman að dýrleika og leigumála, en þó eru báðar jarðirnar aðgreindar í jb. 1760, og er dýrleika þeim og leigumála, sem þar er settur við Yztavatn, hér skipt jafnt niður á báðar jarðirnar, sem prestur og hreppstjóri nefna sér í lagi, og hreppstjóri hvora um sig 15 h. að dýrleika, og telur hann nú á Yztavatni 60 al. lsk. 1 kúg.
3) Hér segir nú hreppstjóri kúg. 2.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 121. Brekkukot[4] . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 122. Mælifellsá ytri[5] . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 eig. |
| 123. Mælifellsá syðri[6] . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 124. Nautabú[7] . . . . . . . be. | 40 | 2,0 | 4 | 1 l. |
| 125. Mælifell[8] . . . . . . benef. | 40 | 2,0 | 6 | prestur |
| 126. Hamarsgerði' . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 127. Starastaðir[9] . . Mælif. kke. | 30 | 1,60 | 4 | 1 l. |
| 128. Hamrar[10] . . . . . . . be. | 30 | 1,20 | 4 | 1 l. |
| 129. Sölvanes[11] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 2 l. |
| 130. Gilhagi* . . . . . . . . be. | 30 | 1,60 | 3 | 1 eig. |
| 131. Írafell[12] . . . . . . . . be. | 15 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 132. Grímstaðir . . . . . . . be. | 5 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 133. Miðvellir[13] . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 134. Ölduhryggur[14] . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 135. Ánastaðir[15] . . . . . . be. | 10 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 136. Svartárdalur fremri . . be. | 12 | 0,60 | . . | 1 eig. |
| 137. Svartárdalur ytri[16] . . be. | 12 | 0,70 | 2 | 1 eig. |
| 138. Giljar[17] † . . . . . . be. | 16 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 139. Þorljótstaðir[18] † . . . be. | 15 | 0,80 | 3 | 1 eig. |

4) A. M. einn telur jörð þessa part úr Skíðastöðum (171), og telur hreppstjóri hèr nú kúg. 1. 5) Hèr kúg. 2.

6) Hèr 100 al. lsk. 2 kúg. 7) Hèr 1 h. lsk. 3 kúg.

8) 1802 er hjáleigan talin 10 h. að dýrleika sèr. A. M. telur með staðnum gamla eyðijörð, Einarsdalskot. Hreppstjóri telur nú 1 kúg. á staðnum og 60 al. lsk. 2 kúg. á hjáleigunni.

9) Hèr 1 h. lsk. 3 kúg.

10) Hèr sömuleiðis. A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Girðíngagerði, og nefnir hann gamla eyðijörð, Dyrastaði, sem þræta sè um milli Hamra og Sölvaness.

11) Hèr telur nú hreppstjóri kúgildin 2.

*) A. M. telur hèr með hjáleigu, Paradís (60 al. lsk. 1½ kúg.) og eyðihjáleigur: Víti og Stryllustaði, en nú nefnir prestur einn Gilhagasel (með 2 manns), sem hèr er sleppt

12) Hèr telur nú hreppstjóri 90 al. lsk. 4 kúg.

13) A. M. einn telur Grímstaði ¼ úr Írafelli (5 h.), en þó með þeim Miðvelli og Kothól, sem eyðihjáleigur. Hreppstjóri leggur nú Grímstaði og Miðvelli að jöfnu, og 2½ h. dýrleika 30 al. lsk. 1 kúg. á hvorum um sig.

14) Hèr segir A. M. frá dýrleikanum. Hreppstjóri telur hèr nú kúg. 1.

15) Hèr 60 al. lsk. 2 kúg. A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Bæjarstöðul.

16) A. M. telur báða Svartárdali saman, 20 h. að dýrleika, en 1802 er Svartárdalur fremri talinn 8 h. að dýrleika. Jb. 1760 þar á móti leggur þá báða að jöfnu (að dýrleikanum til) einsog hreppstjóri, en hann telur á enum ytri 2, og á þeim fremri 1 kúg.

17) Hèr telur hreppstjóri 40 al. lsk. 1 kúg.

18) Hèr kúg. 1. Hèr með er í jarðabókunum talin eyðihjáleigan Stafn.

| | | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|---|
| 140. | Litlahlíð[19] † . . . . . be. | 10 | 0,90 | 2 | 1 eig. |
| 141. | Hof[20] †. . . . . . . . be. | 40 | 1,90 | 4 | 1 eig. |
| 142. | Bústaðir[21] † . . . . . be. | 12 | 0,80 | 4½ | 1 l. |
| 143. | Bjarnastaðahlíð † . . . be. | 30 | 0,100 | 3 | 1 eig. |
| 144. | Bakkakot[22] † . . . . . be. | 10 | 0,100 | 2 | 1 eig. |
| 145. | Goðdalir[23] . . . . . benef. | . . | 1,60 | 4 | prestur |
| 146. | Túnguháls[24]. Goðdala kke. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 147. | Villínganes[25] . . . . . be. | 36 | 1,60 | 5 | 1 l. |
| 148. | Hraun[26]. . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 149. | Breið[27] . . . . . . . . be. | 30 | 1,60 | 6 | 1 eig. að 12 h. |
| 150. | Breiðargerði . . . . . hjál. | . . | 0,50 | . . | 1 eig. |
| 151. | Hóll[28]. . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 2 l. |
| 152. | Sveinstaðir[29] . . . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 eig. |
| 153. | Lýtíngstaðir[30] . . . . . be. | 45 | 2,110 | 9 | 2 l. |
| 154. | Teigakot } hjál. | 10 | 0,60 | 2 | 1 eig. |
| 155. | Lýtíngstaðakot efra } hjál. | 15 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 156. | Lýtíngstaðakot neðra } hjál. | 10 | 0,30 | 1½ | 1 l. |

19) Jörðu þessa, sem 1802 er talin sem hjáleiga frá Hofi, telur hreppstjóri einn 15 h. að dýrleika.

20) A. M. telur hér fornar eyðijarðir í landinu: Pétursscl, Hamarsgerði, Hrafnstaði, Traðir og (í almenníngum) Hraunþúfuklaustur. 21) Hér telur nú hreppstjóri 50 al. lsk. 1 kúg.

22) A. M. einn telur Bakkakot sem hjáleigu frá Bjarnastaðahlíð, og þessa jörð alla 40 h. að dýrleika, en leigumála á hvorri jörðunni um sig er skipt hér niður samkvæmt jb. 1760, og dýrleikanum, einsog gjört er 1802 og nú hjá hreppstjóra, sem á Bjarnastaðahlíð telur 3, og á Bakkakoti 1 kúg. A. M. telur með Bjarnastaðahlíð eyðijarðirnar Vindheima og Guttabú.

23) A. M. telur hér með hjáleigu, Dalkot (60 al. lsk. 3 kúg.). Hreppstjóri telur hér nú kúg. 2.

24) Hér lsk. 90 al. kúg. 2. A. M. nefnir hér hjáleigu, Túnguhálskot.

25) 1802 er jörð þessi talin aðeins 20 h., en hreppstjóri, sem nú segir hér 90 al. lsk. 1½ kúg., telur hana 27 h. A. M. nefnir hér eyðihjáleigu, Nessel.

26) Jörð þessi er eigi nefnd í jarðabókunum, en prestur og hreppstjóri telja hana báðir, hreppstjóri 9 h. að dýrleika með 30 al. lsk. ½ kúg.

27) 1802 er jörð þessi talin 20 h. að dýrleika, og hreppstjóri, sem telur 2 kúg. á Breið og 1 á Breiðargerði, segir Breið sér líka 20 h., en Breiðargerði sér í lagi 10 h. A. M. telur hér að auki eyðihjáleigurnar: Stusshóla eða Brauthóla (20 al. lsk. 1 kúg.) og Geitagerði eða Geitabús.

28) Hér telur nú hreppstjóri lsk. 80 al. og kúg. 2.

29) Hér kúg 2.

30) Jb. 1760 telur dýrleika og leigumála á Teigakoti, sem hún þó telur hjáleigu, sér, en segir leigumála á torfunni að öðru leiti þann, sem hér er settur við heimajörðina, og telur hana alla 70 h. að dýrleika, og er dýrleika þessum skipt hér niður, einsog gjört er

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 252. Trèstaðir[7] . Möðruv. kl. e. | $22\frac{1}{6}$ | 0,100 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 253. Djúpárbakki. Möðruv. kl. e. | 20 | 0,100 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 254. Grjótgarður[8] . . . . . be. | 15 | 0.60 | 2 | 1 l. |
| 255. Laugaland[9] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 256. Heiðarhús . . . . . . hjál. | . . | 0,30 | $1\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 257. Krossaslaðir . . . . . . be. | 20 | 1.0 | 3 | 1 l. |
| 258. Steðji . . . . . . . . . be. | 12 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 259. Ás á þelamörk[10] † . be. | 20 | 1.0 | 4 | 1 eig. |
| 260. Neðri Vindheimar . . . be. | 25 | 2,30 | $4\frac{1}{2}$ | 2 l. |
| 261. Efri Vindheimar[11] . . be. | 15 | . . . | . . | 1 l. |
| 262. Neðri Rauðalækur. Möðruv. kl. e. . . . . . . . . . . | 10 | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 263. Hamar. . . Möðruv. kl. e. | 20 | 0,70 | 3 | 1 l. |
| 264. Ytri Bægisá . . . . benef. | . . | 1,0 | 6 | prestur. |
| 265. Garðshorn . Möðruv. kl. e. | $13\frac{1}{3}$ | 0,80 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 266. Efri (Stóri) Rauðalækur. be. | 30 | 1,40 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 267. Briti[12]. . . . . . . . . be. | 12 | 0,70 | 2 | 1 l. |
| 268. Skógar[13] . Möðruv. kl. e. | $13\frac{1}{3}$ | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 269. Vaglir . . . Möðruv. kl. e. | 20 | 1,20 | 3 | 1 l. |
| 270. Skútar . . . . . . Eyjaf. j. | 10 | 0.60 | 3 | 1 l. |
| 271. Moldhaugar[14] . . Eyjaf. j. | 10 | 0,60 | 3 | 2 l. |
| 272. Sílastaðir . . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 2 | 2 l. |
| 273. Sílastaðakot . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 274. Einarstaðir[15] . . . . . be. | 30 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 275. Pètursborg . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |

7) A. M. og jarðabækurnar (enar eldri) telja jörð þessa 16 h. að dýrleika.

8) 1802 er hèr með talin eyðihjáleigan Litlagerði, sem A. M. taldi með Laugalandi eða Heiðarhúsum.

9) Hreppstjóri telur Heiðarhús ser 5 h. að dýrleika, en Laugaland eigi að síður 20 h.

10) Jörð þessi, sem er seld meðal stólsjarða, er í jb. 1760 talin meðal lènsjarða presta, við Grímseyjar brauð, en þó segir þar, að hún af Þorláki biskupi Skúlasýni sè gefin íslenzkum stúdentum við Kaupmannahafnar háskóla, og hefir hún verið kölluð »stipendii jörð».

11) Jb. 1760 telur eina Vindheima, með leigumála þeim, sem hèr er talinn við Neðri Vindheima, 40 h. að dýrleika, A. M. þar á móti 60 h. dýrleika, en 1802 er jörðunni skipt í sundur, og þá með Neðri Vindheimum talin eyðihjáleigan Neðstu Vindheimar. Hèr er dýrleikanum skipt niður á Vindheima eptir hreppstjóra.

12) A. M. einn telur jörðu þessa 10 h. að dýrleika.

13) 1696 er jörð þessi talin 20 h. að dýrleika.

14) A. M. segir, að á Moldhauga- eða Laugalands-hálsi sè eyðijörð, Þórustaðir, sem höfð sè til beitar frá Moldhaugum, en þar sè þó landamerki tiltekin.

15) Hreppstjóri telur 5 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, sem fyrst er nefnd 1802.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 276. Ytri Brennihóll[16] *. . be. | 10 | 0,40 | . . | 1 eig. |
| 277. Syðri Brennihóll . . . be. | 10 | . . . | . . | 1 l. |
| 278. Blómsturvellir . . . . . be. | 5 | . . . | . . | 1 l. |
| 279. Steinkot . . . . . . . . be. | 5 | . . . | . . | 1 l. |
| 280. Efsta Samtún . . . . . be. | 5 | . . . | . . | 1 l. |
| 281. Mið-Samtún[17] . . . . . be. | 20 | 2,0 | 4 | 2 l. |
| 282. Syðsta Samtún . . . . be. | 5 | . . . | . . | 1 l. |
| 283. Hrankbæjarkot. Möðruv. kl. e. | 5 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 284. Hraukbær[18]. Möðruv. kl. e. | 25 | 1,20 | 2 | 1 l. |
| 285. Bitra[19] . . . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 3 | 2 l. |
| 286. Bitrugerði . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 287. Áslákstaðir † . . . . . be. | 30 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 288. Rafnstaðir[20]. . . . . . be. | 12 | 0,70 | 3 | 2 l. |
| 289. Keppsá[21]. Lögmannshl. kke. | 12 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 290. Hesjuvellir[22] . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 291. Lögmannshlíð[23]. . . . be. | 50 | 1,60 | 5 | 2 l. |

16) Jörð þessi var áður »forpöktuð« sér, þángað til hún var seld 1813, og er helmíngur jarðar þeirrar, sem þángað til 1802 var talin ein jörð og kölluð Brennihóll, og segir A. M. þannig frá um jörð þessa: »Brennihóll 20 h., þar af á Benedix sýslumaður Magnússon 10 h., en önnur 10 átti 1703 Magnús Benedixson, sem síðan var dæmdur á Brimarhólm; síðan eignaði Þorlákur bróðir hans sér þann part, en sagt er að Benedix sýslumaður Þorsteinsson hafi í fyrra dæmt konúngi þessi 10 h., og hefir sýslumaður Laurus Scheving jus patronatus yfir þeim og umboð yfir hinni hálflendunni». Jarðatala sýslumanns 1759 segir hér aðeins frá landskuldinni á hálflendunni. Prestur og sýslumaður kalla nú Ytra og Syðra Hól.

17) Jarðir þessar, 278—282, eru 1760 í einu lagi og undir einu nafni, Samtýni (með Blómsturvöllum sem eyðihjáleigu, 1802 og nú hjá presti og hreppstjóra eru nefnd Samtún) taldar 40 h. að dýrleika, en hér er dýrleikanum skipt niður eptir hreppstjóra, og leigumálinn á Samtýni enn gamla talinn við Mið-Samtún. 1802 er annars nefnt Yzta Samtún (líklega eð sama, sem nú nefnist Steinkot), og eru Blómsturvellir þá taldir sem hjáleiga frá Mið-Samtúni, og er við þá skýrt frá, að á milli Samtúns og Ytra Krossaness (242) sé landaþræta um landstykki niður við sjó, sem var haft til beitar, svo og um Nunnuhólma.

18) A. M. einn telur Hraukbæ 20, og Hraukbæjarkot 10 h. að dýrleika. 1802 er eyðihjáleigan Hraukbæjarhús talin með Hraukbæ.

19) Hreppstjóri telur hjáleiguna, sem hann og prestur einir nefna, $6\frac{2}{3}$ h. úr heimajörðunni.

20) A. M. einn telur jörð þessa, sem prestur og hreppstjóri nefna Hrappstaði, 20 h. að dýrleika.

21) A. M. einn telur jörð þessa, sem prestur og hreppstjóri nefna Kífsá, 10 h. að dýrleika.

22) A. M. kallar jörð þessa part úr Lögmannshlíð.

23) Lögmannshlíð alla telur jb. 1760 60 h. að dýrleika, og verða hér þá 2 h. um fram, eptir niðurskiptíngu hreppstjóra. Bandagerði er talið í eyði þángað til 1802, og eins Kriugerði og Sandgerði,

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 292. Rángárvellir ⎫ | 2 | 0,40 | $1\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 293. Kollugerði ⎬ . . . . . hjál. | 8 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 294. Bandagerði ⎭ | 2 | . . | . . | 1 l. |
| 295. Titlingur . . . . . . . . be. | 10 | 0,40 | $1\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 296. Neðri Glerá. Lögmannshl. kke. | 10 | 0,40 | $1\frac{1}{6}$ | 1 l. |
| 297. Efri Glerá[2]+. Lögmannshl. kke. | 20 | 0,80 | $2\frac{2}{6}$ | 1 l. |
| **7. Hrafnagils hreppur.** | | | | |
| 298. Kotá[1] . . . . . . . . . . be. | 20 | 0,50 | 1 | 1 l. |
| 299. Eyrarland (stóra)[2]. . . be. | 35 | 1,60 | 4 | 1 eig. og 3 l. |
| 300. Barð ⎫ . . . . . hjál. | 5 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 301. Hamarskot ⎭ | 5 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 302. Naust . . . . . . . . . . be. | 20 | 1,80 | 5 | 2 l. |
| 303. Hamrar[3] . Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 304. Kjarni[4] . . . . . . . . . ke. | 36 | 1,68 | 5 | 1 l. |
| 305. Hvammur . . . . . . . . be. | 40 | 1,100 | 4 | 1 l. |
| 306. Vaglir . . . Múkaþv. kl. e. | 12 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 307. Ytra Gil[5] . Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 308. Syðra Gil . Hrafnag. kke. | 12 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 309. Teigur . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |

með Lögmannshlíð, og segir 1802, að þar verði tekin í afrètt lömb frá 4 jörðum.

24) Jarðabækurnar nefna eina Glerá, A. M. 40 en jb. 1760 30 h. að dýrleika, og er dýrleika þessum, eptir hreppstjóra, skipt hèr niður á báðar Glerárnar, og sömuleiðis leigumála þeim, sem var á Glerá eptir jb. 1760, en 1802 eru jarðirnar báðar taldar saman 34 h. að dýrleika. 1) 1802 er hèr með talin eyðihjáleiga, Kotárgerði.

2) Jb. 1760 segir frá dýrleika og leigumála á hjáleigunni Barði sèr, en leigumáli sá, sem eptir þessari jarðabók að öðru leiti er á Eyrarlandi, stendur hèr við heimajörðina, en dýrleikanum, 40 h., er skipt niður á hana og hjáleiguna Hamarskot og þar í brugðið af frá hreppstjóra, að hann telur Hamarskot sèr 12 h. að dýrleika. 1802 eru eyðihjáleigurnar Miðhús, Gata, Veisa og Svíri taldar með heimajörðunni. A. M. einn telur alla torfuna 100 h. að dýrleika, og segir að verzlunarstaðurinn Akureyri sè hèr í landinu.

3) 1802 er eyðihjáleigan Hamragerði talin hèr með.

4) Leigumáli er hèr talinn saman á Kjarna (94 al. lsk. 2 kúg.), Litla Kjarna (47 al. lsk. 2 kúg.) og Steinagerði (47 al. lsk. 1 kúg.) eptir jb. 1760. 1802 er eyðihjáleigan Kjarnakot þar að auki talin með, svo og Staðarey, sem nefndarmenn stúngu uppá að leggja undir Kjarna (sjá 406), og segja þeir að þar fáist fóður handa 5 kúm, 24 ám og 8 lömbum. Rentuk. br. 10 Decembr. 1836 leyfir lækni í Norðlend. fjórðúngi að hafa jörð þessa til lènsjarðar í stað Arnarness (74).

5) Jb. 1760 telur Ytra Gil með Vöglum 30 h. að dýrleika, með 1 h. 60 al. lsk. 2 kúg, en hèr er dýrleiki talinn á hvorri jörðunni um sig eptir A. M., jarðatölu sýslumanns 1759 og hreppstjóra, og leigumálinn eptir jarðatölunni. 1802 er eyðihjáleigan Gilsel talin með Ytra Gili.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 310. Klúkur[6] †. . . . . . . be. | 8 | 0,20 | 2 | 1 l. |
| 311. Hjálmstaðir †. . . . . be. | 20 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 312. Reykhús[7] . Möðruf. spít. e. | 10 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 313. Kristnes[8] . . . . . . . be. | 50 | 1,60 | 1 | 1 l. |
| 314. Kroppur[9] . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 315. Grísará . . . Hrafnag. kke. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 316. Hrafnagil[10] ½ * . . benef. | 20 | 1,0 | . . | prestur |
| 317. Stokkahlaðir[11]. . . . . be. | 16 | 1,0 | 3 | 1 eig. |
| 318. Boln . . . . Hrafnag. kke. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 319. Hranastaðir. Hrafnag. kke. | 20 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 320. Merkigil . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 321. Víðigerði. . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | 3 | 1 l. |
| 322. Espihóll[12]. . . . . . . be. | 40 | 2,60 | 5 | 2 l. |
| 323. Litli Hóll[13]. Múkaþv. kl. e. | 12 | 1,40 | 4 | 1 l. |
| 324. Dvergstaðir . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 325. Finnastaðir . Grundar kke. | 40 | 1,60 | 4 | 2 l. |
| 326. Grund[14]. . . . . . . . be. | 45 | 3,60 | 6 | 2 l. |
| 327. Hólshús } . . . . . . . hjál. | 12 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 328. Miðhús } | 8 | 0,90 | 2 | 1 l. |
| 329. Hollsel } | 4 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 330. Holt } | 10 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 331. Möðrufell[15] . . . . spít. e. | 40 | 1,100 | 6½ | 1 l. |
| 332. Hraungerði } . . . . . hjál. | 10 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 333. Torfur } | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |

6) Hreppstjóri einn telur þessa jörð 10 h. að dýrleika.

7) A. M. segir jörð þessa part úr Kristnesi, og telur hana einn 20 h., en hreppstjóri einn 12 h. að dýrleika.

8) A. M. einn telur þessa jörð 64 h. að dýrleika.

9) 1802 er hér með talin eyðihjáleiga, Kroppshús.

10) Kon. úrsk. 19. Septembr. 1798 selur hálflenduna, sem var með Eyjafjarðar jörðum, prófasti Erlendi Jónssyni, vegna Hrafnagils kirkju. 1802 er eyðihjáleigan Nýlenda talin hér með.

11) A. M. einn segir jörð þessa 40 h. að dýrleika. Með henni er 1802 talin eyðihjáleiga, Teigsgerði.

12) 1802 er eyðihjáleigan Rófa talin með Espihól, sem A. M. einn, ásamt Víðigerði, telur 100 h. að dýrleika.

13) 1639 er jörð þessi talin 35 h. að dýrleika.

14) Jb. 1760 segir frá dýrleika og leigumála á öllum hjáleigunum, sem hér greinir, en A. M. einn telur alla torfuna 100 h. að dýrleika og segir, að hún eigi laxveiði í Eyjafjarðará og skóg á Fagrahjalla í Fnjóskadal, og telur hann þar að auki með Grund eyðihjáleiguna Grundarkot.

15) A. M. einn telur alla torfuna 100 h. að dýrleika, en hér segir jb. 1760 frá dýrleika og leigumála á heimajörð og hjáleigum. 1802 er eyðihjáleigan Grófargerði talin með Möðrufelli. Sjá um spítalann konúngsbr. 10. Mai 1651 og 12. Mai 1652 og tilskip. 27. Mai 1746.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | abuendur |
|---|---|---|---|---|
| 334. Gilsbakki[16] * . . . spít. e. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 8. Saurbæjar hreppur. | | | | |
| 335. Mikligarður[1] $\frac{7}{10}$ † . . be. | 50 | 3,0 | 12 | 1 eig. |
| 336. Samkomugerði † } . . hjál. | 35 | 1,0 | 2½ | 2 l. |
| 337. Miðgerði † } . . hjál. | 15 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 338. Ölvisgerði } . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 339. Yztagerði } . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 340. Hlíðarhagi † . . . . . be. | 20 | 0,100 | 4 | 2 l. |
| 341. Árgerði † . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 342. Hvassafell[2]. $\frac{2}{5}$ † be., $\frac{3}{5}$ Múkaþv. kl. e. . . . . . . . . . . | 50 | 1,80 | 5 | 1 eig. að $\frac{2}{5}$ j. og 1 l. |
| 343. Ytra Dalsgerði. . . . . be. | 22 | 1,0 | 1½ | 1 eig. að ½ j. |
| 344. Syðra Dalsgerði . . . . be. | 12 | 0,80 | 1½ | 2 l. |
| 345. Stóridalur (Djúpidalur)[3]. be. | 27 | 1,60 | 4 | 2 l. |
| 346. Litlidalur . . . . . . . be. | 20 | 0,60 | 2 | 1 eig. að 13 h. |
| 347. Kambfell. . . . . . . . . be. | 16 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 348. Strjúgsá. . . . Saurb. kke. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 349. Vellir[4] . . . . Saurb. kke. | 40 | 2,0 | 4 | 1 l. |
| 350. Háls . . . . . Saurb. kke. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 351. Saurbær[5] . . . . . . benef. | 60 | 2,60 | 7 | prestur |

16) Spítalinn keypti jörðu þessa, sem áður var með Eyjafjarðar jörðum, eptir afsalsbréfi konúngs 8. Septbr. 1798.

1) Jörð þessi er í jb. 1760 öll talin stóls eign og hjá A. M. 100 h. að dýrleika, með leigumála þeim (1760), sem hèr er talinn við heimajörðina, en eptir skýrslum þeim, sem til eru, um sölu Hóla stóls jarða, virðast þó aðeins $\frac{7}{10}$ í Miklagarði, Samkomugerði og Miðgerði vera selt sem stóls eign, ásamt með Miklagarðsnesi. Hreppstjóri, sem skiptir dýrleikanum niður einsog hèr greinir, kallar $\frac{2}{3}$ eignarinnar bænda eign og $\frac{1}{3}$ Miklagarðs kirkju eign, en segir Samkomugerði og Miðgerði skilin frá sameigninni við sölu Hóla stóls jarða, enda er stúngið uppá því af nefndarmönnum 1802, og segir þar, að afrètt sè hèr höfð til beitar frá heimajörð og hjáleigum, og að $\frac{7}{10}$ sè Hóla stóls eign, en $\frac{3}{10}$ kirkju eign.

2) Jb. 1760 telur hálfa jörðina eign klaustursins og 20 h. að dýrleika, en aðrar jarðabækur telja klausturpartinn $\frac{3}{5}$, og 30 h. að dýrleika, enda telur nú líka hreppstjóri jörðina alla 50 h.

3) Jb. 1760 telur dýrleika og leigumála á hverri jarðanna 343—345 um sig, en Dalsgerðin þó sem hjáleigur, en hreppstjóri telur nú á Stóradal 30, og á Syðra Dalsgerði 16 h. dýrleika. 1802 er eyðihjáleigan Mælifell talin með Stóradal.

4) 1802 er eyðihjáleigan Vallnakot talin hèr með.

5) A. M. segir frá dýrleika á staðnum og frá leigumála á hverri hjáleignanna um sig, og telur hann þar að auki með staðnum eyðihjáleiguna Keppsteig, en 1802 eru með honum taldar eyðihjáleigurnar Varmhagi (Varmhagagerði) og Ásgarður (sem A. M. báðar telur með Völlum), og enn fremur afrèttin Sneis. Hreppstjóri segir

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 352. Sandhólar } hjál. | . . | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 353. Melgerði } hjál. | . . | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 354. Rauðhús } hjál. | . . | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 355. Krýnastaðir . . Saurb. kke. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 356. Hleiðargarður[6] † . . . be. | 30 | 1,60 | 6 | 2 l. |
| 357. Nes . . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 3 l. |
| 258. Gilsá[7] . . . . . . . . . be. | 20 | 1,40 | 3 | 1 eig. og 1 l. |
| 359. Gullbrekka[8] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 eig. að $\frac{1}{2}$ j. |
| 360. Kolgrímstaðir . . . . . be. | 12 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 361. Skáldstaðir[9] . . . . . . be. | 18 | 1,0 | 3 | 1 eig. að $\frac{2}{3}$ j. |
| 362. Jórunnarstaðir[10] . . . be. | 20 | 1,0 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 363. Leyníngur[11] . . . . . . be. | 30 | 1,60 | 4 | 2 eig. að 17 h. |
| 364. Ytri Villíngadalur[12] . be. | 20 | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 365. Syðri Villíngadalur . . be. | 10 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 366. Torfufell[13] . . . . . . be. | 17 | 0,90 | 2 | 1 eig. að 12h. |
| 367. Hólsgerði . . . . . . hjál. | 7 | 0,30 | 2 | 1 l. |
| 368. Úlfsá[14] . . . . . . . . be. | 12 | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 369. Tjarnir[15] . . . . . . . be. | 25 | 1,40 | 4 | 1 eig. |
| 370. Haldórstaðir[16] . . . . be. | 12 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 371. Jökull . . . . . . . . . be. | 20 | 0,110 | 2 | 1 l. |
| 372. Vatnsendi[17] . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 2 | 1 eig. að $\frac{2}{3}$ j. |
| 373. Hólar[18] . . . . . . . . be. | 80 | 3,0 | 6 | 1 l. |

ábúandann á Rauðhúsum eiganda að $10\frac{2}{3}$ h., og verður eigi séð, hvernig á þessu stendur.

6) A. M. segir hèr líka frá leigumála. 1802 er eyðihjáleigan Hleiðargarðskot talin hèr með.

7) 1802 eru eyðihjáleigurnar Litla Gilsá og Steinagerði taldar hèr með. 8) A. M. einn telur jörð þessa 40 h. að dýrleika.

9) A. M. einn telur jörð þessa 30 h. að dýrleika.

10) þessa jörð 40 h. að dýrleika. 1802 er eyðihjáleiga, Nunnugerði, talin hèr með.

11) 1802 eru eyðihjáleigurnar Tjarnargerði og Klaufagerði taldar hèr með, svo og afrètt, er tekin verði í lömb frá tveim bæjum. A. M. einn telur jörð þessa 60 h. að dýrleika.

12) þessa jörð 10 h. að dýrleika.

13) Jb. 1760 telur dýrleika og leigumála bæði á heimajörð og hjáleigu, en A. M. einn telur alla jörðina 50 h. að dýrleika.

14) þessa jörð 10 h. að dýrleika. 1802 er með henni talin eyðihjáleiga, Magnúsartópt (Magnúsartóptir).

15) 1802 eru hèr með taldar eyðihjáleigur, Márstaðir og Stigagerði, svo og afrètt fyrir lömb frá 4 bæjum. A. M. einn telur jörðina 40 h. að dýrleika.

16) Þessa jörð 10 h. að dýrleika. 1802 er hèr með talin eyðihjáleiga Haldórstaðakot (Haldórstaðagerði).

17) 1802 er her með talin eyðihjáleiga, Vatnsendagerði.

18) A. M. einn telur jörð þessa alla 100 h. að dýrleika, en jb. 1760 telur dýrleika og leigumála á heimajörð og hjáleigu, hvorri um sig. Hreppstjóri einn telur heimajörðina 68 h. að dýrleika. 1802 eru

| | dýrl. | landsk. | kúg. | íbúendur |
|---|---|---|---|---|
| 374. Hólakot . . . . . . . . hjál. | 12 | 0,60 | 2 | 2 l. |
| 375. Arnarstaðir[19] . . . . . be. | 25 | 1,20 | 4 | 1 eig. að 5 h. |
| 376. Gerðar (Æsustaðagerði). be. | 16 | 0,90 | 2 | 1 l. |
| 377. Æsustaðir[20] . . . . . . be. | 40 | 2,0 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 378. Hrísar[21] . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 379. Núpufell[22] . . . . . . be. | 30 | 1,60 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 380. Seljahlíð . . . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 2½ | 1 l. |
| 381. Eyvindarstaðir[23] . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 eig. að 6 h. og 1 l. |
| 382. Draflastaðir . . . . . . be. | 16 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 383. þormóðstaðir[24] . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 384. þormóðstaðasel. . . . hjál. | . . | . - . . | . . | 1 l. |
| 385. Áuastaðir[25] . . . . . . be. | 10 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 386. Kerhóll[26] . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 387. Finnastaðir[27] . . . . . be. | 30 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 388. Björk[28] . . . Möðruv. kke. | 20 | 0,100 | . . | 1 l. |
| 389. Stekkjarflatir[29] . . . . be. | 20 | 0,100 | 2 | 2 l. |
| 390. Skriða[30] . . . . . . . . be. | 15 | 0,60 | 2 | 1 l. |

hjáleigurnar Hólastekkur (A. M. 60 al. lsk. 2 kúg.) og Kringla (A. M. 30 al. lsk.) taldar með heimajörðunni, en Geldingagerði (A. M. 40 al. lsk.) með Hólakoti.

19) 1802 er hér með talin afrétt fyrir lömb frá 2 jörðum. A. M. einn telur jörð þessa 50 h. að dýrleika.

20) 1802 er hér með talin afrétt fyrir lömb frá 4 bæjum. A. M. einn telur jörðina 80 h. að dýrleika.

21) 1802 er hér með talin eyðihjáleiga, Hrísakot (Hrísagerði).

22) 1802 segir hér frá eyðihjáleigum: Steinkoti (A. M. 30 al. lsk.), Gunnarshúsi og Sandgerði (A. M. Flatgerði) og telur A. M. einn jörðina, með þeim, 60 h. að dýrleika. 1635 (M. Ketils. Ill. bls. 393) var jörð þessi lögð til prentverksins, og hefir hún þá líklega verið annaðhvort stóls eða konúngs eign.

23) A. M. einn telur jörð þessa 50 h. að dýrleika.

24) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 12 h. að dýrleika, og segir hann og prestur einir frá hjáleigunni.

25) A. M. einir segir jörð þessa 12, og hreppstjóri einn 17 h. að dýrleika, en 1802 er með henni talin eyðijörðin Agnúastaðir, sem A. M. segir sé forn eyðijörð, er hafi legið í eyði yfir 60 ár, í Áuastaða landi, en heyri þó til Möðruvalla.

26) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 12 h., og segir A. M. að hún til forna hafi verið talin 30 h. að dýrleika.

27) Hér er dýrleiki hafður eptir A. M.

28) A. M. einn telur jörð þessa 30 h. að dýrleika.

29) 1802 er hér með talin eyðihjáleiga, Sofíugerði (A. M. 50 al. lsk. 1 kúg.), sem áður er talin með Helgastöðum. Í jarðabókunum er jörð þessi talin bænda eign, en hreppstjóri segir hana nú Miklagarðs kirkju eign.

30) Hreppstjóri einn telur jörð þessa aðeins 10 h. að dýrleika. A. M. segir hana part úr Möðruvöllum.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 391. Möðruvellir[31] . . . . . be. | 80 | 2,0 | 2 | 1 eig. og 2 l. |
| 392. Fjósakot . . . . . . . . be. | 12 | 0,50 | 1 | 1 l. |
| 393. Kálfagerði . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 394. Helgastaðir[32] . . . . . be. | 10 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 395. Guðrúnarstaðir. Möðruv. kke. | 40 | 1,60 | . . | 1 l. |
| 396. Öxnafellskot . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 397. Öxnafell[33]. . . . . . . be. | 20 | 1,60 | 3 | 1 eig. |
| **9. Aungulstaða hreppur.** | | | | |
| 398. Rúgstaðir[1] . . . . . . . be. | 15 | 1,0 | $2\frac{1}{2}$ | 2 l. |
| 399. Sámstaðir . . . . . . . be. | 5 | 0,20 | $1\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 400. Bringa . . . . . . . . . be. | 20 | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 401. Stóri Hamar[2]. Múkaþv. kl. e. | 22 | 1,0 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 402. Há-Hamar . . . . . . hjál. | . . | 0,15 | $\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 403. Kambur . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 404. Litli Hamar[3]. Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 405. Refkelstaðir. Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 406. Múkaþverár klaustur[4] . . . | . . | . . . | . . | 3 l. |
| 407. Grýta . . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,20 | 2 | 1 l. |

31) Dýrleiki og leigumáli á jörðunum 391—393 er hér hafður eptir jb. 1760, sem þar að auki telur Sveinshus (15 h. að dýrleika, 60 al. lsk. 2 kúg.) sem hjáleigu frá Möðruvöllum, en nú telur hreppstjóri Möðruvelli sér 53, og Kálfagerði 15 h að dýrleika. A. M. aptur á móti telur Möðruvelli alls 100 h., og eru hjáleigurnar (3) fyrst 1802 taldar sem jarðir sér. A. M. getur um, að Möðruvellir eigi afrétt í Sölvadalstúngum, og segir 1802, að þar sé tekin lömb til gaungu frá 10 bæjum.

32) A. M., sem hér segir 20 h. dýrleika, telur jörð þessa part úr Möðruvöllum.

33) A. M. einn, sem segir Öxnafellskot hjáleigu frá Öxnafelli, telur Öxnafell 40 h. að dýrleika, og með því enn fremur eyðihjáleiguna Víðirnes, sem 1802 er talin með Öxnafellskoti.

1) A. M. einn telur Rúgstaði með Sámstöðum 40 h. að dýrleika. Nú telur hreppstjóri Rúgstaði 16, og Sámstaði 4 h.

2) Hreppstjóri telur 4 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, en hjá A. M. er Stóri Hamar allur talinn 60 h. að dýrleika

3) 1802 er hér með talinn þriðjúngur af Stóra-Hamarsnesi.

4) Hér segir hvergi frá dýrleika ne leigumála, en 1802 er jörðin metin til 19 h. 22 al. dýrleika, og segir þá, að undir hana liggi afréttarland, hálfur Bleiksmýrardalur (Hrafnagils kirkja eigi hann hálfan), og sé þángað teknir sauðir og lömb til sumargaungu, fyrir 3 rd., svo og önnur afrétt (almenningur) og brúki hana allir klausturjarða landsetar. Þá eru og taldar með jörðunni eyðihjáleigur: Borgarhóll, Maríugerði og Ytri og Fremri Glúmstaðir. Þar segir enn fremur, að slægjur heyri undir jörðina miklar, í Staðarey í Eyjafjarðará, og sé þar einnig heyjað frá jörðum klaustursins í Hrafnagils hreppi, að eyjan liggi næst Kjarna (304) og verði ekki, vegna fjarlægðar, notuð frá Þverá, en slægjurnar sé optast leigðar einhverjum Eyjafjarðar verzlunarmanni.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 408. Sigtún . . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 409. Uppsalir[5] . Múkaþv. kl. e. | 32 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 410. Klauf . . . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 411. Syðra (Innra) Laugaland. Múkaþv. kl. e. . . . . . | 40 | 1,80 | 4 | 2 l. |
| 412. Ytra Laugaland[6]. Múkaþv. kl. e. . . . . . . . . . | 20 | 0,100 | 3 | 1 l. |
| 413. Syðri (Innri) Tjarnir[7]. Múkaþv. kl. e. . . . . . . . | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 414. Hóll } . . hjál. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 415. Tjarnarkot syðra } . . hjál. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 416. Ytri Tjarnir[8]. Múkaþv. kl. e. | 30 | 1,20 | 3 | 2 l. |
| 417. Tjarnarkot (ytra). . . hjál. | 10 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 418. Björk. . . . . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 419. Aungulstaðir[9] . . . . . be. | 40 | 1,80 | 4 | 2 l. |
| 420. Jódísarstaðir[10]. . . . . be. | 30 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 421. Þverá * . . . . . . . . be. | 30 | 1,0 | 1½ | 1 l. |
| 422. Helgársel[11]. Múkaþv. kl. e. | . . | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 423. Kristnes[12] . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 424. Þröm . . . . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 425. Garðsá . . . . . . . . . be. | 40 | 1,100 | 4 | 2 eig. að j. |
| 426. Syðrihóll . . . . . . . be. | 20 | 0,80 | 2 | 2 l. |
| 427. Ytri Hóll . . . . . . . be. | 30 | 0,60 | 2½ | 2 l. |
| 428. Skálpagerði. Múkaþv. kl. e. | 10 | 0,40 | 1 | 2 l. |
| 429. Gröf[13] . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 0,110 | 1½ | 1 l. |
| 430. Svertíngstaðir . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |

5) Jb. 1760 segir hér frá leigumála á hjáleigunni, og telur hreppstjóri 8 h. af dýrleikanum þar. A. M. aptur á móti telur Uppsali sér 30, og hjáleiguna sér 8 h. að dýrleika.

6) A. M. einn telur jörð þessa 40 h. að dýrleika.

7) Jb. 1760 telur Syðri Tjarnir allar 40 h. að dýrleika og segir frá leigumála á heimajörð og Hóli sér, en A. M., sem segir frá leigumála á Tjarnarkoti, skiptir dýrleikanum niður, einsog hér greinir.

8) Á Ytri Tjörnum er dýrleikinn eins, 40 h., eptir jb. 1760, sem líka segir hér frá leigumála á heimajörð og hjáleigu, en A. M. skiptir dýrleikanum niður.

9) A. M. einn telur jörð þessa 60 h. að dýrleika.

10) 1802 er eyðihjáleigan Höskuldstaðir talin hér með.

11) Hér segir hvergi frá dýrleika, en jörðin var þángað til 1802 talin með Múkaþverár klaustri (406), en þá skilin frá Múkaþverár landi, vegna þess fjall mikið er í millum.

12) Jarðar þessarar er eigi getið í jarðabókunum, og kallar prestur hana nýbýli.

13) Jb. 1760 telur Gröf og Skálpagerði saman 30 h. að dýrleika, en segir frá leigumála á hvorri jörðunni um sig; A. M. aptur á móti skiptir dýrleikanum í sundur.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 431. Brekka . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 432. þórustaðir . . . . . . . be. | 30 | 1,60 | 3 | 1 l. |
| 433. Kaupángur[14] . . . . . be. | 60 | 3,0 | . . | 3 l. |
| 434. Kaupángs-sel . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 435. Krókstaðir . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 436. Fífilgerði. . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 437. Leifstaðir . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 2 l. |
| 438. Litla Eyrarland . . . . be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 eig. |
| 10. Grímsey*. | | | | |
| 439. Básar[1] . . . Múkaþv. kl. e. | 20 | 0,100 | 2 | 2 l. |
| 440. Neðri Sandvík[2]. Múkaþv. kl. e. | 15 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 441. Efri Sandvík[3]. Möðruv. kl. e. | $13\frac{1}{3}$ | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 442. Eyðar[4] . . . Möðruv. kl. e. | 12 | 0,100 | 1 | 1 l. |
| 443. Sveinstaðir[5]. Möðruv. kl. e. | 10 | 0,60 | $\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 444. Miðgarður[6] . . . . . benef | . . | . . . | . . | prestur |
| 445. Sveinagarðar[7]. Möðruv. kl. e. | $17\frac{1}{6}$ | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 446. Borgir[8] . . Möðruv. kl. e. | $17\frac{1}{6}$ | . . . | 1 | 2 l. |
| 447. Ytri Grenivík[9]. Möðruv. kl. e. | 14 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 448. Syðri Grenivík[10]. Múkaþv. kl. e. | 20 | 0,100 | 2 | 1 l. |

14) Prestur og hreppstjóri einir nefna Kaupángs-sel, sem máske er komið í staðinn fyrir annaðhvort Hafurstaði eða Finnskofa, sem 1802 eru taldar sem eyðihjáleigur hèr með. 1802 segir, að hèr sè eingjar og hagar meiri enn bændur geti komizt yfir að nota, og sè þeir leigðir árlega fyrir 3 rd. A. M. segir, að jörðin eigi laxveiði í Eyjafjarðará, skipstöðu í Varðgjárdal og selstöðu í Garðarsdal.

*) 1805 segir, að heyskapur gángi af sèr á jörðum öllum í Grímsey, því mosi vaxi allt af meir og meir, líklega vegna áburðarleysis, af því ekkert býli hafi svo mikið, að kýrfóðri nemi; fuglveiði minki einnig, einkum við 439, 441, 443, 444 og 446, vegna þess bjargið hrynji smámsaman. Útræði sè þar árið um kring, og sè atvinnuvegir helztir: fiskveiði (riklingur), hákalla, sela og fugla, fiður- og fjaðratekja og skarfakál. 1) A. M. og hreppstjóri telja jörð þessa 17 h. að dýrleika.

2) Hreppstjóri og A. M. telja jörð þessa 14 h. að dýrleika, og er leigumáli á henni hafður eptir A. M.

3) Þessa jörð telja þeir líka 14 h. að dýrleika.

4) Hèr er leigumáli hafður eptir A. M., sem einn telur jörðina 17 h., en hreppstjóri einn telur hana 16 h. að dýrleika.

5) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 14 h. að dýrleika, og er eigumáli á henni hafður eptir A. M.

6) Hèr segir hvergi frá dýrleika nè leigumála, en A. M. segir hèr sè 4 kirkju kúgildi, og 1805 segir, að hèr fáist 20 ℔ fiðurs.

7) A. M., sem hèr segir frá leigumála, og hreppstjóri, segja jörð þessa 10 h að dýrleika.

8) Þessa jörð 14 h., og telur A. M. hèr 80 al. lsk. 1 kúg. 1805 segir, að hèr fáist 1½ ℔ æðardúns og 20 ℔ fiðurs.

9) Hèr er dýrleiki og leigumáli hafður eptir A. M., en jb. 1760 segir hèr 42½ h., en jarðatala sýslumanns 1759, 20 h. dýrleika.

10) Hreppstjóri einn telur jörð þessa 15, en A. M., með eyðihjáleigu Aratópt, 12 h. að dýrleika.

Frá leigumála jarðanna skýra hreppstjórar sýslunnar þannig: í *Hvanneyrar hreppi* (þar var fólk talið við árslokin 1842 189 manns) venjulegast 1 kúg. og í lsk. 6 sauðir veturgamlir, eða þeirra andvirði eptir verðlagsskránni, með 10 jarðar hundruðum hverjum; í *Þóroddstaða hreppi* (215 m.) 1 kúg. með 10 hundruðum og 6 al. lsk. af hundraði hverju; í *Arnarnes hreppi* (178 m.) eru 20 hundraða jarðir almennast leigðar með 2—2½ kúg. og 1 h. lsk., en þó eru dæmi' til, að 8 hundraða kot leigist hèr með 2½ kúg. og 30 hundraða jarðir með 2 kúg.; í *Svarfaðardals hreppi* (678 m.) sömuleiðis, og er hèr hvergi hærri lsk. enn 6 al. af hundraði hverju, og er það haldið illa þolanda, að hafa fleira enn 1 kúg. á hverjum 10 hundruðum. Hèr byggjast einstöku bænda eignir æfilángt, en flestar, »á meðan um semur» eða »á meðan leiguliði stendur í skilum», svo og sumar »á meðan hann vill»; í *Skriðu hreppi* (514 m.) er sömuleiðis sagt frá leigumála, og eru hèr jarðir allar, að skýrslu hreppstjóra, bygðar um eitt ár; í *Glæsibæjar hreppi* (451 m.) er 1 kúg. og 60 al. lsk. almennast á hverjum 10 jarðar hundruðum, þó taka sumir landsdrottnar minna og sumir meira eptirgjald, flestir byggja þeir jarðirnar árlángt, sumir um lengri tiltekinn tíma, og einstöku menn æfilángt; í *Hrafnagils hreppi* (489 m.) fylgja jafnaðarlega 2 kúg. og 1 h. landskuldargjald 20 hundraða jörðu, og telur hreppstjóri 85 kúg. á 715 jarðar-hundruðum hreppsins (sem hann telur), svo skýrir hann og frá, að landsetar, sem standa í skilum, sjaldnast þurfi að missa jarðnæði, þó eigi sè þeim bygð jörðin æfilángt, eins og við gengst á konúngs og opinberra stiptana eignum; í *Saurbæjar hreppi* (580 m.) er 1 h. lsk. almennast áskilin af 20 hundraða meðal-jörð, og víðast í veturgömlum sauðum, en 3 kúg. fylgja jafnaðarlegast þvílíkri jörðu, engir eru hèr leiguliðar æfilángt, nè um tiltekinn ára fjölda, heldur hafa þeir jarðirnar til byggíngar »eptir ýmislegu ára móti»; í *Aungulstaða hreppi* (380 m.) er 1 h. lsk. eptir 20 hundraða jarðir, og að tiltölu eptir þær, sem eru dýrari, sumstaðar áskilin með 12 sauðum veturgömlum, en aptur annarstaðar greidd í ullu, tólg og eingirnissokkum, og fylgir almennast 1 kúg. 10 hundruðum hverjum, þó sumstaðar 1½ kúg., og eru flestar bænda eignir leigðar um tiltekinn ára tíma, en þeir, sem eru æfisfestubændur, greiða þá optast nær festupenínga, hinum þar á móti er bygt »svo lengi sem um semur», »meðan eigandi ekki þarf sjálfur á jörðunni að halda», »þángað til eigandi segir lausu», eða um tiltekinn ára tíma, eitt eða fleiri, og í *Grímseyjar hreppi* (60 m.) er 5—6 al. lsk. af jarðar hundraði hverju, en ekkert kúgildi á Grímsey.

Á jörðum þeim, meiri og minni, sem að framan eru taldar,

448, teljast, eptir skýrslum hreppstjóranna 1843, 566 búendur, og af þeim 62 sjálfseignar bændur, en 1802 (1805 í Grímsey) voru jarðir í sýslunni samtals 428, og á þeim 485 bændur, og meðal bænda þessara 34, sem að nokkru eða öllu bjuggu á sjálfs eign.

Eptir skýrslum prestanna við árslokin 1812 eru sýslubúar 4,034 manns.

Í sýslu þessari eru 15 prestaköll:

1. *Hvanneyri*, þ. e. bæirnir 1—21. Brauðið er metið 12 rd. Prestsetrið er jörð í meðallagi til búnytja á sumrum, eingi slètt og all-heygott, útbeit á vetrum og sumarhagar í betra meðallagi, grasatekja nokkur og silúngsveiði, en selveiði hefir lagzt frá, vegna skota og umferða frá verzlunarstaðnum. Trjáreki er hèr nógur til viðurhalds gripahúsum. Útræði er frá staðnum til fiskjar og hákalls, hægur og stuttur flutníngur í og úr verzlunarstað. Tún eru stór, en ógrasgefin, og þýfð meira enn að helmíngi og víða grýtt, eingi lítið, snöggt og grýtt. Tún og eingi liggja undir skemdum af fjallskriðum, túnið líka af sjáfarbroti. Torfrista er engin, mótak eigi heldur. Jörðin liggur við átroðníngi ferðamanna, og er fólks- og hestafrek. Prestur telur leigumála á jörðunni 1 h. lsk. 3 kúg. Kirkjujörðin Leyníngur er bygð með 1 h. lsk. og 1 kúg., en kot það, sem 1830 var bygt í staðarins landi, með 20 al. lsk., þau árin sem þar verður heyjað fyrir 6 ær. Fasteignar tíund 121 f., lausafjár tíund 62 f., heytollar 24 og dagsverk 21. Sóknarmenn: 189.

2. *Kvíabekkur í Olafsfirði*, þ. e. bæirnir 22—49. Brauðið er metið 30 rd. Staðurinn fóðrar 3½ kú á töðu, 40 ær og 16 lömb, sem opt verður að halda á gjöf frá veturnóttum til fardaga. Úteingi er grasgefið, en liggur undir grjót- og leirrennsli úr fjallshlíð. Dalur sá, sem staðnum fylgir, er notaður til beitar á sumrum fyrir búsmala, og er geldfè rekið þángað frá næstu bæjum; þar má og afla útheys nokkurs, þó það sè torsókt, yfir lángan og örðugan veg. Reka kirkjunnar, ⅔ hvals og viðar fyrir Hornbrekku og Brimness landi og ⅓ viðar fyrir Ósbrekku landi, má meta á 2 rbd. árlega. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Hríngverskot (hjáleiga frá Hríngveri, sem lagðist í eyði 1740 af snjóflóði) með 80 al. lsk. 2 kúg., Þverá sömuleiðis, Bakki sömuleiðis og Bakkavellir með 30 al. lsk. 1 kúg. Staðnum sjálfum fylgja 3 kúg. Fasteignar tíund (sem hefir verið goldin nokkur um liðin ár, eins af þeim fyrrverandi stólsjörðum, sem af bænda eignum) 248 f., lausafjár tíund, að 5 ára meðaltali, 38 f., heytollar 35 og dagsverk 23. Sóknarmenn: 215.

3. *Stærri-Árskógur*, þ. e. bæirnir 50—67 og 75—78.

Brauðið er metið 10 rd. 1 mk. 4 sk. Um hlynnindi staðarins o. s. frv. er vísað til máldaganna. Hjáleigan Hrafnagil er leigð með 1 kúg. og 6 sauðum veturgömlum í lsk. Fasteignar tíund 220 f., lausafjár tíund 84 f., heytollar 25 og dagsverk 16. Sóknarmenn: 213.

4. *Upsir*, þ. e. bæirnir 101—114. Brauðið er metið 8 rd. Staðurinn má heita hafa gengið svo af sèr af snjóflóðum og skriðuföllum, að kostir hans, land eða heyskapur, nú eigi verður metinn meira enn að þriðjúngi við það sem áður var. Torfrista er hèr engin. Upsateigur er nú orðinn að litlu sem engu liði til slægna, og upprekstur geldfjár í Sauðárkots- eða Ólafsfjarðarmúla sömuleiðis, vegna skriðufalla. Hjáleigurnar eru, hver um sig, bygðar með 1 kúg. 30 al. lsk. og 1 dagsláttu (en prestur telur þær eigi nema 3, og nafngreinir hann enga þeirra 1839). Fasteignar tíund 12 f., lausafjár tíund, að 5 ára meðaltali, 32 f., heytollar 12 og dagsverk 7. Sóknarmenn: 119.

5. *Möðruvalla klaustur*, þ. e. bæirnir 68—74, 79—99, 182—190, 250, 253—258 og 269—270. Brauðið er metið 27 rd. 4 mk. Fasteignar tíund 489 f. Af klausturgózinu greiðast presti 42 fjórð. smjörs, 70 ꝉ tólgar, 10 ꝉ ullar, 170 pör eingirnissokka og 2 h. í peníngum eptir meðalverði verðlagsskrárinnar. Lausafjár tíund 286 f., heytollar 56 og dagsverk 21, allt að meðaltali í 5 ár. Offur og aukaverk eru hèr talin, að 5 ára meðaltali, 75 rbd.* Landskuldar- og leignagjald prestsins eptir ábýlisjörðu hans hefir að undanförnu verið 6 fjórð. smjörs, 100 ꝉ tólgar og 25 pör eingirnissokka, en útsvar till uppgjafa presta og presta ekkna 3 rbd. Sóknarmenn: 412.

6. *Tjörn í Svarfaðardal;* og eru í Tjarnar sókn bæirnir 115—129, en í Urða sókn 130—153. Brauðið er metið 29 rd. 2 mk. 6 sk. Presturinn heldur, að Tjörn öll mundi byggjast með 2 h. eptirgjaldi, þó er jörðin svo beitilandslítil, að þessi ókostur, ef til vill, getur ollað ábúanda eymd og volæði, því kýrnar verða að gánga í einginu, og hross verða eigi höfð fleiri enn 4, ær 40 og kýr 5; en eingið er talinn bezti kostur jarðarinnar. Mánaðarbeit sú, sem staðurinn á í Holtsdal og hrísrif hans á Karlsárdal, er hvorttveggja orðið að litlu liði. Tjarnarkot er bygt með 1 kúg. 50 al. í lsk. og Íngvarir $1\frac{1}{2}$ kúg. 60 al. lsk., en $2\frac{1}{2}$ kúg. er heima á staðnum. Af Urða

*) Eptir kon. úrsk. 5. Apríl 1837 fèll djákna-matan (4 h. á landsvísu, eða eptir verðlagsskránni) til prestsins, og er hún nú líklega innifalin í tekjum þeim, sem prestur telur af klaustrinu; en hann átti líka að fá leigu eptir 379 rbd., samansparaða djákna peninga, sem hann eigi minnist á.

kirkju eign kveðst prestur fá í mötu 2 h. Fasteignar tíund 222 al., lausafjár tíund 75½ al., heytollar 38 og dagsverk 12. Sóknamenn: 352.

7. *Vellir í Svarfaðardal*, þ. e. bæirnir 100 og 151—181. Brauðið er metið 37 rd. 5 sk. Prestsetrið Tjörn er landkreppu-jörð einhver en mesta, hefir tún stór, köllnð 30 dagsláttur, en ógrasgefin og illa lögnð, sem fóðra í meðalári 6 kýr og 2 kálfa. Eingjareiturinn heima við liggur við óverjandi ágángi, og sömuleiðis eingjaítakið á Sökkubökkum, en Trjónnbakki má teljast fótnrinn undir heyskapnum utan túns, og má á honum fóðra 60 ær, 20 lömb og 7 hross. Beithagi er heima við eigi annar enn brún ein neðantil í fjallinu, og afréttarkorn kirkjunnar í Skíðadal gengur árlega af sèr af skriðum og snjóflóðum, og má meta hagræði af lambatollum og grasatekju þar á 6 rbd. árlega. Af rekaítaki kirkjunnar í þorgeirsfirði í þíngeyjar sýslu veit nú enginn að segja, yrðu heldur eigi höfð not, sökum fjarlægðar, og rekaítaki fyrir Gunnólfs- (eða Ytri)- ár landi í Ólafsfirði er algjörlega móti mælt. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Kóngstaðir með 1 kúg. 30 al. lsk., Hverhóll 1½ kúg. 40 al. lsk., Krosshóll 2 kúg. 60 al. lsk., Sveinstaðir 1½ kúg. 50 al. lsk., Gljúfrárkot 1 kúg. 20 al. lsk., Syðra Hvarf 3 kúg. 60 al. lsk., Brautarholt með Gröf 3 kúg. 40 al. lsk., Uppsalir 2 kúg. 50 al. lsk., Hánefstaðir 2 kúg. 40 al. lsk., Birnunes (65) 1½ kúg. 30 al. lsk. og Selá (64) með 2 kúg. og 30 al. lsk., og eru af Krosshóli að auki greiddar 2 dagsláttur, en af þeim 6 seinast nefndu kirkjujörðum 3 daga sláttur frá hverri um sig. Heima á staðnum eru 2½ kúg. Nokkrar jarða þessara eru undirorpnar skriðum, og í Selár landi eignar Árskógar kirkja sèr ítök mikil. Fasteignar tíund 258 f., lausafjár tíund 81 f., heytollar 31½ og dagsverk 16, allt að meðaltali. Prestur telur brauðinu til útgifta 2 rbd. 60 sk. »um næstliðið 5 ára bil». Sóknarmenn: 207.

8. *Myrká*, þ. e. bæirnir 193—215. Brauðið er metið 13 rd. 3 mk. 4 sk. Prestur telur 5 ásauðar kúgildi með staðnum. Skógarpartur staðarins í Miðhálsstaða landi í Öxnadal er gjörsamlega upprættur, og eins viðarrifið í Búðarnes landi, en í dal nokkrum, mílu vegar að heiman, er höfð afrétt frá staðnum og 5 bæjum öðrum, á mótsvið klausturjörðina Flögu, og er þar á sumrum sæmilegur beithagi fyrir hross og nautpening, grasatekja nokkur og hrísrif lítið eitt til kola og fjalldrapi, og hefir þar stundum verið haft í seli frá staðnum. Jörðin er landlètt og landþraung, meðfram vegna grjót- og leirárennslis úr fjallinu; hún gefur af sèr gilda 120 töðuhesta, auk landskika, sem er nýtekinn upp til ræktar, svo að halda má 5 kýr og 1 naut. Eingið er mikið að víðáttu, en snöggt,

og fást af því 300 hestar, og má þar á halda 80 ám, 50 sauðum og 40 lömbum, og er þar að auki lèð eingi, sem gefur af sèr 90 hesta, og er 1 f. goldinn eptir hest hvern. Hjáleigan Stóra Gerði er bygð með 1 kúg. 50 al. lsk. Fasteignar tíund 200 f., lausafjár tíund, að meðaltali, 116 f. (báðar tíundir greiðast í tólg og sokkum, »samkvæmt kapitulstaxta meðalalin»), heytollar 24 og dagsverk (sem borgast í heyvinnu, eða með 7 f., eptir reglugjörð 1782) 8. Sóknarmenn: 194.

9. *Bægisá;* og eru í Bægisár sókn bæirnir 191—192, 237—238 og 259—268, en í Bakka sókn 216—236. Brauðið er metið 30 rd. Prestsetrið, Ytri Bægisá, sem prestur telur 30 h. að dýrleika, hefir stórt og mikið tún, sem þó eigi fóðrar nema 5 kýr, sökum vanræktar; hèr eru aðeins mýrar til slægna utan túns, optast nær snöggar. Fyrir útbeit tekur strax við snjókomu á vetrum. Skógarpartur staðarins hinumegin Öxnadalsár er gjöreyddur, og verður aðeins notaður til beitar, en við því amast aðrir. Kirkjan á lítið afrèttarland í Öxnadalsheiði. Kirkjujörðin Fagranes er bygð með 2 kúg. 80 al. lsk. Frá Bakka kirkju gjaldast *presti 12 fjórð.* smjörs. Fasteignar tíund 368 f., lausafjár tíund 167 f., heytollar 40 og dagsverk 11. Sóknamenn: 325.

10. *Glæsibær;* og eru í Lögmannshlíðar sókn bæirnir 240—212 og 278—297, í Glæsibæjar sókn 239, 243—249, 251—252 og 271—277, en í Svalbarðs sókn í Suður-þíngeyjar sýslu bæirnir 3—19 þar. Brauðið er metið 26 rd. 5 mk. 3 sk. Glæsibær hefir jafnan verið kölluð mögur bújörð. Túnið fóðrar 3 kýr, eingjar eru lítilfjörlegar, útbeit lèleg, og við sjáfarsíðuna rekalaust. Jörðunni fylgja 36 ær. Fasteignar tíund (»úr öllum 3 sóknum til samans») 474 f. Af annexíukirkjunum, hvorri um sig, fær prestur 12 fjórð. smjörs. Lausafjár tíund (líklega af öllum 3 sóknum) 178 f., heytollar (líklega eins) 67 og dagsverk (líklega eins) 36. Prestur verður að halda við bát til flutníngs yfir um Eyjafjörð til annarar annexíukirkjunnar, á Svalbarði, þriðja hvern sunnudag. Sóknamenn: *a)* í Eyjafjarðar sýslu: 299 og *b)* í Svalbarðs sókn í Suður-þíngeyjar sýslu: 138.

11. *Hrafnagil;* og eru í Hrafnagils sókn bæirnir 298—322, í Múkaþverár sókn 401—422 og í Kaupángs sókn 423—438, og þar að auki bæirnir 1—2 í Suður-þíngeyjar sýslu. Brauðið er metið 47 rd. 3 mk. 6 sk. Prestsetrið Hrafnagil fóðrar á töðu í grasárum góðum 6 kýr, en túnið er brygðult, vegna harðlendis, ef eigi er vel borið á og veitt á það vatni. Eingjar eru mjög litlar, og gefa af sèr fóður aðeins fyrir 80 ær og 1 eldishest. Torfristu verður að hafa í eingi eyðihjáleigunnar Nýlendis, til stór-skaða fyrir heyskapinn. Staðnum fylgja 10 kúg., og er 1 af þeim heima. Ítök staðarins eru: Bleiks-

mýrardalur, sem er bygður bónda fyrir 8 rbd.; eingjateigarnir á Múkaþverárbökkum, Geingja og Kárateigur, eru gengnir undan brauðinu til klaustursins; mótak i klausturjarðarinnar Sigtúna landi verður sjaldnast notað, sökum vegalengdar, en Pèturskógur í Laufásskarði, sem fèkkst í skiptum fyrir 20 hundraða jörðina Noll, sem nú liggur undir Lauláss stað, er fyrir laungu upprættur, svo að menn naumast vita, hvar skógurinn hefir verið. Ókostir eru helztir við staðinn, auk skorts á torfristu: landbrot, leir- og grjótárennsli á eingjarnar og enda líka á túnið. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Syðragil með 72 al. lsk. 2 kúg., Grísará 1 h. lsk. 2 kúg., Botn 60 al. lsk. 2 kúg., Hranastaðir 100 al. lsk. 2 kúg., og Kaðalstaðir i Suður-þíngeyjar sýslu (10) með 40 al. lsk. 1 kúg. »Dagslátta borgast af jörðunum í lsk. með 20 f. hver». Af Múkaþverár kirkju eign fær presturinn 30 fjórð. smjörs og 150 pör eingirnissokka, eða þá 5 h. á landsvísu eptir verðlagsskránni, og af Kaupángs kirkju eign 5 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 747 f. Lausafjár tíund 404½ f., heytollar 81, dagsverk 18, og offur 65⅓ rbd., allt að 5 ára meðaltali, og eru þar að auki taldir hèrum 27 rbd. fyrir aukaverk. Af brauðinu eru uppgjafa prestum og presta ekkjum lagðir 3 rbd. Sóknamenn: 728.

12. *Grundar þing;* og eru í Grundar sókn bæirnir 323—334 og 398—400, en í Möðruvalla sókn 377—397. Brauðið er metið 28 rd. Prestmatan af Möðruvalla kirkju, og eins af Grundar kirkju, segir prestur eigi að vera 2 h. af hvorri um sig, en eptir samkomulagi við kirkna eigendur lætur hann sèr nægja, að taka við »14⅔ sauðum» (veturgömlum, sem hann metur á 1 h. 24 al.) af Möðruvalla kirkju, en af Grundar kirkju 1 h. 6 al. Fasteignar- og lausafjár-tíund telur hann saman 560 f., heytolla, eptir 10 ára meðaltali, 41 og dagsverk, að meðaltali í 8 ár, 8, og greiðast gjöld þessi í smjöri eða tólg. Af spítalanum fær hann 4 rbd. og til uppbótar brauðinu 4 rbd. Sóknamenn: 332.

13. *Miklagarðs þing;* og eru í Miklagarðs sókn bæirnir 335—347, en í Hóla sókn 361—376. Brauðið er metið 20 rd. Prestur, sem (1839) býr á eign sjálfs sín, Miklagarði, fær af Hóla kirkju eign 6 fjórð. smjörs. Fasteignar tíund 307 f. Lausafjár tíund 207⅓ f., heytollar 40 og dagsverk 10, allt að 5 ára meðaltali. Brauðinu eru árlega veittir 4 rbd. til uppbótar. Við sölu Hóla stóls jarða og kúgilda misti presturinn 12 fjórð. smjör-leigur árlega, eptir kirkjukúgildin á Miklagarði, og áður var hann búinn að missa leigur eptir 4⅓ kirkjukúg. á Stóradal, en leigurnar eptir Miklagarðs kirkjukúgildin fær hann nú greiddar úr jarðabókarsjóðnum, eptir verðlagsskránni, með peníngum. Sóknamenn: 276.

14. *Saurbær í Eyjafirði*, þ. e. bæirnir 348—360. Brauðið er metið 53 rd. 5 mk. Prestsetrið Saurbær sjálft framfærir 8 kýr, 80 ær, 60 sauði, 30 lömb og 10 hross. Í bezta grasári hefir túnið gefið af sèr 12 kúa fóður. Eingið er mikið að víðáttu, en snöggt, þýft og harðslægt, beitarland fyrir búsmala í vesælla lagi, mest vegna landkreppu, en allgott er til haga á vetrum, og má telja jörðina yfirhöfuð góða bújörð. Í landi hefir hèr legið fjárdauði, að manna dómi mest vegna sandroks; en þegar sauðfè hefir verið tekið inn á gott heyfóður og því vatnað daglega, en einkum þá fóðrið eða vatnið hefir verið saltað, hefir snögg-tekið fyrir fjárdauðann. Að afrèttum staðarins í Sneis og á Djúpadal hálfum eru mjög lítil not, því Stóridalur og Dalsgerðin eiga þar líka og brúka selstöðu, svo að þar eigi er annara afrèttar-peníngi vært. Af skógarítaki staðarins í Ceciliu-höfða í Leyníngs skógi sjást nú litlar sem engar menjar, en önnur skógarítök eru fyrir manna minni liðin undir lok. Ásauðar-kúgildi eru 3 á staðnum, en á hjáleigunni Sandhólum eru 2½ kúg. og eptirgjald allt þaðan 80 al., á Melgerði 2 kúg. og eptirgjald allt 80 al., á Rauðhúsum 2 kúg. og eptirgjald allt 100 al., á kirkjujörðunni Strjúgsá 1½ kúg. og eptirgjald allt 80 al., á Völlum 3 kúg. og eptirgjald allt 150 al., á Hálsi sömuleiðis, og á Krynastöðum 3 kúg. og eptirgjald allt 130 al. Fasteignar tíund 121 f. Lausafjár tíund 78 f., heytollar 14 og dagsverk 7, allt að meðaltali í 5 ár. Uppgjafa prestum eru lagðir 2 rbd. 6 sk. af brauðinu. Eptir gamalli venju og vísitatsíum (2 Júní 1774) á 1 vætt smjörs að fylgja brauðinu. Sóknarmenn: 129.

15. *Grímsey*, þ. e. bæirnir 439—448. Brauðið er metið 19 rd. 4 sk. Prestur telur prestsetrið Miðgarð að líkindum lagt að jöfnu við 16 hundraða jarðir þar á eyjunni, og segir, að því fylgi 2 ásauðar-kúgildi og bjargfesti, sem er metin á við eð þriðja. Túnrækt, svo nokkru nemi, verður hèr varla komið á, vegna ísa og harðviðra, meiri enn uokkurstaðar annarstaðar á landinu. Reki sá, sem staðnum ber, hrökkur eigi nærri til nauðsynlegs viðurhalds húsanna, og það því síður, sem menn neyðast til að brúka hann meðfram til eldsneytis, vegna staklegasta eldiviðar skorts, þó sparsemi mesta sè höfð við, enda rekur sum árin ekkert. Fuglbjargi því, sem staðurinn á, fer ár frá ári hnignandi, fuglinum þar fækkandi og eggjatekja mínkandi. Önnur hlynnindi prestsins á eyjunni eru að öðru leiti: 4 fuglar af 120 hverjum og tuttugasta hvert egg, »hvorttveggja þetta af festarfángi, en alls ekki af því, sem fæst í handvað», og telja Grímseyíngar það meðalár, er prestfuglar og prestsegg eru á 60 f. Prestfiskar eru goldnir, með 1 fiski af róðri hverjum og bát hverjum, þegar 20 og þar yfir eru

á skip, og má mela gjald þetta á $1\frac{1}{2}$ vætt. Vertollar af landskipum um vortímann hafa um nokkur undanfarin ár verið af 4 skipum, með 8 manns hverju, og geldur maður hver 3 álna virði, en gjaldi þessu er svo varið, sem þeir eru mennirnir til, sem úti eiga að láta. Rekatekjur prestsins eru sjaldan að nokkru verði, en hann á áttúng úr því trè hverju, sem rekur á eyjunni og er 8 álnir á lengd eða þar yfir. Af Möðruvalla og Múkaþverár klaustri saman fær presturinn 12 fjórð. smjörs og 60 pör eingirnissokka. Brauðið er (1838) bætt 3 rbd. Fasteignar tíund 75 f., heytollar 10 og dagsverk 10, en tekjur þessar og aðrar koma misjafnlega inn frá eyjarbúum, sem flestir eru öreigar, og varla hafa uppá annað að stóla enn sjálfaraflann, sem reynist valtur. Sóknarmenn (eyjarbúar): 60.

---

# IV. Suður Þíngeyjar sýsla.

## 1. Svalbarðs hreppur.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 1. Syðri Varðgjá . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 2. Ytri Varðgjá . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | . . | 1 eig. |
| 3. Veigastaðir[1]. $\frac{2}{3}$ þaunglab. kke., $\frac{1}{3}$ be . . . . . . . . . | 20 | 0,100 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 4. Halland[2] † . . . . . . . . be. | 10 | 0,60 | $2\frac{1}{2}$ | 1 eig. |
| 5. Meyjarhóll[3] . . . Svalb. kke. | 10 | 0,60 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 6. Geldíngsá[4] . . . . . . . . . be. | 15 | 0,90 | 3 | 1 l. |
| 7. Sigluvík[5] . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | . . | 1 eig. |
| 8. Breiðaból . . . . Svalb. kke. | 20 | 0.90 | 2 | 1 l. |
| 9. Svalbarð á Svalbarðströnd[6]. be. | 25 | 1,20 | . . | 1 l. |

1) A. M. telur jörð þessa, sem þángað til 1805 (í jarðabókunum) öll er sögð bænda eign, 30 h. að dýrleika, og telur hann með henni eyðihjáleiguna Símonskot.

2) 1805 er jörð þessi (þá kölluð Fallandi) talin 12, en nú telur sýslumaður hana aðeins 5 h. að dýrleika. A. M. telur með henni eyðihjáleiguna Hallandssel.

3) A. M. einn telur jörð þessa 12 h. að dýrleika. 4) Þessa jörð 30 h.

5) Þessa jörð 60 h., og telur hann með henni eyðihjáleigu, Sigluvíkurstekk.

6) Jb. 1760, sem segir frá leigumála á Svalbarði og Mógili sèr í lagi (A. M. á Meðalheimi sèr), telur 35 h. dýrleika á öllu Svalbarði, og er dýrleika þessum skipt hèr niður eptir sýslumanni, en A. M. einn telur torfuna 100 h. að dýrleika, og með Svalbarði hèr að auki eyðihjáleigurnar Stefánstaði og Hæking.

| | | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|---|
| 321. Mýrarsel . . . . . . . . | hjál. | . . | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 322. Skörð[8] . . . . . . . . . . | be. | 40 | 1,60 | 4 | 1 eig. og 1 l. |
| 323. Skógar. . . . . . . . . . | be. | 20 | 1,0 | 2½ | 1 eig. |
| 324. Heiðarbót[9] † . . . . . . | be. | 10 | 0,60 | 3½ | 1 eig. |
| 325. Þverá . . . . . . . . . . | be. | 20 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 326. Reykir[10] . . . . . . . . | be. | 10 | 1,10 | 4 | 2 eig. og 1 l. |
| 327. Holtakot | hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 328. Brekknakot. Reykjad. j. | hjál. | . . | 0,10 | 1½ | 1 l. |

Sýslumaður skýrir yfirhöfuð frá, að í sýslu þessari sè óvíða fleiri enn 3 og sumstaðar eigi nema 2 kúg. á 20 hundraða jörðu, en landskuldin sè svo ýmisleg að upphæð og gjaldmáta, að eigi verði sagt, hver regla almennt gildi um hana; þó sè nú í almæli 12 sauða veturgamalla eptirgjald eptir 20 hundraða jarðir, en hèr frá sè þó líka nokkrar undantekníngar, þannig, að leigu̇liðar megi leysa landskuldar-sauðina, eða nokkra af þeim, með landaurum eða peníngum eða þá vinnu (slætti, útmældum dagsláttum) um sumartímann. Fæstar eru hèr jarðir leigðar æfilángt, nema konúngsjarðirnar. Þær jarðir í sýslunni, sem nú eru taldar hærri að dýrleika enn eptir jarðabókunum, hafa um lángan aldur verið tíundaðar með þessum enum hærri dýrleika, en fæstar eru þær nú með lægri dýrleiki enn á þeim er eptir jarðabókunum, nema Sýrnes (263) og er sá enn lægri dýrleiki á jörð þessari staðfestur af stjórnarinnar hálfu.

Á jörðum þeim, sem að framan eru taldar, alls 328, eru,

kúg.) og Mýrargerði. 1805 er laxveiði hèr metin á 2 h, silúngsveiði á 60 al, og fengust þá 40 ℔ æðardúns á Laxamýri. 1672 er jörðu þessari makaskipt undan Hóla stóli, ásamt með Uxastöðum, sem lágu undir; en hvað lagt var á móti verður eigi sèð, M Ketils. III. bls. 166.

8) 1805 er jörð þessi talin aðeins 25 h. að dýrleika, og telur A. M. með henni 5 eyðijarðir og hjáleigur: Skarðagerði, Einarstaði, Borgarhús, Hrísakot og Litlu Skörð, auk almennings á Hvammsheiði.

9) 1805 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika.

10) 1805 eru Reykir sèr taldir 25 h að dýrleika, einsog nú hjá sýslumanni, sem telur Holtakot sèr í lagi 10 h. A. M. telur þar að auki eyðihjáleiguna Skálholt með Reykjum, og segir að jörð þessi eigi laxveiði í Reykjakvísl og almenníng við Reykjaheiði og á Hvammsheiði. Brekknakot er og í jarðabókunum talin hjáleiga frá Reykjum, og segir jb. 1760 frá leigumála á henni sèr í lagi; en sýslumaður telur hana nú jörð sèr, 20 h. að dýrleika (1805 er hún talin 5 h) og segir, að hún sè nýlega fengin í makaskiptum undir Reykjadals umboð, smbr. 273, og 241 í Norður-Múla sýslu.

eptir skýrslu sýslumannsins við byrjun ársins 1841, 394 búendur og þar af 74, sem að nokkru eða öllu búa á sjálfs eign; en 1805 voru í parti þeim af Norður-sýslu, sem nú heyrir til Suður-þíngeyjar sýslu (kon. úrsk. 17. Febr. 1811) 300 meiri og minni bygð ból, og voru þá 310 búendur í þessum parti, og á meðal þeirra 39, sem bjuggu á eigin eign.

Eptir fólkstölulistum prestanna við árslokin 1842 er fólkstala hreppanna þessi: í *Svalbarðs hreppi* 154, í *Grýtubakka hreppi* 117, í *Háls hreppi* 553, í *Ljósavatns hreppi* 588, í *Skútustaða hreppi* 277, í *Helgastaða hreppi* 713 og í *Húsavíkur hreppi* 364, og þannig í allri Suður-þíngeyjar sýslu 3,096 manns.

Auk bæjanna 1—2, sem eiga kirkjusókn að Kaupángi í Eyjafjarðar sýslu, og Svalbarðs sóknar, þ. e. bæjanna 3—19, sem heyrir undir Glæsibæjar prestakall í sömu sýslu, eru í Suður-þíngeyjar sýslu 12 prestaköll:

1. *Laufás*, þ. e. bæirnir 20—29, 62—67, 113—114 og 126—127. Brauðið er metið 62 rd. 5 mk. 2 sk. Af hlynnindum staðarins, sem áður voru, eru nú harla fá orðin eptir: skógarló er nú aðeins orðin til deingslu og að nokkru leiti til húsatróðs; lax- og silúngsveiði svarar eigi lengur kostnaði, og eins gánga landgæði önnur til þurðar, t. a. m. útbeit, vegna skriðufalla; hvalrekar hafa lagzt frá, og eins selaveiði í nótum, sem áður voru talin til hlynninda. Komist æðarvarp á í hólmunum, sem verið er að leita lags við, verður það meðal beztu hlynnindanna við Laufás; 1838 höfðu hreiðrin í hólmum þessum náð 400 talsins. Tún staðarins fer mínkandi af iðuglegum áhlaupum árinnar, og verða nú eigi hafðar nema 4 kýr á því í meðalári, og verður það, sem eptir er, eigi talið meira enn 12 dagsláttur. Einginu fer eigi síður hnignandi af skriðum og árbroti, og fæst nú af því fóður aðeins fyrir 6½ kúg. og 1½ hross. Þorsteinstaðaeyri, sem áður var beitiland, er nú orðið helzta slægjulandið frá staðnum, þó eigi sè það nóg. Selför staðarins á Flateyjardalsheiði verður eigi lengur notuð, en fyrir beit staðarins þar, millum Höfðagilja, er árlega goldinn 1 rbd. í leigu, enda er farið þángað til grasatekju frá staðnum. Í afrétt staðarins samastaðar, Laufáshaga, er nú bygt býlið Eyvindará. Að trjáreka í Hvalvatnsfirði eru mjög lítil not. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Pálsgerði með Litlagerði með 1 h. lsk. 4½ kúg. og 3 dagsláttum, Miðgerði og Borgaragerði 60 al. lsk. 2 kúg. og 3 dagsláttum hvort, Þorsteinstaðir 60 al. lsk. 2 kúg., Grund 80 al. lsk. 3 kúg. og 1 dagsláttu, Lómatjörn 100 al. lsk. 3 kúg. 1 dagsláttu, Kussúngstaðir 40 al. lsk. 1 kúg., Nollur 80 al. lsk. 2 kúg. og 1½ dagsláttu, Eyvindará 25 al. lsk., og Íshóll með 40 al. lsk. 2

kúg. Landskuldin geldst hálf í fríðu og hálf með púlsbandssokkum, parið á 4 f., og koma dagsláttarnar upp í landskuldina. Fasteignar tíund 110 f., lausafjár tíund 71 f. (mestmegnis borguð í tólg), heytollar 21 og dagsverk 7, allt að meðaltali í 5 ár. Af brauðinu er uppgjafa-prestum og presta ekkjum lagðir 3 rbd. Sóknarmenn: 187.

2. *Höfði;* og eru í Grýtubakka sókn bæirnir 30—34, 36, 48—52 og 58, en í Höfða sókn 35, 53—57 og 59—61. Brauðið er metið 29 rd. 1 mk. 8 sk. Höfða staðar tún er hèrum 18 eyrisvellir að stærð, harðlent og hálent og gefur af sèr, þá bezt gegnir, og hirt er vel, með »slóðadrætti» færikvíum og vatns-áveitingum, 7 kúa fóður. Úteingið er allt mýrlent, þýft og heylètt, og fóðrar, þegar bezt lætur, 120 fjár (4 sálur ætlaðar hverri kind). Hèr er húsvelta, meðfram vegna landþreugsla, útbeit á vetrum lítil og lèttvæg. Silúngssela-eða grásleppuveiði svarar eigi kostnaði, en væri laglega á haldið, má æðarvarp hèr verða að gagni, í Nunnuhólma, sem verið er að auka og hlaða við, og voru þar 1838 40 hreiður, en 1839 töluvert fleiri. Fiskur gengur hèr sjaldan inn á fjörðinn, og aldrei nema um sláttinn. Trjáviðar reki er lítill sem enginn fyrir heimalandi, en ítök á kirkjan í Svæðis, Skers, Látra, Botns og Eyrar reknm, en þau eru, söknm fjarlægðar, presti til lítilla sem engra nota, en fyrir friðun staðarhaldara er skógarpartur kirkjunnar í Skuggabjarga landi nú orðinn nógur til heimilisþarfa. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Gil, þverá, Tindriðastaðir, Brekka og Kolgerði (33) með 40 al. lsk. hver, og 4 þær seinast nefndu með 1 kúg. hver, Sund 60 al. lsk. 1 kúg. og Garðar (sem þannig eru taldir bygðir 1839, sjá 60) með 40 al. lsk., og eru af Sundi ákveðnar 2, og af Görðum 1 dagslátta uppí landskuldina, sem að öðru leiti er greidd í landaurum eða eptir verðlagsskránni. Af Grýtubakka kirkju eign fær presturinn 12 fd. smjörs. Fasteignar tíund 80 al. Lausafjár tíund, heytollar, dagsverk, offur og aukaverk eru talin saman, að meðaltali í 10 ár, 260 al., heytollur hver talinn á 5 al., og dagsverk, auk fæðis, á 8 f. Sóknamenn: 208.

3. *þaunglabakki;* og eru í þaunglabakka sókn bæirnir 37—47, en í Flateyjar sókn 115—121. Brauðið er metið 12 rd. 5 mk. 10 sk. Prestsetrið hefir hagbeit góða á sumrum og beitifjöru við sjó árið um kríng. Frá August mánaðar byrjun og þángað til í November er útræði í þorgeirsfirði, og kemur það aptur heyskapnum til hnekkis; en meðal helztu hlynnindanna má telja trjáreka (af honum á Múkaþverár klaustur þriðjúng), en björgun viðarins, undir háfum standbjörgum, er hættuleg. Hrognkelsa-afla má og hafa, þegar eigi eru hafísar, og stundum verður hèr vart við »sjóreiðarfisk», sem þó nemur

litlu. Af Veigastöðum hálfum (3) fær presturinn 60 al. lsk. og 2 kúgilda leigur, en af Flateyjar kirkju ekkert, síðan sölu Hóla stóls jarða; þó fær hann nú ístaðinn fyrir Hóla mötuna ena gömlu af Flatey 4 smjör-fjórðúnga virði, eptir verðlagsskránni, úr jarðabókarsjóðnum. Fasteignar tíund 20½ f., lausafjár tíund 36 f., heytollar 20 og dagsverk 12. Sóknamenn: 179.

4. *Háls í Fnjóskadal;* og eru í Háls sókn bæirnir 68, 76—80, 97—103 og 155—157, í Illugastaða sókn 81—96 og í Draflastaða sókn 69—75, 104—112 og 125. Brauðið er metið 56 rd. 4 mk. 14 sk. Prestsetrið Háls hefir skóg nokkurn til kolagjörðar, en ókosti marga, af skriðuföllum, moldar- og sandfoki, til tjóns túni og eingjum. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Birníngstaðir með 3 kúg. 65 al. lsk. (þar af 30 al. í dagsláttum og 35 al. í tóvöru) Kambstaðir með 2 kúg. 45 al. lsk. (þar af 35 al. í tóvöru,) og Sandhaugar með 2 kúg. og 35 al. lsk. (þar af 25 al. í tóvöru). Af Draflastöðum er prestmatan 6, og af Illugastöðum 4 fjórð. smjörs, þó koma þar uppí 20 al. af enni fyrri og 10 al. í tóvöru af enni seinni annexíunni. Fasteignar tíund er talin 138 f., lausafjár tíund 250 f., heytollar 50 og dagsverk á 28 f. »Pèturslömb» eru nefnd, en eigi talin til inntektar. Frá inntektum gánga árlega 8 f. af kallinu. Sóknamenn: 446.

5. *Þóroddstaður í Köldukinn;* og eru í Þóroddstaðar sókn bæirnir 128—147, en í Ljósavatns sókn 148—154, 158—162 og 190—191*. Brauðið er metið 30 rd. 3 mk. 6 sk. Um hlynnindi prestsetursins vísar prestur til annara skjala þar að lútandi. Staðar-hjáleigurnar eru bygðar þannig: Naustavík með 60 al. lsk. og að auki sjöttúngi vöðuselsveiða »úr landtogs nótlögum í eptirlag»; Ófeigstaðir 80 al. lsk. 1 kúg. og Torfunes með 60 al. lsk. 1 kúg., en Vargsnes er 1839 talið í eyði, og segir þá hjá presti, að Kotamýrar (128 og 135) sè ránglega hafðar undan staðnum; svo telur og prestur 1839 Staðargerði (áður kallað Túnsendakot) bygt ból, er hann fái eptir 30 al. lsk. og 1 kúgildis leigu. Af annexíunni gjaldast presti 12 fd. smjörs. Fasteignar tíund 239 f., lausafjár tíund 115 f., heytollar 40 og dagsverk 21. Sóknamenn: 322.

6. *Eyjadalsá;* og eru í Eyjadalsár sókn bæirnir 163—166 og 186—189, en í Lundarbrekku sókn 167—185. Brauðið er metið 18 rd. 1 mk. 2 sk. Eyjadalsá er bújörð arðlítil, tún stór, en snögg, hèrum 18 dagsláttur, fóðra í mesta lagi 3 kýr; úteingið graslítið og reitíngsamt, en nokkuð víðslægt; landrými sæmilegt, einkum til fjalls, og hagbeiti góð á sumardag, til fjalls og í svo kölluðum Reykjadal. Jörðin framfærir eigi meira enn 3 kýr, 80 ær, 60 sauði, 20 lömb og 3 hesta,

*) Hèr eru sókna skil nokkuð óljós eptir fólkstölulista prestsins.

en 3 hestum þarf að koma inn í Eyjafjörð til gaungu á vetrum. Jörðin hefir skóg, til kolagjörðar, nægilegan. Eptir staðarhjáleigurnar báðar fær presturinn 3 kúgilda leigur, en af Hvarfi 30, og af Hlíðarenda 18 álna lsk. Af annexíunni gjaldast 12 fd. smjörs. Fasteignar tíund 72 al., lausafjár tíund 76 al., heytollar 32 og dagsverk 6. Brauðinu eru árlega lagðir 4 rbd. til uppbótar úr jarðabókarsjóðnum; því fylgja 10 rd. speeíe fyrir burtselt kúgildi. Sóknamenn: 246.

7. *Mývatns þíng;* og eru í Skútustaða sókn bæirnir 192—202, 204—205 og 212—213, en í Reykjahlíðar sókn 203, 206—211 og 214*. Brauðið er metið 22 rd. 2 mk. 14 sk. Brauðinu er eigi lagt prestsetur eða nokkur lènsjörð. Af Reykjahlíðar kirkju fær presturinn 18, og af Skútustaða kirkju 10 fd. smjörs. Fasteignar tíund 92 al., lausafjár tíund 80 al., heytollar 26 og dagsverk 2, allt að 5 ára meðaltali. Sóknamenn: 277.

8. *Grenjaðarstaður;* og eru í Þverár sókn bæirnir 215—223, en í Grenjaðarstaðar sókn 224—234 og 324—328**. Brauðið er metið 163 rd. 6 sk. Staðurinn hefir víðlendan og þurran heyskap, á túni og eingjum, en þó svo lítinn, að af túninu, sem liggur við veðranæðíng, eigi fæst meira enn 6 hestar af dagsláttu hverri, og á einginu eigi nema 4 hestar eptir dagsláttuna. Málnyta lítil og mögur, þegar hún er höfð heima, en betri í seli, með miklum erfiðismunum. Silúngsveiði er í Laxá, en þó einúngis í kríngum eingið, því Múla prestar hafa hefðað veiðina þar fyrir neðan, yfir Þvera ána við bæði lönd, og svarar þessvegna veiði þessi naumast kostnaði. Reka á kirkjan á Sandi og Sílalæk, og lèttir hann undir úthýsa byggíngar, en rekinn í Rauf og Breiðuvík verður eigi hagnýttur sökum fjarlægðar. Af rekanum fyrir vestan Fljótsós hefir alls eitt sinn fengist $1\frac{1}{2}$ rbdals virði. Hvalreka ítök í annara lönd eru að litlu verði, svo sem »fjórðúngur í hvalreka fyrir alla Náttfaravík og öll flutníng fyrir Yztaból, en fyrir Miðból hálf», sem aldrei hefir komið að liði. «Selför til Kríngluvatns» er um stund notuð, og »selför hálf á Skarði uppi», til beitar fyrir búfè staðarins. Hestagángan á Mývatnsfjöllum, selveiði »öll í Fljóti» og »afrètt í Náttfaravík hálfu fjórða hundraði sauða», gagnast eigi, sumpart sökum mótþróa nábúanna og þóroddstaða kirkju landseta í Naustavík. »Laxveiði í Ósi, 2 hlutir uns 6 hundruð eru og þaðan frá öll, netjadráttur og laxastúnga í Laxárósi» hefir heldur eigi verið notuð í manns minni, eigi heldur »hálft eggver í Ósi», en af helmíngi í Þíngey við Einarstaði og Bakkaland hefir alls einusinni fengizt ríksort heilt.

*) Hèr eru sókna skil mjög óljós, eptir fólkstölulista prestsins.
**) Hèr eru sókna skil mjög óljós hjá presti.

Prestsetrinu sjálfu fylgja nú 10 kúg., en kirkjujarðirnar (í Suður- og Norður þíngeyjar sýslum) eru (1839) ásamt hjáleigum bygðar með samtals $41\frac{1}{2}$ kúg., og er landskuldargjald af þeim áskilið þetta: 82 sauðir veturgamlir, 32 dagsláttur í túni og eingjum (dagsláttan talin á 10 al.), 60 pör smábands, 6 ꝉꝉ æðardúns, 30 lýsispottar, 50 ꝉꝉ af ullu og tólg, 12 fd. fiska og 6 tunnur kola af 3 eyðikotum í Kelduhverfi. Fyrir hestagaungu á Mývatnsheiðum telur prestur 2 rbd. Af þverár kirkju eign gjaldast 8 fd. smjörs. Fasteignar tíund 246 f. Lausafjár tíund 75 f., heytollar 24 og dagsverk 12, allt að meðaltali í 10 ár. Eptir 2 konúngleg skuldabréf kirkjunnar fær prestur árlega 8 rbd. Tekjuskattur af brauðinu 9 rbd. 89 sk., auk tillags til uppgjafa-presta og presta ekkna, svo og »tillags til Helgastaða hrepps, sem þó líklega hverfur við prtsta skipti». Sóknamenn: 243.

9. *Nes í Aðal-Reykjadal*, þ. e. bæirnir 235—249 og 323. Brauðið er metið 16 rd. 2 mk. 4 sk. Túnið er talið 15 dagsláttur að víðáttu, en er harðslægt og ógrasgefið, og gefur af sèr aðeins 2 kýrfóður. Eingjar eru hèr grasgóðar, en mjög þýfðar, og fást af þeim allt að 120 hestum. Ítök þau, er staðurinn áður hefir átt, eru að mestu gengin undan og að öðru leiti til lítilla nota. Til hlynninda prestsetursins telur prestur: lax- og silúngsveiði nokkra, en þó litla, í Laxá, skóglendi nokkurt til kolgjörðar og húsatróðs, fjalldrapa, grávið, eini- og berjatekju, svo og grasatekju og beitiland allgott, allt í landi því, er kirkjan á austanvert við Laxá, en illt er að komast í landið yfir ána. Jarlstaðir eru bygðir með 40 al. lsk. 4 kúg. Fasteignar tíund 14 f., lausafjár tíund $53\frac{1}{2}$ f., heytollar 18 og dagsverk $7\frac{1}{2}$, allt að meðaltali í 7 ár. Staðnum fylgja 4 kúg. Sóknarmenn: 132.

10. *Múli í Reykjadal*, þ. e. bæirnir 250—263. Brauðið er metið 59 rd. 4 mk. 10 sk. Múla staðar tún, sem er sagt 28 dagsláttur að ummáli, fóðrar þó eigi nema 5 kýr, er það er harðslægt mjög og snöggt og liggur við veðranæðíngum, og er það mestallt þýft. Eingium staðarins fer hnignandi, sökum vatnsyfirgángs og vetrarhlaupa úr Laxá, en síður bregðast eyjar og hólmar staðarins til heyskapar. Útheyið er lètt til fóðurs. Frá staðnum er silungsveiði nokkur í Laxá, um 4—6 vikna tíma á vorin, en arðminni er silúngsveiði í Múlavatni. Andaegg fást hèrum 400 árlega í Laxárhólmum. Rekastúfur staðarins á Fljótsandi, milli Grenjaðarstaðar og Mýrarreka, er í góðum rekaárum til hagræðis, og sömuleiðis Keldunes og Rakkanes rekar; en grasatekja í þeistareykja landi er eigi orðin teljandi, síðan hreindýrin eru búin að eyða fjallagrösunum á Reykjaheiði. 17 eru kirkjukúgildi á jörðum

kirkjunnar (í Suður- og Norður-þíngeyjar sýslum), og á landskuldargjald af þeim öllum að vera 32 sauðir að vorlagi, 16 dagsláttur í túni staðarins, 3 rbd. í peníngum, 10 smábandspör, 135 púlsbandspör, 50 ꝉ af ullu og tólg og 3 ꝉ af hreinsuðum æðardún. Fasteignar tíund er talin 44 ꝉ tólgar; fyrir fluttan brennistein úr þeistareykja landi eru, eptir samníngi 8. Octobr. 1835, greiddir 30 rbd. í peníngum. Rekaleigur eru til samans taldar á 4 rbd. og eins í leigu eptir Lánghólma og Fjallshólmana. Lausafjár tíund er talin (í peníngum) 2 rbd. 88 sk., heytollar 15 og dagsverk 6. Til uppgjafa-presta og presta ekkna er 3 rbd. 54 sk. svarað af brauðinu. Sóknarmenn: 121.

11. *Helgastaðir í Reykjadal;* og eru í Helgastaða sókn bæirnir 264—269 og 293—294, en í Einarstaða sókn 270—292*. Brauðið er metið 33 rd. 2 mk. 8 sk. Töðuvöllur staðarins gefur af sèr 3 kýrfóður, starar- og ferginseingi 2, og árbakka- og mýrgresi 6 kýrfóður í mesta lagi. Foss-sel er leigt með 3 kúg. og í lsk. 3 sauðum vetugömlum, og 12 pörum tvíbandssokka, Hamar 3 kúg. og í lsk. 3 sauðum vetugömlum, 3 dagsláttum í túuvelli og 6 pörum tvíbandssokka, og Hörgsdalur (192) með 40 al. lsk (goldinni með 4 sauðum veturgömlum eða 40 ꝉ ullar og tólgar). Af annexíunni eru presti goldnir 12 fd. smjörs. Fasteignar tíund 201 f., lausafjár tíund 135 f., heytollar 36 og dagsverk 10½, allt að meðaltali í 5 ár. Til uppgjafa presta eru greiddir 36 sk. af brauðinu. Sóknamenn: 276.

12. *Húsavík á Tjörnesi*, þ. e. bæirnir 295—322. Brauðið er metið 37 rd. Í Húsavík verður hvergi heyjað nema í túninu, og fást af því í mesta lagi 82 hestar. Trjáreki í sumum árum er nokkur. Selveiði má telja meðal mestu hlynninda prestsetursins, en hún misheppnast opt hraparlega við missi og slit á nótum. Prestur fær í landhlut $\frac{1}{5}$ úr sumum og $\frac{1}{10}$ hluta úr sumum nótlögnum; en meðal-upphæð á »eptirlögununum« verður eigi ákveðin, þareð selveiðin reynist mjög misjöfn. Hjáleigan Naust er leigð með 1 kind veturgamalli og 1 dagsláttu, Skógargerði með 3 dagsláttum, og 1 rbd., Vilpa með 1 kind veturgamalli, 1 dagsláttu og 1 rbd., og þorvaldstaðir með 2 dagsláttum og 2 rbd. í lsk., og er á jörðu þessari 1 kúg. Fasteignar tíund 176 f., lausafjár tíund 112 f., heytollar 30, dagsverk 10, brennisteins grunnleiga 20 rbd., kaupstaðar grunnleiga 1½ rígtunna, beitartollur fyrir kýr 4 rbd. og eptirgjald eptir Illugabæ 3 rbd. Á staðnum sjálfum eru 3 kúg., og fylgir honum þar að auki stofuhús, metið á 2 kúg., og 1 hestur. Af brauðinu eru lagðir 36 sk. Sóknarmenn: 305.

*) Hèr eru sókna skil mjög ótjós hjá presti.

# V. Norður Þíngeyjar sýsla.

## 1. Keldunes hreppur.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 1. Þórunnarsel[1] . . . . . . be. | . . | 0,60 | 2½ | 1 eig. |
| 2. Ingveldarstaðir[2]. Grenjaðarst. kke. . . . . . . . . . . | 20 | 0,50 | 2½ | 1 l. |
| 3. Krossdalur[3] † . . . . . be. | . . | 0,60 | 2½ | 1 eig. |
| 4. Undirveggur[4] † . . . . be. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 5. Tóveggur[5] . . . . . . . be. | . . | 0,30 | 2 | 1 l. |
| 6. Byrgi[6] . . . . . . . . . . be. | 10 | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 7. Bángastaðir[7] † . . . . . be. | . . | 0,40 | 3 | 1 l. |
| 8. Fjöll[8] † . . . . . . . . . be. | . . | 1,80 | 5 | 1 eig. |
| 9. Auðbjargarstaðir . . . . hjál. | . . | 0,45 | 1 | 1 eig. |

1) A. M., sem hèr segir frá leigumála, telur jörð þessa hjáleigu frá Ási í Kelduhverfi (24), en 1805 er hún sögð útskipt úr Áss landi, og telur sýslumaður hana nú 10 h. að dýrleika. 1805 segir, að með jörðu þessari sè yrktar eyðijarðirnar Byrgissel (sjá 6) og Árhúsabakki (máske sama sem Áshúsabakki).

2) Her er dýrleiki og leigumáli hafður eptir A. M. 1805 var jörð þessi í eyði, en nú telur sýslumaður hana 5 h. að dýrleika með 70 al. lsk 1 kúg. A. M. telur enn fremur Ávegg, Grenjaðarstaðar kirkju eign, í eyði (80 al. lsk.) og segir hann part úr Ingveldarstöðum, og með honum 6 gömul eyðiból: Skjaldastaði, Efra Oddagerði, Sírekastekk, Fremristekk, Hliðargerði og Heiðargerði, en engra jarða þessara, nè heldur Áveggs, er seinna getið. Svo telur og A. M Ingjaldstaði ($60\frac{2}{3}$ h. að dýrleika, 1760: 70 al. lsk. 2 kúg.), sem hann líka segir hluta af Ingveldarstöðum; en jarðar þessarar er eigi getið 1805, nè heldur nú af sýslumanni eða presti.

3) 1805 segir, að jörð þessi hafi verið í eyði síðan 1784 og brúkuð til beitar frá Garði og Austurgarði, en nú segir sýslumaður hana 8 h. að dýrleika.

4) Hèr um er sama að segja og um Krossdal, en 1805 segir, að jörð þessi sè lögð til Meiðavalla (23). Þá segir og frá eyðijörð stólsins, Hæringstöðum, er eins lengi hafi legið í eyði (A. M. 60 al. lsk. 3 kúg), og telur A. M. með henni eyðibólin Eyvindarstaði (100 al. lsk. 6 kúg., smbr. 26), Hraungarðasel (áður Velli, 40 al. lsk. 2 kúg.), og eyðihjáleigurnar Skálholt, Rönd og Hrútstaði.

5) Jarðar þessarar er eigi getið 1805, og telja jarðabækurnar hana sem kirkjujörð (áður) frá Ási í Kelduhverfi, en sýslumaður, sem segir hana 5 h. að dýrleika, sem bænda eign.

6) A. M. einn telur jörð þessa 20 h. að dýrleika, og með henni eyðihjáleiguna Byrgissel (60 al. lsk. 2 kúg., sjá 1), en sýslumaður telur nú jörðina 5 h. að dýrleika.

7) Sýslumaður telur nú jörð þessa 5 h. að dýrleika.

8) 1805 er jörð þessi talin 30 h., og telur nú sýslumaður 5 h. af þessum dýrleika á hjáleigunni; A. M., sem segir frá leigumála á henni, telur enn fremur Fleti (50 al. lsk. 1½ kúg.) og Geitagerði, í eyði, með Fjöllum.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 10. Lón[9] †. . . . . . . . . be. | . . | 0,100 | 4 | 1 l. |
| 11. Víkíngavatn[10] . . . . . be. | 20 | 1,0 | 2½ | 2 l. |
| 12. Sultur } hjál. | 5 | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 13. Kílakot } hjál. | 5 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 14. Ólafsgerði[11] . . . . . . be. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 15. Grásíða[12] . . . . . . . . be. | 12 | 0,70 | 2 | 1 l. |
| 16. Garður[13] . . . . . . benef. | 15 | 1,60 | 4 | prestur |
| 17. Stórárbakki . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 18. Austurgarðar[14], Garðs kke. | 6 | 0,80 | 3 | 2 l. |
| 19. Keldunes[15] † . . . . . be. | . . | 1,60 | 6 | 1 eig. |
| 20. Kelduneskot } hjál. | . . | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 21. Nýibær } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 22. Hóll[16] †. . . . . . . . be. | . . | 0,80 | 3 | 1 eig. |
| 23. Meiðavellir[17] † . . . . be. | . . | 0,40 | 3 | 1 l. |
| 24. Ás (í Kelduhverfi)[18] . . be. | 30 | 0,90 | . . | 1 eig. |
| 25. Svínadalur[19] . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |

9) 1805 (þá fengust hèr 11 ℔ æðardúns) og nú hjá sýslumanni, er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika.

10) Jb. 1760 telur Víkíngavatn allt 30 h. að dýrleika, en segir frá leigumála á því og hjáleigunum sèr í lagi, og er dýrleikanum skipt hèr niður eptir sýslumanni. A. M. telur enn fremur með Víkíngavatni eyðibólin Staðarsult, Hornsel, Brandsgerði og Kríngluгerði.

11) Jörð þessi, sem jb. 1760, með hèr greindum leigumála, telur hjáleigu frá Víkíngavatni, er 1805 og nú hjá sýslumanni talin sèr í lagi, og 7 h. að dýrleika.

12) A. M. telur hèr með eyðihjáleigur, Galtagerði og Bjarnarkot.

13) A. M. telur hèr með hjáleigur: Garðhús (30 al. lsk 1 kúg.), Þórólfstaði (60 al. lsk. 2 kúg.), Ásmundarstaði (60 al. lsk ), Mótjörn (40 al. lsk. 1 kúg.), Fornastekk (60 al. lsk. 2 kúg.) og Jónsfjós, flestar þá þegar í eyði, en nú nefnir sýslumaður (með 10 al. lsk. 1 kúg.) og prestur Stórárbakka, sem hjáleigu hèðan.

14) A. M. segir hèr frá dýrleikanum, og telur með jörðunni eyðihjáleigu, Austurgarðasel Sýslumaður segir hèr nú 40 al. lsk. 2 kúg.

15) 1805 er Keldunes allt talið 30 h. að dýrleika, en nú telur sýslumaður 10 h. á Keldunesi sèr í lagi, 5 h. á Kelduneskoti og 6 h. á Nýjabæ, sem fyrst er nefndur sem hjáleiga hèðan 1805. A. M. telur enn fremur með Keldunesi eyðihjáleigurnar Grímshús, Gerði og Hraungerði.

16) 1805 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika; A. M. telur hèr gömul eyðiból í landinu. Hermundarból, Hólshús, Hólkot, Bakkagerði, Oddagerði, Broddhelgastaði, Miðgerði og Hraunagerði

17) 1805 er jörð þessi talin 12, en nú hjá sýslumanni 10 h. að dýrleika. A. M. telur hèr með gamalt eyðiból, Maríugerði. Smbr. 4.

18) Sýslumaður telur nú jörð þessa aðeins 15 h. að dýrleika, en 30 h. er hún enn talin 1805, og þá með henni Þórunnarsel (1) og Svínadalur (25) sem hjáleigur. A. M. telur með henni hjáleiguna Áshúsabakka (80 al. lsk. 2 kúg., sjá 1) og eyðihjáleiguna Gilsbakka.

19) Sýslumaður telur nú jörð þessa, sem fyrst er nefnd 1805, 5 h. að dýrleika.

| | | dýrl. | landsk. | kúg | ábúendur |
|---|---|---|---|---|---|
| 26. Eyvindarslaðir[20] | be. | .. | ... | .. | 1 l. |
| 27. Arnanes[21] | be. | .. | ... | .. | 1 l. |
| **2. Skinnastaða hreppur.** | | | | | |
| 28. Ærlækur[1] | Múkaþv. kl. e. | 30 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 29. Skinnastaður[2] | benef. | 16 | 1,30 | $6\frac{1}{2}$ | prestur |
| 30. Akur | hjál. | .. | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 31. Hafurstaðir | hjál. | .. | ... | .. | 1 l. |
| 32. Akursel | hjál. | .. | ... | .. | 1 l. |
| 33. Staðarlón | hjál. | .. | ... | .. | 1 l. |
| 34. Skógar* | Múkaþv. kl. e. | 30 | 1,30 | 5 | sýslumaður |
| 35. Ærlækjarsel | hjál. | .. | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 36. Ferjubakki[3] † | fáte. | .. | ... | 2 | 1 l. |
| 37. Vestara Land | be. | 16 | 0,70 | 1 | 1 l. |
| 38. Höll[4] | be. | 8 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 39. Hóls sel | hjál. | .. | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 40. Fjallgarðs-sel | hjál. | .. | ... | .. | 1 l. |

20) þessa jörð nefna sýslumaður og prestur einir, og telur sýslumaður hana 5 h. að dýrleika, og má vera hún sé en gamla eyðijörð stólsins, sem er nefnd við 4 að framan.

21) þessa jörð nefna sýslumaður og prestur einir, og telur sýslumaður hana 4 h. a dýrleika.

1) A. M. telur hér með eyðihjáleigurnar Hverfisgerði og Borgargerði, en 1805 er eyðijörð klaustursins, Vesturhús (1760: 10 h. að dýrleika, 40 al. lsk. 1½ kúg.) talin með henni, og telur A. M. með Vesturhúsum eyðihjáleiguna Geldíugatóptir.

2) Sýslumaður telur nú Akur (hvar jb. 1760 líka segir frá leigumála) og Hafurstaði (sem fyrst eru nefndir 1805 og þá kallaðir 4 h.) 5 h. að dýrleika hvora hjáleiguna um sig, og telur hann 40 al. lsk. 1 kúg. á Akri og 50 al. lsk. 1 kúg. a Hafurstöðum, en á hinum hjáleigunum 80 al. lsk. og 1 kúg. á hvorri, og er Akursel talið í eyði hjá A. M., en Staðarlóns er aðeins getið hjá sýslumanni og presti.

*) Sýslumaður telur 10 h. af dýrleikanum á hjáleigunni (einsog 1805), en A. M. telur Skóga og hjaleiguna, hvora jörðina um sig, 15 h., og enn fremur með Skógum eyðihjáleigu, Skógaborg. Sýslumaður segir nú Skóga fengna sýslumanni til brúkunar; þar fengust 1805 8 ℔ æðardúns.

3) A. M. segir, að bóndi hafi jörð þessa gjaldfría, fyrir að ferja ferðamenn alla yfir Jökulsá í Axarfirði, og var af sýslumanni og hreppstjóra 1805 skýrt frá, að jörðin fyrir þá sök naumast fengist bygð, þó að bóndi aðeins gildi eptir 1 kúg.; þá var eyðijörð stólsins, Vaðkot eða Vatnskot (A. M. 8 h. að dýrleika), brúkuð héðan sem beitiland og hafði hún þá verið óbygð í ómuna tíð. Sýslumaður segir nú Ferjubakka 12 h. að dýrleika og eign hreppsins.

4) Sýslumaður telur nú jarðirnar 38—40, hverja um sig, $2\frac{2}{3}$ h. að dýrleika, en 1805 er Hóls-sel kallað 4 h. að dýrleika, Fjallgarðs-sels aptur á móti er aðeins getið hjá presti og sýslumanni, og telur prestur Hóls-sel og Fjallgarðs-sel hjáleigur (líklega frá Hóli).

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 41. Grímstaðir (á Fjalli)[5]. ½ † be. | 6 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 42. Austara Land[6] . . . . . be. | 16 | 0,80 | 1 | 1 eig. |
| 43. Bjarnastaðir[7] . . . . . . be. | 8 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 44. Smjörhóll . . . . . . . . be. | 3 | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 45. Hafrafellstúnga[8] . . . . be. | 20 | 1,0 | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 46. Gilsbakki . . . . . . . . be. | 8 | 0,80 | 3 | 1 l. |
| 47. Lækjardalur[9]. Múkaþv. kl. e. | . . | 0,20 | 1 | 1 l. |
| 48. Leifstaðir . . . . . . . . be. | 8 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 49. Klifshagi[10] . . . . . . . be. | 12 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 50. Sandfellshagi. Múkaþv. kl. e. | 15 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 51. Þverá[11] . . . . . . . . be. | 10 | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 52. Núpur[12] . . Múkaþv. kl. e. | 12 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 3. Presthóla hreppur*. | | | | |
| 53. Rif[1] . . . . Múkaþv. kl. e. | 6 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 54. Hóll[2] . . . . Múkaþv. kl. e. | 15 | 1,0 | 3½ | 1 l. |
| 55. Hóls-sel . . . . . . . . . hjál. | . . | 0,30 | . . | 1 l. |
| 56. Raufarhöfn[3]. Múkaþv. kl. e. | 5 | 0,48 | 1½ | 1 l. |
| 57. Ásmundarstaðir[4]. Múkaþv. kl. e. . . . . . . . . . . | 15 | 1,0 | 2 | 1 l. |

5) Helmíngur jarðar þessarar er í jarðabókunum (og eins í enni prentuðu stóls jarðabók, hvar stólshlutinn er talinn 6⅔ h. að dýrleika) talinn eign Skálholts stóls.

6) A. M., sem telur jörðina 15 h., telur með henni eyðihjáleigu, Landgerði.

7) Hèr er dýrleiki hafður eptir A. M., sem með jörðunni telur eyðihjáleigu, Bjarnastaðagerði.

8) A. M. telur hèr með eyðihjáleigur 2, Jónsstaði og Hrafnstaði.

9) Hèr er leigumáli hafður eptir A. M. 1696 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 5 h að dýrleika, en 1805 er hún sögð 2 h., og hafði hún þá verið lengi í eyði.

10) A. M. einn telur jörð þessa 40 h. að dýrleika og með henni 4 eyðihjáleigur: Skeggjastaði, Bakkagerði, Hagagerði og Fosshagagerði.

11) 1805 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 12, en hjá A. M. 20 h. að dýrleika, og telur A. M. með henni 3 eyðihjáleigur: Þverárborg, Syðra Skeið og Ytra Skeið.

12) A. M. telur hèr með ey ihjáleigurnar Gunnsteinstaði og Stafn.

*) 1805 er með flestum bæjum í hreppi þessum (á Slèttu) talinn meiri og minni viðreki.

1) A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Rifsel (20 al. lsk. ½ kúg.).

2) A. M. telur hèr að auki eyðihjáleiguna Hólskot (20 al. lsk.) með Hóli, og nefnir prestur, en eigi sýslumaður, Hóls-sel. 1805 fengust á Hóli 6 ℔ æðardúns.

3) A. M. telur hèr með eyðihjáleiguna Búðir (30 al. lsk.). 1805 fengust hèr 20 ℔ æðardúns, og er jörðin þá og 1639 talin 8 h. að dýrleika.

4) A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Höskuldarnes (40 al. lsk. 1 kúg.). 1805 fengust hèr 20 ℔ æðardúns, og var jörðin þá og 1639 talin 18 h. að dýrleika.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 58. Harðbakur[5]. Múkaþv. kl. e. | 5 | 0,50 | 1 | 1 l. |
| 59. Skinnalón[6] . . . . . . . be. | 5 | 0,60 | . . | 2 l. |
| 60. Blikalón[7] . . Múkaþv. kl. e. | 15 | 0,90 | 1 | 1 l. |
| 61. Sigurðarstaðir[8]. ⅔ Grenjaðarst. og ⅓ Múla kke. . . . . . | 15 | 1,0 | . . | 1 l. |
| 62. Oddstaðir[9] . . . . . . . be. | 12 | 2,60 | . . | 2 l. |
| 63. Núpskatla . . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | . . | 1 l. |
| 64. Grjótnes[10] . . . . . . . be. | 5 | 1,30 | 2 | 1 l. |
| 65. Kílsnes . . . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 66. Leirhöfn[11]. Múkaþv. kl. e. | 13 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 67. Snartarstaðir[12]. Múkaþv. kl. e. | 15 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 68. Brekka[13] . . . . . . . . be. | 8 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 69. Efri Hólar[14]. Múkaþv. kl. e. | 15 | 0,60 | 2½ | 1 l. |
| 70. Presthólar[15] . . . . benef. | 15 | 1,0 | 8 | prestur |
| 71. Kalastaðir . . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 72. Valþjófstaðir[16] . . . . . be. | 16 | 0,95 | 2 | 1 eig. |
| 73. Einarstaðir . . . . . . hjál. | . . | 0,40 | 2½ | 1 l. |

5) 1805 er hèr með talin eyðihjáleiga, Hraunhöfn.

6) A. M. einn telur jörð þessa 8 h. að dýrleika og með henni eyðihjáleigu, Hestatóptir (30 al. lsk.). 1805 fengust her 7 ℔ æðardúns, og segir þá, að jörðin eigi Skinnalónshólma hálfan og Hóla stóll hálfan, og fáist þar 32 ℔ æðardúns.

7) 1805 fengust hèr 30 ℔ æðardúns, og er jörðin þá og 1639 talin 18 h. að dýrleika.

8) A. M. telur hèr eyðijarðir í landinu: Strandarsel, Þorbjarnarstaði og Torfastaði. 1805 fengust hèr 24 ℔ æðardúns, og segir sýslumaður nú jörðina leigða fyrir 300 al., sem borgist með 15 ℔ æðardúns.

9) A. M. telur hèr að auki Vellankötlu (Eystri, 30 al. lsk.) með Oddstöðum. 1805 og nú hjá sýslumanni eru 4 h. af dýrleikanum talin á hjaleigunni. 1805 segir, að hèr fáist 70 ℔ æðardúns.

10) 1805 og nú hjá sýslumanni eru 2 h. af dýrleikanum talin á hjáleigunni, og fengust 1805 12 ℔ æðardúns á Grjótnesi.

11) A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Leirhafnarsel, og jörðina 16 h. að dýrleika; en 1639 er hún talin 28 h., 1805 18, en nú hjá sýslumanni 15 h. að dýrleika.

12) A. M. telur hèr með eyðihjáleigu, Snartarstaðakot, og er hèr sama um dýrleika (annarstaðar enn í jb. 1760) að segja og á Leirhöfn.

13) A. M. telur hèr með eyðihjáleigur, Brekkusel og Mógerði.

14) A. M. telur jörð þessa 16, en 1805 og 1639 er hún talin 18 h. að dýrleika.

15) A. M., sem hèr segir 7 kirkjukúgildi, telur eyðihjáleigur 2, Þúfugerði og Lónshús, með Presthólum. Sýslumaður segir nú 40 al. lsk. 1 kúg. á hjáleigunni.

16) A. M. telur hèr að auki hjáleiguna Fellshús (40 al. lsk. 2 kúg.) og eyðihjaleiguna Kjarnagerði með jörðu þessari. Sýslumaður telur 6 h. af dýrleikanum á hjáleigunni.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 74. Arnarstaðir[17] . . . . . . be. | 16 | . . . | . . | 1 l. |
| 75. Daðastaðir[18], Múkaþv. kl. e. | 12 | 1,0 | 4 | 1 l. |
| 76. Þjófstaðir . . . . . . . hjál. | . . | 0,70 | 1½ | 1 l. |
| **t. Svalbarðs hreppur.** | | | | |
| 77. Krossavík[1] †. . . . . . be. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 78. Krossavíkursel . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 79. Ormalón[2] . . Múkaþv. kl. e. | 8 | 0,50 | 2 | 1 l. |
| 80. Sveinúngsvík[3] . . . . . be. | 12 | 0,50 | 1 | 2 l. |
| 81. Kollavík[4] . . . . . . . . be. | 8 | 0,90 | . . | 1 eig. að ½ j. |
| 82. Borgir } . . . . hjál. | 4 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 83. Vellir } . . . . hjál. | 4 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 84. Kollavíkursel } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 85. Sævarland[5]. ⅔ Múla og ⅓ Skinnast. kke. . . . . . . | 8 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 86. Garður[6] † . . . . . . . be. | . . | 0,70 | 2 | 1 eig. og 1 l. |
| 87. Flautafell[7]. Múkaþv. kl. e. | 3⅓ | 0,30 | . . | 1 l. |
| 88. Hermundarfell[8]. Svalb. kke. | 8 | 0,30 | 1 | 1 l. |
| 89. Hermundarfells-sel . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 90. Svalbarð í Þistilfirði[9]. benef. | 10 | 0,100 | 3 | prestur |

17) A. M., sem hèr með telur fornt eyðiból, Friðleifstaði, segir hèr (aðeins) frá dýrleika, en 1805 er hann talinn 12 h.

18) A. M. telur hèr að auki hjáleigurnar Kleifargerði (60 al. lsk. 1 kúg.) og Þjór-(Þjóf-) staðastekk, í eyði, með Daðastöðum. Sýslumaður telur 4 h. af dýrleikanum á hjáleigunni.

1) Jörð þessi var 1805, einsog optsinnis áður, í eyði. Sýslumaður telur hana nú 6 h. að dýrleika. Krossavíkursel nefnir aðeins hann og prestur. 2) 1805 er jörð þessi talin aðeins 6 h.

3) A. M. telur hèr með hjáleigu, Bángsakot (30 al. lsk. 1 kúg.), svo og eyðibólin Hundsnes og Bjargaland.

4) Jb. 1760 segir frá leigumála á tveimur hjáleignanna útaf fyrir sig, og telur Kollavík alla 16 h. að dýrleika, og er dýrleika þessum skipt hèr niður eptir sýslumanni (eins og gjört er 1805), en Kollavíkursel, sem hèr líka er talið sem hjaleiga, nefna aðeins hann og prestur.

5) Jb. 1760 og A. M., sem telja til um hluta beggja kirknanna, einsog hèr, segja Múla kirkju hlutann 6 h., en Skinnastaða kirkju hlutann 2 h, þó telur A. M. hann 2⅔ h. að dýrleika.

6) 1805 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika, og telur A. M. með henni eyðihjáleigu, Girðínga.

7) 1805 er jörð þessi talin 5 h. að dýrleika.

8) Hèr er dýrleiki hafður eptir A. M. Sýslumaður og prestur einir nefna hjáleiguna.

9) A. M. telur þær af hjáleigunum, sem eigi hèr er settur við leigumáli eptir honum, í eyði, þó nefna aðeins sýslumaður og prestur, meðal hjáleignanna, Grímstaði og Fjallalækjarsel, og nefnir prestur þar að auki Óttarstaði (með 2 manns), sem hvergi annarstaðar ern nefndir, og eigi heldur í brauðskýrslu prestsins 1839, hann nefnir þar á móti eigi Hjálmarvík sem bygt ból 1842.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 91. Flaga (hjál.) | . . | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 92. Brekkukot (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 93. Hjálmarvík (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 94. Grímstaðir (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 95. Kúðá (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 96. Svalbarðs-sel (hjál.) | . . | 0,40 | 2 | 1 l. |
| 97. Fjallalækjarsel (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 98. Bægistaðir (hjál.) | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 99. Syðra *Áland* † . . . . be. | 4 | . . . | . . | 2 l. |
| 100. Ytra Áland[10] † . . . . be. | 8 | 0,80 | $2\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 101. Laxárdalur[11] † . . . . be. | . . | 0,60 | $2\frac{1}{2}$ | 1 eig. |
| 102. Gunnarstaðir[12]. Möðruv. kl. e. . . . . . . . . . . | $23\frac{1}{6}$ | 0,80 | 2 | 1 l. |
| 103. Hvammur[13] † . . . . be. | . . | 0,60 | 2 | 1 eig. að $\frac{1}{2}$ j. og 2 l. |
| 104. Leirlækur . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 105. Hafursstaðir . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 106. Hvappur . . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 107. Kerastaðir[14] . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| **5. Sauðanes og Austur hreppur*.** | | | | |
| 108. Syðri Brekkur[1] . . . . be. | 8 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 109. Hallgilsstaðir[2] . . . . . be. | 12 | 0,40 | 2 | 3 l. |

10) Dýrleika þeim, sem talinn er á Álandi 1805 (áður er jörð þessi eigi talin til dýrleika) er skipt hér niður eptir sýslumanni á Syðra og Ytra Áland, sem sýslumaður og prestur nú kalla svo, en leigumáli sá, sem talinn er á Álandi 1760, er hér settur við Ytra Áland; Sjá athugas. við 107.

11) Jörð þessi er fyrst 1805 og nú hjá sýslumanni talin 12 h. að dýrleika.

12) 1805 er jörð þessi talin 12, en hjá A. M. 15 h. að dýrleika, og telur hann með henni eyðihjáleigur: Barð, Þýfi, Þórvík og Hávarðstaði.

13) Sýslumaður einn telur hér 12 h. dýrleika, og telur A. M. með jörðunni eyðihjáleigu, Hvamms-sel.

14) Jarðirnar 104—107 finnast eigi nefndar í jarðabókunum, en sýslumaður segir þær allar afbýli frá Syðra og Ytra Álandi (og áður stóls eign). Prestur telur enn fremur í Svalbarðs sókn (hreppi) Vatnsenda (með 6 manns), en eigi er bóls þessa getið af sýslumanni, né heldur í jarðabókunum.

*) Í jarðabókunum, og enn 1804—1805 eru jarðirnar 127—133 í hreppi þessum taldar með Skeggjastaða þingsókn (hreppi) í Norður-Múla sýslu og munu þessir bæir nú vera sá partur hreppsins, er sýslumaður í Norður Þingeyjar sýslu kallar Austur hrepp.

1) A. M. telur hér með eyðihjáleigu, Gríms-stekk, og segir frá dýrleika.

2) 1805 er jörð þessi talin 16 h., og telur sýslumaður nú 4 h. af þessum dýrleika á hjáleigunni.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 110. Túngusel . . . . . . . hjál | . . | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 111. Ytri Brekkur[3]. $\frac{1}{4}$ kc. $\frac{3}{4}$ be. | 8 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 112. Syðra Lón † . . . . . be. | 12 | 0,80 | 2 | 1 eig. og 1 l. |
| 113. Sauðanes[4] . . . . . benef. | 12 | 1,0 | 3 | prestur |
| 114. Litla Sauðanes (Sauðaneskot) } hjál. | . . | 0,60 | 2 | 2 l. |
| 115. Ás-sel } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 116. Höll } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 117. Hraunkot } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 118. Ytra Lón[5] . . Sauðan. kke. | 12 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 119. Stíflusel } . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 120. Grund } . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 121. Eldjárnstaðir[6]. Sauðan. kke. | 8 | 0,30 | $\frac{1}{2}$ | 2 l. |
| 122. Hlíð (Brattahlíð)[7] † . . be. | . . | 0,50 | 1$\frac{1}{2}$ | 2 l. |
| 123. Heiði[8] † . . . . . . . be. | . . | 0,100 | 3 | 2 l. |
| 124. Brimnes[9]. $\frac{1}{2}$ Múkaþv. kl. e., $\frac{1}{2}$ Sauðan. kke. . . . . . | 4 | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 125. Lækuistaðir[10] † . . . be. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 126. Höfði[11] . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 127. Skoruvík[12] . . . Hofs kke. | 8 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 128. Skálar . . . . . Hofs kke. | 8 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 129. Kumblavík . . . Hofs kke. | 8 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 130. Hrollaugstaðir[13] † . . be. | . . | 0,50 | 2 | 1 eig. |

3) $\frac{1}{4}$ jarðar þessarar var áður umboð sèr með Norðursýslu, og segir 1760, að sýslumaður gjaldi eptir 8 álnir vaðmáls; en undir hvaða umboð eign þessi nú heyri, skýrir sýslumaður eigi frá.

4) A. M. segir frá leigumála á Litla Sauðanesi sèr, en telur hinar hjáleigurnar í eyði, þó er Hraunkots eigi getið í jarðabókunum. 1805 segir, að eyðihjáleigan Nes (A. M. 50 al. lsk.) sè brúkuð frá Sauðanesi, og fengust þá 50 ℔ æðardúns á Sauðanesi.

5) A. M. telur Stíflusel eyðihjáleigu frá Ytra Lóni, og telur prestur það í brauðskýrslu sinni 4 h. að dýrleika, eins og Hól (116), en Grund segir hann þar að aldrei áður hafi verið bygð.

6) 1805 er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika.

7) Sýslumaður einn telur hèr 8 h. dýrleika. 8) Hèr sömuleiðis.

9) A. M. segir hèr frá dýrleika og leigumála Sýslumaður segir hálflenduna áður hafa verið eign Múkaþverár klausturs, en þó enn konúngs eign, enda finnst hún eigi talin meðal seldra konúngs jarða.

10) Sýslumaður einn segir hèr dýrleika 6 h. A. M. telur hèr með forna eyðihjáleigu, Fuglbergshús.

11) Sýslumaður og prestur einir nefna ból þetta, og telur sýslumaður það 2 h. að dýrleika.

12) 1804 segir, að á jörðu þessari og Skálum sè fugla- og fjaðratekja, og enn fremur um Skoruvík, að viðreki á Lánganesi heyri þessari jörð til, og sè það svo mikið, að eigi verði metið, en sumt af því fúni upp og sumt taki út aptur, sökum vanhirðíngar, og liggi þar, að sögn manna, nokkrir skipsfarmar af slíku timbri hálffúnu.

13) 1804 og nú hjá sýslumanni (en áður eigi) er jörð þessi talin

| | | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|---|
| 131. Selvík . . . . . . . . . | hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 132. Eiði[14] ÷ . . . . . . . | be. | . . | 1,0 | 2 | 2 eig. |
| 133. Fagranes . . . . . . . | be. | 12 | 0,80 | 1 | 2 eig. |

---

Um almennan leigumála í sýslu þessari skýrir sýslumaður þannig frá: að í *Keldunes hreppi* (þar voru eptir fólkstölulista prestsins, við árslokin 1842, 222 manns) sè jörðin Grásíða meðaljörð að stærð og í meðallagi leigð með 60 al. lsk. (30 ℔ af hvítri ullu og 30 ℔ tólgar) og 2 kúg., í *Skinnastaða hreppi* (207 m.) 12 hundraða jörð með 60 al. lsk. og 2 kúg., þareð leigumáli á þvílíkum jörðum í hreppnum megi heita þessi, þó nokkuð gángi hann upp og niður; í *Presthóla hreppi* (227 m.) jörðin Daðastaðir (meðaljörð að dýrleika) með 80 al. lsk. (10 ℔ af hvítri ullu og 20 pörum tvíbandssokka) og $1\frac{1}{2}$ kúg.; í *Svalbarðs hreppi* (266 m.) jörðin Hvammur (meðaljörð að dýrleika) að hálfu í meðallagi leigð með 60 al. lsk. í góðum landaurum og 1 kúg., og í *Sauðanes og Austur hreppi* (261 m.) jörðin Hlíð (meðaljörð að dýrleika) með 80 al. lsk. í góðum landaurum og 1 kúg.

Á bæjum þeim, sem að framan eru taldir, 133, eru, eptir skýrslu sýslumanns við árslokin 1843, 151 búendur, og af þeim 21, sem að nokkru eða öllu búa á sjálfs eign, og eptir fólkstölulistum presta við árslokin 1842 1183 manns; 1805 (og 1804, sjá athugas. við Sauðanes og Austur-hrepp) voru aptur á móti ból þau, sem nú eru talin með Norðurþíngeyjar sýslu (kon. úrsk. 17. Febr. 1841) en þá voru talin með Norður sýslu og Norður Múla sýslu (sjá nýnefnda athugas.) og þá voru bygð, 87 að samtöldu, og á þeim 88 búendur, og bjuggu ámeðal þessara 5 að nokkru eða öllu á sjálfs eign.

Í sýslu þessari eru 5 prestaköll:

1. *Garður í Kelduhverfi*, þ. e. bæirnir 1—27. Brauðið er metið 32 rd. 3 mk. 4 sk. Prestur telur nú töðuvöll staðarins með helztu jarðargæðum, þó stundum bregðist þar gras-

---

6 h. að dýrleika, og telur sýslumaður einn Selvík 2 h. að dýrleika, og er ból þetta aðeins nefnt af sýslumanni og presti, og þykir, eptir bæjaröð þeirra, líklegt, að það sè afbýli frá Hrollaugstöðum.

14) Her er dýrleiki talinn 1804 og nú hjá sýslumanni (áður eigi) 12 h. Jb. 1760 telur hèr með eyðihjáleigu, Eiðissel (sjá athugas. 13). 1804 segir, að hèðan sè þorskveiði, hákallaveiði og silúngsveiði, svo og viðreki (á $14\frac{1}{2}$ hest á ári), og sè helmíngur viðrekans Hóla dómkirkju, en helmíngurinn Skálholts dómkirkju eign; en um seinustu 50 ár hafi hèr rekið einn hval.

vöxtur; hann sè 18 dagsláttur að ummáli og gefi af sèr að jöfnuði 4 kúa fóður; en eingið sè lángt aðsóknar, vott, ógrasgefið og jafnan ónýtt, því í þerrisumrum skrælni og kulni grasrótin, en í vætusumrum náist eigi til grassins. Grasatekja á Reykjaheiði er, bæði vegna fólksfjölda þess, sem þángað sókti í »skipleysis-árunum», og líka af því, að hreindýrin eyða grösunum og troða þau niður, orðin svo lítil, að það nú eigi lengur launar kostnaðinn, að senda fólk á grasaheiði. Rekavið ber stundum að nokkurn á Garðsreka, í góðum rekaárum, en mjög sjaldan stórtrè. Sjóreiðar afli er svo sjaldgæfur og örðugur aðsóknar, að hann varla verður talinn til hlynninda. Af ítaki staðarins til beitar í Byrgis landi hefir prestur nú það eina gagnið, að hann á frjálst að reka vorlömb sín austur á Fleti til hagagaungu á sumardag, tolllaust. Staðar hjáleigan leigist með 1 kúg. og í lsk. 1 sauð veturgömlum, hestláni 1 dag til heyflutnings úr Lánghólma (í Víkíngavatns eingi), og vörzlu staðar-eingisins fyrir gripa ágángi; en kirkju-jörðin Austurgarður með 2 kúg. og í lsk. 1 sauðum veturgömlum og hestláni 1 dag úr Lánghólma. Frá Ási er mötugjald enn eð sama sem það var áður enn kirkjan þar var lögð niður, 12 fd. smjörs. Fasteignar tíund 129 f. Lausafjár tíund 146 f., heytollar 34, dagsverk 10 og offur með aukaverkum $21\frac{1}{3}$ rbd., allt að meðaltali í 5 ár. Af brauðinu leggjast fátækum presta ekkjum 36 sk. Sóknarmenn: 222.

2. *Skinnastaður í Axarfirði**, þ. e. bæirnir 28—52. Brauðið er metið 31 rd. 1 mk. 4 sk. Heimaland staðarins er sárlítið og fer jafnan mínkandi og í sand, og gengur skóglendið umhverfis sömuleiðis til grunna, en er að því leiti, sem eptir er, til skaða á ullarbirgðum. Staðar-hjáleigurnar eru leigðar þannig: Akur með 1 kúg. og 4 sauðum veturgömlum í lsk., Hafurstaðir (liggur við að eyðist af sandi) 1 kúg. og 5 sauðum veturgömlum, Akursel 1 kúg., 6 sauðum og 2 dagsláttum í lsk. og Staðarlón með 1 kúg. og í lsk. 6 sauðum veturgömlum og 2 dagsláttum, svo og nokkrum rekavið, er þar ber upp; en kirkjujörðin $\frac{1}{3}$ í Sævarlandi í þistilfirði (85) með $\frac{1}{3}$ kúg. og í lsk. 2 sauðum veturgömlum og 15 f. sem rekaleigu, en að $\frac{1}{16}$ hluta sem staðurinn á í »Raufarhafnar (56) eggveri» er presti svo lítill arður, að eign þessi varla er teljandi til hlynninda (100 eggja á ári, »og dún að því leiti

*) Frá Skinnastaða presti er fólkstölulisti sèr í lagi fyrir Möðrudals sókn, þ. e. bæina Möðrudal og Víðidal á Fjalli (3 býli, 20 manns), en hvorki telur prófastur í Þíngeyjar sýslunum fólkið á bæjum þessum með, nè heldur getur presturinn í brauðskýrslu sinni um tekjur sínar af Möðrudals kirkju eða Möðrudals sókn. Bæirnir verða þannig, einsog líka fólkið í sókninni, talið með Norður-Múla sýslu (131—132).

ómerkilegur»). Fasteignar tíund 110 f., lausafjár tíund 99 f., heytollar 27 og dagsverk 8. Af brauðinu leggjast fátækum presta ekkjum 36 sk. Sóknarmenn: 207.

3. *Presthólar á Melrakkasléttu*, þ. e. bæirnir 53—76. Brauðið er metið 26 rd. 2 mk. 2 sk. Hèr er alls eigi sagt frá ásigkomulagi prestsetursins, en Katastaðir eru bygðir með 2 smjörfjórðúnga og 3 sauða eptirgjaldi. »Af bænahúsinu á Ásmundarstöðum geldst ekkert». Fasteignar tíund 37 f., lausafjár tíund »jafnaðarlegast frá 5 til 6 rd.», heytollar 23 og dagsverk 6. Sóknarmenn: 227.

4. *Svalbarð í þistilfirði*, þ. e. bæirnir 77—107. Brauðið er metið 14 rd. 2 mk. 11 sk. Tún staðarins er með minna móti, varla í meðallagi grasgefið; eingi mjög erfitt og reitíngsamt, en þó nokkuð víðslægt; kúabeit slæm á sumrum, ef hlífa á slægjulandinu, en hagbeit á vetrardag betri enn í meðallagi, einkum fyrir sauðfè; »landsels-kópaveiði» nokkur á vorin, og trjáreki lítilfjörlegur í hörðum (hafísa) árum, en í góðum árum næstum enginn. Hermundarfell er bygt með 1 kúg 60 al. lsk., Hermundarfells-sel 20 al. lsk., Flaga (sem prestur telur 4 h. að dýrleika) 1 kúg. 40 al. lsk., Brekknakot (sem prestur telur 6 h. að dýrleika) 1 kúg. 50 al. lsk., Grímstaðir 20 al. lsk., Kúðá 1 kúg. 10 al. lsk., Svalbarðs-sel 1 kúg. 30 al. lsk., Fjallalækjarsel 1 kúg. 20 al. lsk. og Bægistaðir 40 al. lsk., en Hjálmarvík er í brauðskýrslu prestsins 1839 talin óbygð. Fasteignar tíund 76 f., lausafjár tíund 70 f., heytollar 60 og dagsverk 21. Sóknarmenn: 266.

5. *Sauðanes á Lánganesi*, þ. e. bæirnir 108—133. Brauðið er metið 21 rd. 6 sk. Tún er á Sauðanesi grasgefið, þó lítið sè; eingja heyskapur allur »í flóum» og illt að honum að vinna, vegna foræða og torfæra fyrir menn og skepnur, trjáreki sæmilegur, þegar hann gefst; sjóreiðar afli, þá vel vorar; kópaveiði nokkur, þá vel lætur í ári, og æðavarp í betra lagi, að því sem títt er á Norðurlandi. Ítök kirkjunnar eru: selför undir Halafelli og Fiskilæk, geldfjárrekstur í Fossdal, lítill æðavarpshólmi í Hólmavatni hjá Hlíð, fuglberg millum Kambgjár og Stórasigs í Skoruvíkurbjargi, og hvalreki hálfur á Brimnesi, en allur fyrir landi staðarins og hinna kirkjujarðanna. Sauðaneskot er bygt með 1 kúg. og í lsk. 30 al. og 1 teigslætti, Ársel 1 kúg. 40 al. lsk., Hóll 1 kúg. 30 al. lsk. og 1 teigslætti, Hraunkot 30 al. lsk., Ytra Lón 1 kúg. 60 al. lsk. og 1 teigslætti, Stíflusel 1 kúg. 40 al. lsk., Grund 30 al. lsk., Eldjárnstaðir $1\frac{1}{2}$ kúg. 80 al. lsk. og Brimnes hálft með $\frac{1}{2}$ kúg. og 20 al. lsk. Fasteignar tíund 48 al., lausafjár tíund $44\frac{1}{2}$ al., »heytollar 62» og dagsverk 16. Af brauðinu greiðast árlega 34 sk., og getur prestur þess, að það, síðan Hóla stóls jarðir

voru seldar, hefir mist 20 al. árstekju, sem því áður guldust af umboðsmanni stólsins. Sóknarmenn: 261.

# VI. Norður Múla sýsla*).

## 1. Skeggjastaða hreppur.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 1. Gunnólfsvík . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 2. Fell[1] . . . . . . . . . be. | 8 | 0,80 | 1 | 2 l. |
| 3. Sóleyjarvellir[2] . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 4. Saurbær[3] . . . . . Hofs kke. | 6 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 5. Miðfjarðarnes[4] . . . . . be. | 8 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 6. Miðfjarðarnes-sel. . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 7. Kverkártúnga[5] . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 8. Miðfjörður[6] . . . . . . . be. | 4 | 0,40 | 1 | 2 l. |
| 9. Djúpilækur[7] . . . . . . . be. | 8 | 0,50 | ½ | 1 l. |
| 10. Gunnarstaðir . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 11. Þorvaldstaðir . . . . . . be. | 8 | 0,30 | . . | 2 l. |
| 12. Skeggjastaðir[8] . . . . benef. | 12 | 1,0 | 3 | prestur. |
| 13. Barð } . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 14. Dalhús } . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 15. Gæsagil } . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 16. Bakki[9] . . . . . . . . . be. | 12 | 0,60 | 1 | 1 eig. |
| 17. Nýibær . . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 18. Höfn . . . . . . . . . . be. | 12 | 0,60 | . . | 1 eig. |
| 19. Viðvík[10] . . . . . Hofs kke. | 12 | 1,0 | 1 | 1 l. |

*) Hreppa skil og nöfn í sýslu þessari eru síðan 1804 orðin öll önnur enn þau voru þá og áður.

1) 1804 er jörð þessi talin aðeins 6 h. að dýrleika.

2) Ból þetta, sem eigi er nefnt í jarðabókunum, telur sýslumaður hjáleigu, en hvort heldur frá Gunnólfsvík eða Felli, verður eigi séð.

3) Í jb. 1760 er jörð þessi talin Refstaðar kirkju eign. Sjá 64.

4) Sýslumaður telur 2 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, sem eigi er nefnd í jarðabókunum.

5) Sýslumaður segir jörð þessa nýbýli, enda er hennar eigi getið 1760 eða 1804.

6) 1696 er jörð þessi talin 6 h. að dýrleika.

7) Sýslumaður og prestur nefna hjáleiguna einir.

8) Hjáleigna þeirra, sem hér eru taldar eptir sýslumanni og presti, er hvorki getið 1760 né 1804.

9) Um Nýjabæ gegnir sama máli.

10) 1760 er hér með talin eyðihjáleiga Rauðubjörg, en 1804 er hún talin með Höfn.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 2. Vopnafjarðar hreppur. | | | | |
| 20. Strandarhöfn[1] . . . . . be. | 12 | 1,0 | 1 | 1 l. |
| 21. Ljósaland . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 22. Hámundarstaðir[2] . . . . be. | 12 | 0,60 | 1 | 1 eig. |
| 23. Hvammsgerði . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 24. Hróaldstaðir, Vopnaf. hr. fáte. | 6 | 0,60 | $\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 25. Áslaugarstaðir[3] . . . . . be. | 4 | . . . | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 26. þorvaldstaðir[4]. . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 27. Hamar[5] . . . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 28. Lýtíngstaðir[6] . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 29. Ytri-nýpur . . . . . . . be. | 14 | 1,0 | $1\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 30. Fremri-nýpur . . Hofs kke. | 6 | 0,30 | . . | 1 l. |
| 31. Skógar . . . . . . Hofs kke. | 8 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 32. Torfastaðir[7] . . . . . . . be. | 30 | 1,0 | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 33. Breiðamýri. . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 34. Ljótstaðir[8] . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | $\frac{1}{2}$ | 2 eig. og 1 l. |
| 35. Vakurstaðir[9] . . . . . . be. | 12 | 0,80 | . . | 1 eig. að $\frac{1}{4}$ j. |
| 36. Ytrihlíð. $\frac{1}{4}$ Vopnaf. hr. fáte. $\frac{3}{4}$ be.. . . . . . . . . . . | 12 | 1,0 | 1 | 1 eig. að $\frac{3}{4}$ j. |
| 37. Fremrihlíð[10] . . . . . . be. | 6 | . . . | $\frac{1}{2}$ | 1 l. |
| 38. Rjúpnafell[11] . . . Hofs kke. | 8 | . . . | . . | 2 l. |
| 39. Haukstaðir[12]. . . Hofs kke. | 4 | 0,40 | 1 | 1 l. |

1) 1760 er hér með talin eyðihjáleiga, Purkugerði.

2) Hjáleigan er 1760 talin í eyði, en nú telur sýslumaður 4 h. af dýrleikanum á henni. 1804 segir, að hér reki við á 3 hesta árlega, og eigi jörðin sjálf fjórðúng, en hitt kirkjurnar á Hofteigi, Kirkjubæ og Refstað, og svo jörðin Ljótstaðir.

3) 1696 er hér talin 40 al. lsk. 1 kúg., en 1804 er jörðin talin 10 h. að dýrleika ásamt með eyðibólum, Leifstöðum (1696: 10 h. að dýrleika, 1760: 40 al. lsk. 1 kúg.) og Lýtíngstöðum (sjá 28).

4) Sýslumaður segir jörð þessa, sem hann og prestur einir nefna, nýbýli og 6 h. að dýrleika.

5) þessa jörð sömuleiðis nýbýli og 4 h. að dýrleika.

6) Ból þetta er að líkindum eð sama, sem er getið í athugas. 3, og eigi fyrri enn 1804, en sýslumaður telur það nú 4 h. að dýrleika.

7) Sýslumaður telur 6 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, en 1696 er hún talin sér 2 h. með 20 al. lsk. 1 kúg. og heimajörðin ser í lagi 28 h. að dýrleika. 1760 er og nefnd Torfastaðahjáleiga, í eyði.

8) 1760 og 1804 er hér með talin eyðihjáleiga, Borgarstekkur, og er hálf heimajörðin 1760 líka talin í eyði, en 1804 er hún talin aðeins 16 h. að dýrleika.

9) 1804 segir, að eyðijörðin Gröf (1760: 6 h. að dýrleika, 1696: 60 al. lsk. 1 kúg.) sé yrkt frá Vakurstöðum, og er hún enn eigi talin bygð af presti eða sýslumanni.

10) 1696 er leigumáli hér talinn 60 al. lsk. 1 kúg.

11) 1696 er leigumáli hér talinn 60 al. lsk. 2 kúg.

12) Sýslumaður einn telur jörð þessa, sem hann og prestur nefna

| | | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|---|
| 40. Desjarmýri | hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 41. Búastaðir | be. | 12 | 0,40 | . . | 1 l. |
| 42. Nyrðra Skálanes[13] | be. | 8 | . . . | ½ | 1 l. |
| 43. Leiðarhöfn[14] | be. | 4 | 0,30 | ½ | 2 l. |
| 44. Eystra Skálanes[15] | be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 45. Ásbrandstaðir[16] | be. | 30 | 1,20 | 2 | 2 l. |
| 46. Vatnsdalsgerði | hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 47. Fell | be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 48. Hof[17] | benef. | . . | 1,0 | 10½ | prestur |
| 49. Teigur | be. | 8 | 0,60 | ½ | 1 l. |
| 50. Bustarfell[18] | be. | 20 | 2,0 | . . | 1 eig. |
| 51. Foss | hjál. | 6 | . . . | . . | 2 eig. |
| 52. Brúnahvammur | hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |
| 53. Einarstaðir | be. | 10 | 0,80 | . . | 1 l. |
| 54. Þorbrandstaðir[19] | be. | 12 | . . . | . . | 1 l. |
| 55. Sírekstaðir[20] | Hofs kke. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 56. Hraunfell[21] | Hofs kke. | 4 | . . . | 1 | 1 l. |
| 57. Sunnudalur[22] | be. | 8 | . . . | 1 | 1 l. |
| 58. Gnýstaðir | hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |
| 59. Borgir | hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |

Haukstaði, en jarðabækurnar Haugstaði, ásamt með hjáleigunni, 6 h. að dýrleika, en hjáleigunnar er eigi fyrri getið, né heldur í brauðskýrslu prestsins 1839. 1804 segir, að Hofs kirkja eigi hér afrett. 13) 1696 er leigumáli hér talinn: 80 al. lsk. 1 kúg.

14) 1804 fengust hér 17 ℔ æðardúns.

15) 1760 og 1804 eru hér með taldar eyðihjáleigur, Steinn og Linbær, og segir 1804, að verzlunarstaðurinn Vopnafjörður standi í landi jarðarinnar og sé þaðan goldin grunnleiga 60 al. á landsvísu.

16) Sýslumaður telur 10 h. af dýrleikanum á hjáleigunni. 1804 segir, að hér liggi fyrir landi svo nefndir Kaupstaðarhólmar, sem heyri Hofs kirkju til, og fengust þar þá 8 ℔ æðardúns. Hjáleigan er talin í eyði 1760.

17) 1760 er eyðihjáleiga, Þorsteinstaðir, talin hér með. 1804 er Hof talið 12 h. að dýrleika, en prestur telur það nú í brauðskýrslu sinni 1839, ásamt með eyðibólinu Hofsborg (1760: 4 h. að dýrleika), sem hafi legið í eyði síðan 1784, 16 h. að dýrleika. Í jb. 1760 er getið Bjarnareyjar, sem sé eign Hofs kirkju, og er hún 1696 talin 6 h. að dýrleika með 60 al. lsk., en eigi finnst hennar getið annarstaðar, eða skýrt frá, að þar sé eða hafi verið bygð.

18) 1760 er jörð þessi öll talin 30 h. að dýrleika, með lsk. þeirri, sem hér stendur við heimajörðina, en dýrleika þessum er hér skipt niður á hana, Foss (sem 1760 var í eyði) og Brúnahvamm (sem fyrst er nefndur 1804, þá sem eyðihjáleiga) eptir sýslumanni.

19) 1696 er hér talin 90 al. lsk. 1 kúg.

20) Jörð þessi er fyrst nefnd 1804, og þá, eins og nú hjá sýslumanni og í brauðskýrslu prestsins 1839, talin 6 h. að dýrleika.

21) Jörð þessi er nú af öllum þeim sömu talin 6 h. að dýrleika.

22) Hjáleigunnar Borga geta prestur og sýslumaður einir, en

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 60. Hagi[23] . . . . . . . . . be. | 12 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 61. Guðmundarstaðir . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 62. Hrappstaðir . . . . . . . be. | 12 | 0,100 | 1 | 2 l. |
| 63. Egilstaðir[24]. . . . . . . be. | 16 | . . . . | . . | 1 l. |
| 64. Refstaðir[25] . . . . Hofs kke. | . . | 0,90 | 3 | 2 l. |
| 65. Svínabakkar[26] . . . . . be. | 12 | . . . . | . . | 2 l. |
| 66. Rauðshólar[27] . . Hofs kke. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 67. Skjalþíngstaðir . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 68. Syðrivík[28]. 6 h. Vopnaf. fáte. 8 h. be. . . . . . . . . . | 14 | 1,20 | ½ | 2 l. |
| 69. Krossavík[29]. . . . . . . be. | 30 | . . . . | . . | 2 eig. og 2 l. |
| 70. Hellisfjörubakkar . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 71. Vindfell . . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 72. Eyvindarstaðir . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 73. Böðvarsdalur . . . . . . be. | 18 | 1,0 | . . | 2 l. |
| 74. Fagridalur[30] . . . Hofs kke. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 3. Túngu hreppur. | | | | |
| 75. Stóribakki[1] . . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 1 | 1 eig. og 1 l. |

Gnýstaðir eru fyrst 1804 taldir, þá sem eyðihjáleiga, með Sunnudal, sem 1760 er sagður 16 h. að dýrleika, og er dýrleika þessum nú skipt niður á hann og hjáleigurnar eptir sýslumanni. 1696 er á Sunnudal talin 1 h. lsk.

23) Sýslumaður og prestur nefna hjáleiguna einir, og telur sýslumaður á henni helming dýrleikans.

24) 1804 er hèr með talin eyðihjáleiga, Gerði. 1696 er leigumálinn talinn 1 h. lsk. 1½ kúg.

25) Jörð þessi, sem áður var beneficium, er 1804 og í brauðskýrslu prestsins 1839 talin 9 h. að dýrleika.

26) 1696 er hèr talin 90 al. lsk. og 1 kúg.

27) Jörð þessi er 1804 talin 4 h. að dýrleika, og lá hún þá í eyði og hafði, eptir brauðskýrslu prestsins 1839, verið í eyði um meir enn 300 ár, unz hann bygði hana upp; hún var áður eign Refstaða kirkju, og er nú af sýslumanni talin aðeins 3 h. að dýrleika.

28) 1804 er jörð þessi talin 18 h. að dýrleika, og þá bygð hjáleiga hèðan, Syðrivíkurhjáleiga, sem áður aðeins er getið í eyði, en nú hvorki hjá sýslumanni eða presti.

29) 1804 er Krossavík öll talin aðeins 30 h. að dýrleika, og þá með henni Ytri- og Fremri-hjáleiga (1760: 40 al. lsk. á hvorri um sig). Hjáleigan, sem jb. 1760 nefnir Hellisfjörubakka, en prestur Bakkahjáleigu (sýslumaður nefnir eigi hjáleiguna, en telur 5 búendur á allri Krossavík, prestur 4 á Krossavík sjálfri, en 1 á hjáleigunni), var þá í eyði og er eigi nefnd 1804. 1696 er lsk. á torfunni talin 2 h. 80 al. og kúg. 8.

30) Jörð þessi var áður kirkjujörð frá Refstöðum (64), og var meðal enna svo kölluðu Stiptisjarða, sem voru lagðar fátækum prestum í Skálholts stipti með tilsk. 3. Apríl 1674, og var hún þá talin 10 h. að dýrleika (sjá M. Ketils. III. bls. 171—173).

1) Sýslumaður telur nú Stórabakka sèr 9, en Blöndugerði sèr 1½

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 76. Blöndugerði . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 77. Litlibakki . . . . . . . . be. | 16 | 0,60 | 1 | 1 eig. og 1 l. |
| 78. Hrærekslækur. . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 79. Galtastaðir ytri. Kirkjub. kke. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 80. Bót[2]. . . . . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 1 | 2 eig. |
| 81. Heiðarsel . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 82. Rángá. . . . . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 2 | 2 eig. að 6 h. 44 al. |
| 83. Vífilstaðir[3] . . . . . . . be. | 20 | 1,100 | 4½ | 1 l. |
| 84. Heykollstaðir } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 85. Dögunargerði } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 86. Straumur[4]. . Desjarm. kke. | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 87. Litla Steinsvað . . . . . be. | 12 | 1,0 | 2 | 1 eig. og 1 l. |
| 88. Galtastaðir fremri. Kirkjub. kke. . . . . . . . . . . . | 12 | 1,0 | 3 | 1 l. |
| 89. Kleppjárnstaðir[5] . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 90. Brekka[6]. . . . . . . . . ke. | 12 | 1,0 | 1½ | 2 l. |
| 91. Brekkusel . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 92. Hallfreðarstaðir[7] . . . . be. | 20 | 1,80 | 2 | 1 eig. og 1 l. |
| 93. Hallfreðarstaðahjáleiga } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 94. Fremrasel } hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 95. Kirkjubær[8] . . . . . benef. | . . | 1,40 | 13½ | prestur |
| 96. Gunnhildargerði. . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 97. Nefbjarnarstaðir. Kirkjub. kke. | 8 | 1,0 | 4½ | 2 l. |
| 98. Geirastaðir . . Kirkjub. kke. | 6 | 0,60 | 3 | 1 l. |
| 99. Húsey . . . . Kirkjub. kke. | 16 | 1,40 | 4 | 1 l. |

h. að dýrleika, 1804 aptur á móti er það talið 3 h. sér í lagi, og með því eyðihjáleigan Hvamms-sel (smbr. 123).

2) Sýslumaður telur 4 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, en 1696 er jörðin Bót talin aðeins 16 h. að dýrleika.

3) Sýslumaður telur nú Vífilstaði sér 10, en hjáleiguna hvora um sig 6 h. að dýrleika.

4) Jörð þessi er í jb. 1760 talin meðal stiptis jarða, en eigi er hennar getið meðal þeirra í tilskip. 3. Apríl 1674, smbr. 74.

5) 1804 segir, að milli Kleppjárnstaða og Brekku liggi þrætuland nokkurt, og fáist þar 10 hestar útheys.

6) Í jb. 1760 er jörð þessi »með norður-parti Múla sýslu», en nú segir sýslumaður jörðina lagða sýslumanns embættinu í Suður Múla sýslu.

7) 1804 eru Hallfreðarstaðir og Hallfreðarstaðahjáleiga, hvor jörðin um sig, talin 8 h. að dýrleika, og með þeim viðreka-ítak fyrir Ketilstaða landi, en sýslumaður telur báðar þessar jarðir saman 16 h. að dýrleika, en Fremrasel (einsog 1804) 4 h. að dýrleika.

8) Prestur í brauðskýrslu sinni telur hjáleiguna 4 h. að dýrleika.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 4. **Jökuldals og Hlíðar hreppur***. | | | | |
| 100. Ketilstaðir[1]. Hlíðarhr. fáte. | . . | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 101. Bakkagerði } . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 102. Eyjasel } . . . . . hjál. | . . | 0,40 | . . | 1 l. |
| 103. Torfastaðir . . Skriðukl. j. | 16 | 1,40 | 4 | 1 l. |
| 104. Fagrahlíð[2] . . . . . . . be. | 5 | 0,100 | 3 | 1 l. |
| 105. Hlíðarhús } . . . . . . hjál. | 2½ | . . . | . . | 1 l. |
| 106. Hnitbjörg } . . . . . . hjál. | 2½ | . . . | . . | 1 eig. að 1¼ h. og 1 l. |
| 107. Sleðbrjótur[3] . . . . . . be. | 30 | 2,60 | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 108. Más-sel } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 109. Sleðbrjóts-sel } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 110. Saurstaðir (Surtstaðir) . be. | 12 | 1,0 | 2½ | 1 l. |
| 111. Hallgilsstaðir . . . . . be. | 18 | 1,60 | . . | 1 eig. |
| 112. Hrafnabjörg . . . . . . be. | 18 | 1,60 | 1 | 1 l. |
| 113. Fossvellir[4]. Hlíðarhr. fáte. | . . | 1,0 | 3½ | 1 l. |
| 114. Haukstaðir . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 115. Hvanná[5] . . Hofteigs kke. | 12 | 1,0 | 2 | 3 l. |
| 116. Hofteigur* . . . . . benef. | . . | 1.0 | 11½ | prestur |
| 117. Hjarðarhagi . . . . . . be. | 10 | 0,100 | 2 | 1 eig. að 6 h. |
| 118. Skjöldólfstaðir . . . . . be. | 20 | 1,40 | 1 | 1 l. |
| 119. Arnórstaðir . Hofteigs kke. | 8 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 120. Hákonarstaðir . . . . . be. | 16 | 1,40 | 1 | 1 eig. og 1 l. |
| 121. Eiríkstaðir[6]. Skeggjast. kke. | 12 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 122. Brú[7] . . . . . . . . . . be. | 20 | . . . | . . | 2 l. |

*) Í enni gömlu Fossvalla (1804) eða Trèbrúar- (1760) -þíngsókn segir í registri til jb. 1760 frá Fossgerði, Arnórstöðum, Kolmúla (verbúð frá Ketilstöðum), Reiðhöfðaseli, Ásmundarseli og Rafnkelsdal (Valþiófstaðar kirkju jörð, 1696: 6 h. að dýrleika, 60 al. lsk. 1 kúg.), sem eigi eru nefndar seinna. Sjá að öðru leiti athugasemd 14 í Fliótsdals hreppi, um Merki.

1) 1696 og 1804 er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika. Jb. 1760 telur enn fremur Landsenda, hjáleigu í eyði, frá Ketilstöðum.

2) 1760 er jörðin öll talin 10 h., með leigumála þeim, sem hèr stendur við heimajörðina, en dýrleika þessum er hèr skipt niður eptir sýslumanni.

3) 1804 og nú hjá sýslumanni eru 6 h. af dýrleikanum talin á Sleðbrjóts-seli. Sýslumaður og prestur einir nefna Más-sel sem hjáleigu hèðan, og telur sýslumaður það í dýrleika heimajarðarinnar.

4) 1696 og 1804 er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika, og með henni 1760 og 1804 eyðihjáleigan Fossvallasel.

5) Er í jb. 1760 talin meðal »stiptisjarðanna», og 1674 20 h. að dýrleika (sjá athugas. við 74).

*) Prestur einn telur Hofteig 12 h. að dýrleika, í brauðskýrslu sinni.

6) 1760 er jörð þessi talin meðal »stiptisjarðanna», og 1674 20 h. að dýrleika (sjá athugas. við 74).

7) 1696 er hèr talin 1 h. 8 al. lsk. og 2 kúg.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 123. Gil[8] . . . . . . . . . . be. | 6 | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 124. Skeggjastaðir[9] . . . . . be. | 12 | 1,0 | 2½ | 1 eig. og 1 l. |
| 125. Teigasel . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 126. Knefilsdalur[10] . . . . . be. | 30 | 2,60 | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 127. Klaustursel[11]. Skriðukl. e. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 128. Brattagerði[12]. Skriðukl e. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 129. Vaðbrekka[13]. Valþjófst. kke. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 130. Aðalból[14]. Valþjófst. kke. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 131. Möðrudalur á Fjalli[15]. † be. | 12 | 0,80 | . . | 2 eig. |
| 132. Víðidalur . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 5. Fellna hreppur. | | | | |
| 133. Fjallsel . . . . . . . Áskke. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 134. Egils-sel[1] . . . . . . . be. | . . | . . . | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 135. Staffell[2] . . . . . . . . be. | 12 | 1,20 | 2½ | 1 eig. |

8) 1804 er hér með talin eyðihjáleiga, Hvammsel (sjá 75). Sýslumaður einn telur jörðu þessa 8 h. að dýrleika.

9) 1804 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin bænda eign, en 1760 meðal »stiptisjarðanna» (1674: 20 h. að dýrleika, sjá 74); og verður eigi séð, hvernig hún þannig hefir verið skilin frá Skriðu klaustri, án þess að vera lögð fátækum prestum í Skálholts stipti, einsog ákveðið var 1674. Sýslumaður og prestur einir nefna hjáleiguna.

10) 1760 er hér með talin eyðihjáleiga, Gagurstaðir, og segir 1804, að þar sé afrétt frá Hnefilstöðum.

11) Jörð þessi hefir áður verið talin í Valþjófstaðar (nú Fljótsdals) hreppi og 1760 sem hjáleiga frá klaustrinu, en eptir 1804 litur út, að það sé orðin jörð sér í lagi, og er hún í úttekt nokkurri frá 1828 og í annari frá 1842 talin 6 h. að dýrleika, og undir hana beit á Rana, afrétt Fljótsdælinga, sem þar í er talin 2 h.

12) Með þessu nafni verður ekkert annað ból fundið í sýslunni enn eyðihjáleiga, sem 1760 og 1804 er talin með Rafnkelstöðum (154).

13) Jörð þessi finnst eigi nefnd fyrr enn 1804, en í brauðskýrslu prestsins 1839 er hún talin 6 h. að dýrleika.

14) Um þessa jörð er að öllu leiti sama að segja, og eru báðar jarðir þessar 1804 taldar í Valþjófstaðar (nú Fljótsdals) hreppi. Sjá brauðskýrslu Valþjófstaðar.

15) Möðrudalur á Fjalli er í jb. 1760 talinn sem beneficium, 1696 með 1 h. lsk. 10¼ kirkjukúgildi (op. br. 31. Mai 1788: 12 h. að dýrleika), og er Víðidals svo og Kjólstaða aðeins getið í registri til jb. 1760, en 1804 beggja sem hjáleigna frá Möðrudal; nú aptur á móti getur sýslumaður og prestur (á Skinnastöðum í Norðurþingeyjar sýslu í fólkstölulistanum) eigi Kjólstaða. Að kirkjunni á Möðrudal, síðan 1716, hefir verið þjónað af ymsum prestum í nágrenninu, sést af Fèlagsritunum, XI. bls. 12—13, og kvað presturinn á Skinnastöðum nú hafa þjónað þar í mörg ár. Með kon. úrsk. 15. Mai 1793 (afsalsbrèf 8. Septbr. 1798) er Möðrudalur með Víðidal og Kjólstöðum seldur fyrir 180 rd., sem Skálholts stóls jörð.

1) Þessarar jarðar er eigi getið í jb. 1760 (nema í registrinu), en sýslumaður telur hana bænda eign og 4 h. að dýrleika.

2) 1804 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 8 h. að dýr-

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 136. Hafrafell. ½ Áskke., ½ be. | 18 | 1,0 | 1 | 1 eig. að 6½ h. og 1 l. |
| 137. Urriðavatn[3] . . . . . . be. | 20 | 1,80 | 1½ | 1 eig. að 6 h. |
| 138. Skógargerði } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 139. Kálfsnesgerði } . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 140. Ekkjufell[4] . . . . . . . be. | 20 | 1,80 | 2½ | 2 l. |
| 141. Ekkjufells-sel . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 142. Kross . . . . . . . . Áskke. | 6 | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 143. Setberg . . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | . . | 1 l. |
| 144. Meðalnes[5] . . . . . . . be. | 16 | 2,60 | 5½ | 1 eig. og 1 l. |
| 145. Birnufell { . . . . hjál. | 10 | . . . | . . | 2 eig. |
| 146. Hreiðarstaðir { . . . . hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |
| 147. Ormarstaðir[6] . . . . . be. | 30 | 1,80 | 1 | 2 eig. að 16h. |
| 148. Rifsmýri . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 eig. |
| 149. Ás[7] . . . . . . . . . benef. | 14 | 1,80 | 2½ | prestur |
| 150. Hof . . . . . . . . . . be. | 20 | 1,20 | 2 | 1 l. |
| 151. Skeggjastaðir[8] . . . . . be. | 40 | 3,40 | 8 | 2 l. |
| 152. Gata { . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 153. Hrafnsgerði { . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 6. Fljótsdals hreppur. | | | | |
| 154. Rafnkelstaðir[1], Skriðu kl. e. | . . | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 155. Víðivellir ytri[2] . . . . be. | 50 | 4,20 | . . | 1 eig. |

leika. 1760 er hér með talin hjáleiga, Staffells-sel, sem 1804 sèr í lagi er kölluð 4 h. að dýrleika, en eigi er hennar nú getið af sýslumanni nè prestum.

3) Sýslumaður telur Skógargerði (sem líka er nefnt 1760 og 1804, en Kálfsnesgerði eigi fyrr enn nú) 4 h. úr heimajörðunni.

4) Sýslumaður telur 4 h. af dýrleikanum á hjáleigunni.

5) 1760 er Meðalnes allt talið 30 h. að dýrleika, með leigumála þeim, sem hér er settur við heimajörðina, en dýrleika þessum er skipt hèr niður eptir sýslumanni; 1804 aptur á móti er Meðalnes sèr talið 18, og Birnufell sèr 8 h. að dýrleika, og er Hreiðarstaðaland þá haft til beitar frá báðum.

6) Sýslumaður telur 6 h. af dýrleikanum á hjáleigunni, sem eigi er talin bygð 1804; en þar á móti »Ormarstaðahjáleiga», sem hvorki prestur nè sýslumaður nú nefna, og eigi heldur er nefnd áður. Prestur nefnir að vísu bólið Hlíðarsel á milli Ormarstaða og Rifsmýrar, en þareð þess hvergi annarstaðar finnst getið, er því hèr sleppt.

7) 1760 og 1804 er hèr með talin hjáleiga, Sigurðargerði, sem nú eigi er getið af sýslumanni eða presti, nè heldur Ás-sels, sem líka er nefnt í registri 1760. Smbr. Ás brauðskýrslu.

8) Dýrleika eða leigumála á hjáleigunum, sem báðar eru taldar 1760 og 1804, er hvergi getið.

1) 1804 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin 12 h. að dýrleika. 1760 eru 2 eyðihjáleigur, Brattagerði (128) og Hrólfsgerði, taldar hèr með.

2) 1760 og 1804 er hèr að auki talin eyðihjáleiga, Hlíðarhús.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 156. Klúka . . . . . . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 157. Sturlaflötur. Skriðu kl. e. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 158. Víðivellir fremri[3]. Skriðu kl. e. . . . . . . . . . | . . | 1,20 | 2½ | 1 l. |
| 159. Víðivallagerði . . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 160. Glúmsstaðir . . . . . . be. | 20 | 1,30 | 2 | 1 eig. |
| 161. Þorgerðarstaðir[4]. Valþjófst. kke. . . . . . . . . . . | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 162. Arnhallstaðir[5]. Valþjófst. kke. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 163. Lánghús[6] . Valþjófst. kke. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 164. Kleif[7] . . . Valþjófst. kke. | . . | 0,40 | 1 | 1 l. |
| 165. Egilstaðir[8]. Valþjófst. kke. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 166. Þuríðarstaðir[9]. Valþjófst. kke. | . . | 0,50 | 1 | 1 l. |
| 167. Valþjófstaður[10] . . benef. | . . | 0,96 | 24 | prestur |
| 168. Hóll . . . . . . . . . hjál. | . . | . . . . | . . | 1 l. |
| 169. Skriðu klaustur[11] . . . . . | . . | 1,40 | 6½ | 2 l. |
| 170. Bessastaðir[12]. Skriðu kl. e. | 30 | 1,40 | 2 | 1 l. |

3) 1696 er dýrleiki á heimajörðunni sèr talinn 12, og á Víðivallagerði sèr í lagi 6 h., en nú telur sýslumaður báðar jarðirnar saman 14 h. að dýrleika. 1804 er Víðivallagerði, þá þó talin hjáleiga, metin til hærri dýrleika enn Víðivellir fremri.

4) 1696 og 1804 er jörð þessi talin 8 h. að dýrleika.

5) Þessi jörð sömuleiðis. 6) Þessi jörð sömuleiðis 6 h. að dýrleika.

7) Þessi jörð sömuleiðis 4 h. að dýrleika.

8) 1804 (en hvergi annarstaðar) er jörð þessi talin hjáleiga frá Þuríðarstöðum. Prestur einn í brauðskýrslu sinni 1839 telur hana með eyðibólinu Auraseli (sem aðeins finnst nefnt í reg. til jb. 1760) 8 h. að dýrleika.

9) 1696 og 1804 (þá með Egilstöðum) er jörð þessi talin 18 h. að dýrleika, en prestur einn telur hana í brauðskýrslu sinni 1839 6 h. að dýrleika.

10) 1760 eru hèr að auki taldar hjáleigur með Valþjófstað, Garðar og Hvammur, og voru Garðar bygðir 1804, en Hvammur talinn með staðnum. Prestur einn, í brauðskýrslu sinni 1839, telur Hól, sèr í lagi, 3 h. að dýrleika. 1696 eru kúgildi talin 5¼ á staðnum, og staðurinn þá og 1804 9¼ h. að dýrleika.

11) 1696 er jörð þessi með Hantónni talin 12 h. að dýrleika, lsk. 1 h. og kúgildin 20¼, og er Hantó 1760 og 1804 talið með klaustrinu, og þar sèr í lagi 1760 40 al. 1 kúg. Eptir kon. úrsk. 1542 (M. Ketils. II. bls. 236 og 247) átti að setja barna skóla á Skriðu klaustri, smbr. tilskip. 29 Mai 1744.

12) Jb. 1760, sem telur dýrleika á allri eigninni saman, segir þó frá leigumála á heimajörð og hjáleigum, hverri um sig; sýslumaður aptur á móti telur 36 h. dýrleika á allri torfunni, enda eru í úttektum, 1828 og 1842, Bessastaðir taldir 16, Bessastaðagerði 8, Melar 6, og Hamborg 6 h. að dýrleika sèr í lagi; þá segir og, að Breiðamýri hafi verið brúkuð frá klaustrinu um manna minni, en þó er þess getið, að Bessastaðir hafi stundum haft hana og goldið eptir 40 al. lsk., og skipar amtmaður 1828, að hún skuli hverfa undir

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 171. Bessastaðagerði } . . . hjál. | . . | 0,80 | 1 | 1 l. |
| 172. Melar | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 173. Hamborg | . . | 0,60 | 1½ | 1 l. |
| 174. Brekka[13] . . Skriðu kl. e. | 30 | 1,40 | 3 | 3 l. |
| 175. Brekkugerði { . . hjál. | . . | 0,100 | 2 | 1 l. |
| 176. Brekkugerðishús | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 177. Arneiðarstaðir[14], ¼ Valþjófst. kke., ¾ Fljótsd. hr. fáte. | 30 | 2,20 | 3 | 1 l. |
| 178. Geitagerði } . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 179. Merki | . . | . . . | . . | 1 l. |
| **7. Hjaltastaða hreppur.** | | | | |
| 180. Hreimstaðir . . . . . . be. | 16 | 1,40 | 2 | 1 eig. |
| 181. Hrjótur . . . Skriðu kl. e. | 6 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 182. Áuastaðir . . Skriðu kl. e. | 6 | 0,60 | 2 | 1 l. |
| 183. Rauðholt . . . Vallan. kke. | 6 | 0,60 | 2 | 2 l. |
| 184. Hjaltastaðir[1] . . . . benef. | . . | 1,0 | 4 | prestur. |
| 185. Svínafell . . . . . . . hjál. | . . | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 186. Kórekstaðir[2] . . . . . fáte. | . . | 1,40 | 4 | 1 l. |
| 187. Kórekstaðagerði . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 188. Dalir . . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 189. Sandbrekka . . . . . . be. | 24 | 1,80 | 3 | 2 l. |
| 190. Hlaupandagerði . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 191. Hrafnabjörg[3] . . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 192. Ós[4]. . . . . . Vallan. kke. | 16 | 1,40 | 2 | 2 l. |

Bessastaði, nema hún sè klaustrinu mjög nauðsynleg, og sýnist sem hún hafi fylgt því stöðugt síðan 1833.

13) 1696 er Brekka talin 16, Brekkugerði 12, og Brekkugerðishús 6 h. að dýrleika. Prestur nefnir eigi Brekkugerðishús, heldur »Hús», sem líklega er eð sama. Þegar ekkja er í brauðinu, fær hún Arneiðarstaði til ábúðar, eptir kon. br. 21. Febr. 1766. Með kon. úrsk. 4. Marts 1772 er jörð þessi (öll?) lögð lækni í Austurfjórðungi til frjálsrar brúkunar.

14) Hjáleigan Merki, sem á kirkjusókn að Hofteigi, lá áður undir þá svo kölluðu Trèbrúar þíngsókn (1804 Fossvalla hrepp), en er nú, að skýrslu sýslumannsins, í Jökuldals hreppi; en þareð það er hjáleiga, sem 2 eiga saman ásamt með heimajörðunni, þykir bezt fara að telja það hèr með henni, og þannig fólkið á bænum (8 manns) með fólkstali þessa hrepps.

1) 1696 og 1804 er staðurinn talinn 20 h. að dýrleika, en prestur einn telur í brauðskýrslu sinni 6 h. dýrleika á Svínafelli, og er leigumáli þar sèr í lagi hafður eptir jb. 1760.

2) Jörð þessi er 1696 og 1804 (þá sögð eign fátækra í Hjaltastaða, Eyða og Vallna hreppum) talin 20 h. að dýrleika.

3) Sýslumaður nefnir eigi jörðu þessa í sýslunni, en prestur til Hjaltastaða telur hana í þeirri sókn 31. Decbr. 1842, einsog hún líka jafnan áður sýnist hafa verið bygð.

4) Hjáleigan er fyrst nefnd 1804 (þó er minnzt á hana í reg.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 193. Heyskálar . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 194. Jórvík[5] . . . . . . . . be. | 10 | 1,80 | 2½ | 2 l. |
| 195. Jórvíkurhjáleiga } . . hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |
| 196. Klúka } . . hjál. | 6 | . . . | . . | 1 l. |
| 197. Gagnstöð. . . . . . . . be. | 12 | 0,80 | . . | 1 eig. að 7 h. |
| 198. Höll.[6] ½ Eyða kke., ½ be. | 20 | 1,30 | 2 | 1 eig. að 8 h. |
| 199. Hólshjáleiga . . . . . . . . | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 200. Viðarstaðir . . Vallan. kke. | 12 | 0,80 | 1 | 2 l. |
| 201. Ásgrímstaðir[7] . . . . . be. | 6 | 0,60 | ½ | 3 eig. |
| 202. Hrollaugstaðir. ½ Valþjófst. ½ Hallormst. kke. . . . . | 20 | 1,40 | 2½ | 4 l. |
| 203. Bóndastaðir . Vallan. kke. | 12 | 1,0 | 2 | 2 l. |
| 204. Dratthalastaðir. Kirkjub.kke. | 6 | 0,60 | 3 | 2 l. |
| 205. Ekra . . . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | 1 | 2 l. |
| 206. Stóra Steinsvað. 10 h. Túngu hr. fáte., 14 h. be. . . . | 24 | 1,50 | 1 | 2 l. |
| 207. Tjarnarland . . . . . . be. | 10 | 0,100 | . . | 1 l. |
| 208. Ketilstaðir[8] . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 1 | 3 l. |
| 8. Borgarfjarðar hreppur. | | | | |
| 209. Njarðvík. ½ Njarðv. kke., ½ be. . . . . . . . . . | 40 | 1,80 | 11 | 4 eig. |
| 210. Snotrunes . . . . . . . be. | 20 | 1,0 | 1½ | 1 eig. |
| 211. Geitavík[1] . . . . . . . be. | 8 | 0,80 | ½ | 1 l. |
| 212. Geitavíkurhjáleiga . . . . . | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 213. Bakki[2] . . . . . . . . . be. | 20 | 1,60 | 1 | 1 eig. |
| 214. Jökulsá . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 215. Hvoll[3] . . . . . . . . . be. | 8 | . . . | . . | 2 l. |
| 216. Gilsárvöllur[4] . . . . . be. | 20 | 1,80 | 2 | 1 eig. og 1 l. |
| 217. Gilsárvallarhjáleiga . . . . | . . | . . . | . . | 2 l. |
| 218. Hólaland. . . . . . . . be. | 10 | 0,100 | 1 | 2 l. |

1760), og segir þá, að á Heyskálum sé viðreki á 4 hesta, sem tilheyri Valþjófstaðar kirkju, Þíngmúla kirkju og jörðunum Eiði og Sandbrekku.

5) Dýrleiki á allri Jórvík er 1760 talinn 20 h., sem hér er skipt niður eptir sýslumanni.

6) 1695 er bænda hlutinn aðeins talinn 6 h. að dýrleika.

7) Prestur nefnir, millum Viðarstaða og Ásgrímstaða, Steinboga sem hjáleigu, sem hvergi annarstaðar finnst getið.

8) 1804 er eyðihjáleigan Litlu Ketilstaðir talin hér með, en eigi er hennar getið áður.

1) Hjáleigunnar geta sýslumaður og prestur einir, og telur sýslumaður 3 h. af dýrleikanum á henni.

2) 1760 og 1804 er hér með talin hjáleiga, Bakkagerði, í eyði, og er Bakki 1804 sagður 13 h. að dýrleika.

3) 1696 er hér talin 80 al. lsk. 1 kúg.

4) Sýslumaður telur 8 h. af dýrleikanum á hjáleigunni.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 219. Hvannstöð . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 220. Setberg[5] . . Desjarm. kkc. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 221. Desjarmýri[6] . . . . benef. | . . | 0,60 | 3 | prestur |
| 222. þrándarstaðir . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 223. Hofströnd . . . . . . . be. | 8 | 0,80 | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 224. Höfn . . . . . Vallan. kkc. | 12 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 225. Brúnavík . . . . . . . be. | 16 | 1,0 | 2 | 2 l. |
| 226. Glettinganes.[7] Skriðu kl. e. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 227. Kjólsvík[8] . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 228. Stóra Breiðavík.[9] Klyppst. kke. | 12 | 1,0 | 2 | 2 l. |
| 229. Litla Breiðavík. Húsavík. kkc. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 230. Húsavík.[10] ½ Húsavík. kke. ½ be. . . . . . . . . | 60 | 2,60 | 6 | 1 eig. að 21¾ h. og 1 l. |
| 231. Hólshús } | . . | . . . | . . | 1 eig. og 1 l. |
| 232. Dalland } . . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 233. Álptavík } | . . | . . . | . . | 1 l. |
| **9. Loðmundarfjarðar hreppur.** | | | | |
| 234. Nes[1] . . . . Skriðu kl. e. | 16 | 1,40 | 3 | 1 l. |
| 235. Neshjáleiga. . . . . . . . . | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 236. Stakkahlið. . Skriðu kl. e. | 12 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 237. Arnastaðir.[2] Skriðu kl. e. | 6 | . . . | . . | 1 l. |
| 238. Seljamýri.[3] Klyppst. kke. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |

5) Jörð þessi hefir áður fyrri optast nær verið í eyði, og er hún 1804 talin sem eyðihjáleiga með Desjarmýri, en 1696 er hún talin jörð sér, 8 h. að dýrleika með 40 al. lsk.

6) 1696 og 1804 er Desjarmýri talin 20 h. að dýrleika.

7) Jörð þessi var 1760 í eyði og eins 1804, og leigði þá bóndinn á Bakka landið til beitar, en 1696 er hún talin 4 h. að dýrleika með 40 al. lsk.

8) Jörð þessi hefir ástundum áður og enn 1804 verið í eyði, einsog bænda eignin Hvalsvík (1696: 4 h. að dýrleika, 40 al lsk. ¼ kúg.), sem líka var í eyði 1760, og nú eigi er getið af sýslumanni eða presti.

9) Jörð þessi er 1760 og áður talin meðal bænda eigna, en 1804 segir, að hún tilheyri Klyppstaða brauði, og að eyðijarðirnar Kjólsvík og Hvalsvík (227) sé hafðar héðan til beitar.

10) 1804 er Húsavík kölluð 40 h. Álptavíkur geta sýslumaður og prestur einir, en hjáleigan Dalland er 1696 talin 6 h. að dýrleika, með 60 al. lsk. 1 kúg. sér í lagi.

1) 1804 er Nes talið aðeins 6 h. að dýrleika (og er það líklega ritvilla).

2) 1696 er lsk. hèr talin 60 al. og kúg. 1.

3) Jörð þessi er 1760 talin meðal »stiptisjarðanna» (smbr. 74) og 1674 10 h. að dýrleika.

| | dýrl. | landsk. | kúg. | ábúendur |
|---|---|---|---|---|
| 239. Sævarendi.[4] Klyppst. kke. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 240. Klyppstaður[5] . . . . benef. | . . | 0,60 | 6 | prestur |
| 241. Úlfstaðir[6] . . . . . . . be. | 12 | 1,0 | 2 | 1 eig. |
| 242. Bárðarstaðir . . . . . . be. | 12 | 0,80 | 1 | 1 eig. |
| 10. Seyðisfjarðar hreppur. | | | | |
| 243. Skálanes . . . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 2 l. |
| 244. Austdalur.[1] Dvergast. kke. | 12 | 1,0 | 2 | 1 l. |
| 245. Bæjarstæði . . . . . . hjál. | . . | . . . | . . | 1 l. |
| 246. Þórarinstaðir . . . . . fáte. | 6 | 0,60 | . . | 1 l. |
| 247. Hánefstaðir[2] * . . . . be. | 6 | 0,60 | . . | 1 eig. |
| 248. Sörlastaðir[3] . . . . . . be. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 249. Fjörður[4] . . . . . . . . be. | 22 | 0,50 | 1 | 2 l. |
| 250. Fjarðarsel } . . . . . . . hjál. | 4 | . . . | . . | 1 eig. |
| 251. Oddi } . . . . . . . hjál. | 4 | . . . | . . | 1 l. |
| 252. Vestdalur[5] * . . . . . be. | 9 | 0,90 | $1\frac{1}{2}$ | 1 eig. |
| 253. Dvergasteinn[6] . . . benef. | . . | 1,0 | 6 | prestur |
| 254. Selstaðir[7] . Dvergast. kke. | 6 | 0,60 | 1 | 1 l. |
| 255. Brimnes.[8] Eyða pr. lènsj. | 12 | 1,0 | 2 | 2 l. |

4) Jörð þessi er 1696 (60 al. lsk.) og nú hjá sýslumanni talin 6 h., en 1804 4 h. að dýrleika.

5) 1696 og 1804 er jörð þessi talin 10 h. að dýrleika, og er 1670 með henni talin eyðihjáleiga, ónefnd.

6) Jörð þessi heyrði áður undir Skriðu klaustur, en með úrskurði konúngs 20. April 1837 var henni skipt fyrir Vallnakot og Brekknakot í Norður sýslu, sjá 273 og 328 í Suður-Þíngeyjar sýslu.

1) 1760 er jörð þessi talin meðal »stiptisjarðanna« (sjá 74) og 1674 talin 20 h. að dýrleika. 1804 er hjáleiga sú, sem þá var bygð (1760 er eigi getið neinna hjáleigna frá Austdal) köllnð Ingveldarstaðir, og nýbýli, en nú telja sýslumaður og prestur báðir aðeins hjáleiguna Bæjarstæði.

2) Jörð þessi var áður með Papeyjar umboði.

3) 1804 og nú hjá sýslumanni er jörð þessi talin Ketilstaða kirkju eign í Suður-Múla sýslu, en 1760 var hún meðal bænda eigna.

4) 1760 er Fjörður með hjáleigunum talinn 30 h. að dýrleika, en dýrleika þessum er skipt niður á hann og þær eptir sýslumanni.

5) 1760 og 1804 er hèr með talin eyðihjáleiga, Vestdalsgerði, og var jörðin áður með Papeyjar umboði.

6) 1760 og 1804 er hèr með talin hjáleiga, Hóll, í eyði, og var staðurinn 1696 og 1804 talinn 12 h. að dýrleika.

7) 1804 var hèr með yrkt eyðijörð Dvergasteins kirkju, Kolstaðir (1760, 6 h. að dýrleika, 60 al. lsk.), sem einnig áður opt hafði verið í eyði. Þá segir og frá eyðijörð Dvergasteins kirkju, Hjálmarströnd, er um tíma sè brúkuð af Selstaða bónda, og sè þar viðreki nokkur, og eigi Dvergasteins kirkja $\frac{3}{4}$, en Klyppstaðar kirkja $\frac{1}{4}$ af honum

8) Jörð þessi er 1760 talin meðal »stiptisjarðanna« (sjá 74) og 1674 20 h. að dýrleika. Í registri til jb. 1760 er hèr getið um

Frá almennum leigumála á meðaljörðum að dýrleika í hverjum hrepp skýrir sýslumaður þannig: að í *Skeggjastaða hreppi* (þar voru, eptir fólkstölulista prestsins, við árslokin 1842, 192 manns) sè 8 hundraða jörð leigð með 80 al. lsk. $1\frac{1}{2}$ kúg., landskuld og leigur í ullu, smjöri, tólg og veturgömlum sauðum; í *Vopnafjarðar hreppi* (633 m.) hvert jarðar hundrað með 10 al. lsk., og 4, 6 og 8 hundraða jarðir með einu, en enar stærri með tveim kúgildum, og sè landskuldin greidd í ullu og tólg, eða með veturgömlum sauðum (á 10 al.), eða stundum með lambafóðrum (á 5 al.); í *Túngu hreppi* (281 m.) 8 hundraða jarðir með 80 al. lsk. — í ullu, tólg og veturgömlum sauðum — og 1 kúg., enar stærri aptur á móti með $1\frac{1}{2}$ og 2 kúgildum; í *Jökuldals* og *Hlíðar hreppi* (114 m.) sömuleiðis; í *Fellna hreppi* (253 m.) 8 hundraða jarðir með 80 al. lsk. og $1\frac{1}{2}$ kúg. eða og aðeins 8 ám; í *Fljótsdals hreppi* (296 m.) jarðar hundrað hvert með 10 al. lsk. og 1 kúg. með hverjum 6 jarðar hundruðum; í *Hjaltastaða hreppi* (354 m.) sömuleiðis, og fylgi hèr 1 kúg. með 6 hundraða jörðum og minni, og er lsk. og kúgilda leiga hèr greidd í landaurum og sauðum; í *Borgarfjarðar hreppi* (301 m.) 8 hundraða jarðir með 80 al. lsk. og 1 kúg., og er kúgilda leiga sem landskuld hèr greidd með veturgömlum sauðum, ullu og tólg; í *Loðmundarfjarðar hreppi* (96 m.) jarðar hundrað hvert með 10 al. lsk. og 1 á í kúg., og í *Seyðisfjarðar hreppi* (163 m.) jarðar hundrað hvert með 4 fjórðúngum af harðfiski, eða, ef á brestur, 10 álnum í ullu og tólg, og með 1 á í kúgildi.

Á jörðum þeim, sem að framan eru taldar, 255, eru, eptir skýrslu sýslumannsins (20. Septembr. 1845) 339 búendur, og meðal þessara 69, sem búa á sjálfs eign. 1804 aptur á móti voru bygð ból í sýslunni, að frátöldum þeim, sem síðan eru komin inn undir Norður þíngeyjar sýslu (sjá skýrsluna við hana að framan) samtals 223, og á þeim 243 búendur, og á meðal þessara 35, sem að nokkru eða öllu bjuggu á sjálfs eign.

Eptir skýrslum prestanna við árslokin 1842 eru sýslubúar samtals 2,983, að meðtöldum 20 manns í Möðrudals sókn, í Jökuldals og Hlíðar hreppi (131—132, smbr. Skinnastaða brauðskýrslu í Norður þíngeyjar sýslu að framan).

Í sýslu þessari eru (auk Möðrudals, 131—132) 10 prestaköll:

1. *Skeggjastaðir á Lánganes-ströndum*, þ. e. bæirnir

hjáleigu, Slèttanes. Milli Selstaða og Brimness segir 1804, að sè land nokkurt, sem talið sè eign Dvergasteins kirkju, og sè það í kirkjubókinni kallað 4 h. að dýrleika, og vilji prestur skilja það svo, að það sè 4 h. úr Brimnesi, og jörð þessi með því 16 h. að dýrleika, og hafi bóndinn á Brimnesi áður goldið presti 30 al. eptir þessi 4 h.

1—19. Brauðið er metið 5 rd. Prestsetrið Skeggjastaðir »er í niðurníðslu, hvað hús, tún og eingjar snertir». Túnið fóðrar rúmlega 2 kýr, og útheyskapur er reitíngsamur og illt að honum að vinna, en aptur bætir útigángur á vetrardag og fjara hann upp. Staðurinn á reka allan viðar, og víst $\frac{2}{3}$ hvalreka fyrir sínu landi, svo nær hèr og til fiskiafla og hákarls, þegar því er að sæta. Líka má til hlynninda telja nokkra grasatekju, litla látraveiði þá vel fellur og veiðivatn fram í heiði, sem þó sjaldan verður notað; en önnur hlynnindi og ítök Skeggjastaða eptir máldögunum eru gjörsamlega gengin undan. Staðar-hjáleigurnar eru bygðar þannig: Barð með »einhverjum smákvöðum» til staðarhaldara, Dalhús með 40 al. lsk. 1 kúg. og Gæsagil með 25 fiska lsk. og $\frac{1}{2}$ kúg., en Eiríkstaðir (121) með 1 h. lsk. og 2 kúg. Fasteignar tíund 41 f., lausafjár tíund, að meðaltali í 5 ár, 96 f., heytollar 25 og dagsverk 16. Sóknarmenn: 192.

2. *Hof í Vopnafirði*, þ. e. bæirnir 20—74. Brauðið er metið 52 rd. 5 mk. 8 sk.*. Prestsetrið Hof framfærir á töðu 4 kýr, en fremur er staðurinn lèttvæg bújörð, og útheyskapur lítill, nema með mikilli fyrirhöfn, skemmist líka næstum árlega af vatna-ágángi. Áður fyrri var haldið ófært að hafa hèr meira enn 100 fjár fullorðið, en prestur sá, sem nú er, hefir jafnan haft 300, og hefir þar til stuðlað ferja á ánni, er hann hefir haft, og aldrei ætti að vanta á staðnum. Silúngsveiði í ánni launar sjaldnast ómakið. Rekaítök staðarins hafa um næstliðin 20 ár gefið mjög lítið af sèr. Varphólmar 2 (smbr. 45), sem kirkjunni fylgja, og $2\frac{1}{2}$ rd. áður fengust eptir í leigu, hafa með umhirðíngu, í 20—30 ár jafnaðarlega aukið árs tekjur staðarhaldara með 100 rbd., og þar yfir. Í Steinvarartúngu hefir prestur beitarhús fyrir sauði á vetrum og afrètt fyrir geldfè á sumrum, og í afrèttartoll stundum 2 eða 3 lambsfóður, hjá þeim öðrum, sem þángað hafa rekið. Bjarnarey er optast arðlítil, en stundum er haldið þar út til hákarlaveiða á vorin, og þá kunna að gjaldast þaðan 1—2 rbd., eptir sem skipin eru mörg. Heima á staðnum eru 6 ær, 1 kýr, 1 hestur og 2 hross, en á kirkjujörðunum öllum, hverri um sig, er 1 kúg., nema á Viðvík og Refstöðum, $1\frac{1}{2}$ á hvorri, og er landskuld af kirkjujörðunum nú greidd þannig: af Saurbæ á Ströndum 60 al., Viðvík 1 h., Fremri-nýp 60 al., Skógum 80 al., Rjúpnafelli 80 al., Haukstöðum 60 al., Sírekstöðum 60 al., Hraunfelli 60 al., Refstöðum 90 al., Rauðshólum 40 al., Fagradal 60 al., Skoruvík á Lánganesi (í Norður þíngeyjar sýslu, 127) 80 al., Skálum (samastaðar, 128)

*) Þ. e. eð gamla mat á Hofi (37 rd.) og Refstöðum (15 rd. 5 mk. 8 sk.) saman.

80 al. og af Kumblavík (samastaðar, 129) 80 al. Leigur og landskuld af jörðum þessum öllum borgast »í landaurum, eptir fiska tali». Fasteignar tíund 251 f., lausafjár tíund 340 f., heytollar 76 og dagsverk 13. Af brauðinu eru uppgjafaprestum lagðir 3 rbd. 36 sk., og fátækum presta ekkjum 36 sk. Sóknarmenn: 633.

3. *Kirkjubær í Túngu*, þ. e. bæirnir 75—113 og 204—207. Brauðið er metið 61 rd. 4 mk. Prestsetrið er að álíta sem hèraðsjörð í meðallagi að gæðum og hlynnindum. Túnið fóðrar 4 kýr, en útheyskapur er bæði reitíngsamur og örðugur, en þó reyndar eigi mjög lítill. Rekaítök kirkjunnar: Maríu- og Húseyjarsandar, 14 hundruð faðma tólfræð, og hálfur Helmíngasandur, sem allur er 700 faðma lángur, svo og í hvalrekum á Lánganesi, Austurströndum, fyrir Böðvarsdals og Fagradals löndum í Vopnafirði, hafa, ásamt þeim fleirum, sem kirkjunni eru eignuð, um lángan aldur verið arðlaus með öllu. 1834 fylgði staðnum sem innstæða: 2 kýr, 3 hestar, 18 ær og 12 sauðir veturgamlir. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Galtastaðir ytri með 1 h. lsk. 2 kúg., Galtastaðir fremri 1 h. lsk. 1½ kúg., Gunnhildargerði 40 al. lsk. 1 kúg., Nefbjarnarstaðir 80 al. lsk. 2 kúg., Geirastaðir 60 al. lsk. 1½ kúg., Húsey 1 h. lsk. 2 kúg. og Dratthalastaðir (20i) 60 al. lsk. 2½ kúg. Landskuldir og leigur af öllum þessum jörðum greiðast i landaurum eptir forngildi. Fasteignar tíund 140 f., lausafjár tíund 372 f., heytollar 54 og dagsverk 20. Af brauðinu eru uppgjafa-prestum lagðir 3 rbd. og fátækum presta ekkjum 72 sk. Sóknarmenn: 190.

4. *Hofteigur á Jökuldal;* og eru í Hofteigs sókn bæirnir 114—120, 123—126, 128 og 179, en í Brúar sókn 121—122, 127 og 129—130*. Brauðið er metið 15 rd. 4 mk. Skóglendi það og vetrarbeit sú, er staðurinn fyrrum hafði, er nú hvorttveggja eydt af sandi og blástri, þó er fjárbeit lítilfjörleg eptir; af sömu orsök er og tún staðarins orðið hálfu minna enn áður. Þau í máldögunum tilteknu skógarítök kirkjunnar »eru að mestu leiti farin». Hvanná er bygð með 1 h. 40 al. lsk. (þar í 8 lamba fóður og 1 teigslátta) og 2 kúg., og Arnórstaðir með 1 h. lsk. (þar í 4 lamba fóður og 1 dagslátta) og 2 kúg. Fyrir að þjóna »Brúar kapellu» hefir prestur i nokkur undanfarin ár fengið 20 al. (og er þángað frá staðnum fullkomin dagleið, »og yfir 13 þverár, strángar og stórgrýttar að sækja»; auk þessa er vegurinn bæði svo örðugur og vatnsgrafinn, að hann er öllum ófær, nema í beztu tíð um hásumar, og var kapellan þessara orsaka vegna bygð af eigendum jarðariunar seint á næstliðinni öld, en þó eru lík grafin við aðal-

*) Hèr eru sókna skil mjög óljós eptir fólkstölulista prestsins.

kirkjuna). Fasteignar tíund 36 al. (»þar helmíngur þessarar litlu sóknar er klaustur- og kirkna eignir»). Aðrar tekjur prestsins, að meðaltali um árin 1838—1839, eru taldar saman á 257 al., en seinna, 8 Júlí 1810, lausafjár tíundin sèr 110 al., heytollar 18, og dagsverk 2, að meðaltali. Sóknamenn: 246.

5. *Ás í Fellum*, þ. e. bæirnir 133—153. Brauðið er metið 18 rd. 1 mk. Af staðar túninu falla rúmlega 3 kýrfóður. Útheyskapur er reitíngsamur og lángsóktur, og verður varla hafður meiri enn á 130 hesta, og má á því framfæra 100 ær, 100 sauði, 40 lömb og 6 hesta, þareð útigángur er hèr í betra lagi. Grasatekja er eigi teljandi og afrèttar land er mjög lítið; skógur er eigi orðinn til, þar sem máldagarnir greina frá skógarítökum staðarins, og á hann, eptir þeim, enn fremur: fjórðúng hvals og viðar í öllum Ósrekum, fjórðúng hvals og viðar í Sleðbrjóts reka, hundrað lamba beit á Vestureyjar í Ketilstaða land, lambarekstur í Hnefilsdals land, og eingiteig í Meðalnes jörð í Hlöðugeil. Sigurðargerði (1839, smbr. athugas. við 149) er bygt með 1 kúg. og 50 al. lsk., en kirkjujarðirnar Fjallsel, Hafrafell hálft og Kross með 1 kúg. 60 al. lsk., hver jörðin um sig, þó er aðeins hálft kúgildi á Fjallseli. Í Vopnafirði á kirkjan Torfaland með reka, talið til 2 h., og er eitthvað lítið goldið eptir það, sem sýnir að eignin sè viðurkennd. Fasteignar tíund 115 f., lausafjár tíund, að meðaltali í 5 ár, 211 f., heytollar 31 og dagsverk 5. Sóknarmenn: 253.

6. *Valþjófstaður í Fljótsdal*, þ. e. bæirnir 154—178. Brauðið er metið 43 rd. 1 mk. 4 sk. Á staðnum má framfæra 7 kýr, 150 ær, 170 sauði, 60 lömb og 16 hesta, og má fóðra kýrnar á töðu eingaungu, en fyrir hinn penínginn fást 250—300 hestar útheys, og bætir útigángur, sem má kallast góður, það upp, sem vantar af heyi til gripafóðurs. Staðurinn á skóg til kolagjörðar í Lánghúsa, Arnhallstaða og Þorgerðarstaða löndum, en skógarteigur kirkjunnar í Ytri Víðivalla landi má heita liðinn undir lok; skógarteigur kirkjunnar í Hrafnkelstaða landi er notaður til eldsneytis. Aptur á móti er skógarpartur sá, sem staðurinn á í Fremri Víðivalla landi, eigi yrktur, en friðaður og í gróðri. Kirkjan á enn fremur 2 afrèttarlönd, millum beggja Jökulsánna í Fljótsdal og á Jökuldal, sem árlega eru brúkuð til skiptis fyrir hèrum 1,500 fjár, og er þar nokkur grasatekja; svo og þriðja afrèttarlandið, á Suðurfelli, og er það notað fyrir lömb, og þar sömuleiðis nokkur grasatekja. Eptir »hálfan reka með Desjarmýri» hefir lengi ekkert fengizt, og um Valþjófstaðar kirkju rekaítök »fyrir Bakkanum enum neðra og í Geitavíkunum», svo og í Húsavík, er þræta. Kirkjujarðirnar eru bygðar þannig: Vaðbrekka (129) með 60 al. lsk

og ½ kúg., Aðalból (130) 60 al. lsk. 1 kúg., þorgerðarstaðir 60 al. lsk. 1½ kúg. (4 lamba fóður og 1 teigsláttur eptir kúgildin), Arnhallstaðir sömuleiðis, Lánghús 60 al. lsk. 1 kúg. (2 lamba fóður og 1 teigsláttur eptir kúgildið), Kleif sömuleiðis, Egilstaðir með Eyrarseli 80 al. lsk. 1½ kúg. (4 lamba fóður og 1 teigsláttur eptir kúgildin), þuríðarstaðir 60 al. lsk. 1½ kúg. (kúgılda leiga greidd eins og á Egilstöðum), Höll 30 al. lsk. 1 kúg. (kúgildis leiga 2 lamba fóður og 1 teigsláttur), 7½ hundrað í Arneiðarstöðum 75 al. lsk. 1 kúg., Hrollaugstaðir hálfir (202) með 2 hundraða faðma laungum sandi, 100 al. lsk. og í reka-leigu, og 6 lamba fóður eptir 1½ kúg., og þorgrímstaðir í Suður-Múla sýslu (200) með 90 al. lsk. og 1 kúg. Í með-sendri afskrift af lögfestu gamalli er getið Rafnkelsdals, og skýrir prestur frá, að með Aðalbóls heimalandi sè bygður Seljadalur, »sem meinist það sama sem Rafnkelsdalur» (smbr. athugas. við Jökuldals og Hlíðarhrepp að framan og M. Ketils. III, bls. 245). Fasteignar tíund 30 f., auk þess svo kallaða prestkaups af Skriðuklaustri, 6 rbd. 42 sk. (kon. br. 20. Jan. 1792). Lausafjár tíund 388 f., heytollar 25 og dagsverk 12, allt að meðaltali í 8 ár. Af brauðinu leggjast uppgjafa-prestum og presta ekkjum 3 rbd. 18 sk. Heima á staðnum eru 36 ær og 6 hestar sem innstæða. Sóknarmenn: 288.

7. *Hjaltastaður*, þ. e. bæirnir 180—203 og 208. Brauðið er metið 11 rd. 5. mk. Hjaltastaðar tún eru 12 teigir að stærð, ógreiðfær mjög og þýfð, en eingjar allar slèttar og votlendar. Af túninu fást 100, og af einginu 200 hestar. Útbeit er sára lítil. Jörðin framfærir hèrum 4 kýr, 200 fjár og 6 hesta. Kolskógur er ennþá nógur í heimalandi og í skógarteig staðarins í Hreimstaða landamerkjum; frá staðnum er og lítilfjörleg silúngsveiði. Hjáleigan Svínafell er bygð með 1 kúg. og 6 fjórðúnga lsk. í landaurum og 1 dagsláttu, helmíngur landskuldar og leigna í smjöri og helmíngur í tólg. Fasteignar tíund 64 f., lausafjár tíund, að meðaltali í 5 ár, 200 f., heytollar 48 og dagsverk 5. Sóknarmenn: 301.

8. *Desjarmýri* (í Borgarfirði); og eru í Njarðvíkur sókn bæirnir 209—217, en í Desjarmýrar sókn 218—228*. Brauðið er metið 18 rd. 5 mk. 8 sk. Prestsetrið hefir vanræktuð og þýfð tún, en víðlent og blautt mýrareingi, en sæmilega er það grasgefið. Túnið gefur, »óendurbætt», eigi nema fóður handa 2 kúm, en úteingið 300 hesta. Heyfall er hèr gott til fóðurs. Jörðin á nægilegt harðvellis- hrís- og mýrlendis beitarland, einnig afrèttar stykki, en beitarlönd þessi eru undir gripa ágángi annara. Kirkjan á og talsverð rekaítök í annara lönd, er þó sumt af því næsta arðlítið. Kirkjujarðirnar eru bygðar

*) Hèr eru sókna skil mjög óljós, eptir fólkstölulista prestsins.

